# TVÆR ÆFISØGUR

## ÚTLENDRA MERKISMANNA,

ÚTGEFNAR

AF

HINU ÍSLENZKA

## BÓKMENTAFÈLAGI.



I. FRANKLÍNS ÆFI.

II. þARFUR MAÐUR Í SVEIT.

KAUPMANNAHÖFN 1839.

PRENTAÐAR HJÁ S. L. MÖLLER.

Farsæld þjóðanna er ekki komin undir því að þær sèu mjög fjölmennar, eða hafi mjög mikið um sig. Sèrhvörri þjóð vegnar vel, sem hefir lag á að sjá kosti lands síns, og nota þá einsog þeir eiga að vera notaðir. Löndin eru lík einstökum jörðum; ekkert land hefir alla kosti, og aungu er heldur alls varnað; en það ríður á að taka eptir kostunum og nota þá vel, en sjá til, að ókostirnir gjöri sem minnst tjón. Einkanlega varðar mjög um þetta í hinum harðsætari löndum, því kostir þeirra eru ógreiðari aðgaungu, og þarf fylgis og dugnaðar, ef þeir eiga að verða að fullum notum. En fylgi og dugnaður geta eins lýst sèr hjá fámennri þjóð einsog fjölmennri, og reynslan sýnir, að jafnvel á meðal heldri þjóðanna hafa einstakir menn fyrst tekið sig fram um sèrhvörn dugnað, en síðan hefir

þókt vel takast, ef aðrir hafa viljað hafa það eptir sem hinir lèku fyrir.

Það er harðla eptirtektarverðt, hvörsu ymsir menn hafa með frábærum dugnaði og aðfylgi komið sèr í fremstu röð meðal þjóðar sinnar, þó þeir væru í upphafi meðal hinna öptustu, og síðan fært þjóðina alla á greiðari götu, enn áður gekk hún; og er jafnan merkilegt að heyra frásagnir um, hvörja aðferð þeir hafa valið til slíks, hvað þeim hafi auðnast að framkvæma, og hvörr aðdragandi hafi verið að framkvæmdum þeirra. Slíkar sögur hljóta að vekja alla þá, sem heyra þær eður lesa, til að taka eptir, hvörnig dæmi slíkra manna gæti komið til nota þarsem þeir eiga hlut að máli, og geta einnig vakið eptirtekt manna á ymsum hlutum sem merkilegir eru, og hvörr maður ætti að vita grein á. Hið íslenzka bókmentafèlag býður nú Íslendíngum sögur af tveimur merkis-mönnum:

1. Af Franklíni prentara, einhvörjum merkasta manni, sem sögur hafa farið af; hvörki hafði hann tign nè auð að styðjast við í upphafi, en hann ávann sèr sjálfur hvörttveggja, og varð oddviti þjóðar sinnar bæði í þekkíngu og dugnaði, á hún honum að

þakka frelsi sitt að miklu leiti, og allt það gott, sem af því hefir leidt. En auk þessa á allt mannkyn honum margt og mikið að þakka, og mun orðstýr hans vera uppi meðan veröldin stendur. Sögu þessari er snúið af dönsku máli, og er hún samin af Markmanni, dönskum presti hèr í staðnum, en hann hefir tekið hana eptir æfisögubroti, sem liggur eptir Franklín sjálfan, er sonarsonur hans Vilhjálmur Franklín og vinur hans Stúber hafa aukið við síðan. Prentfrelsisfèlagið hefir látið prenta bæklíng þennan á dönsku í hitt ið fyrra, og nú nýlega í annað sinn, um það leiti sem sagan var hèr fullprentuð. Útleggíngin er samin af Jóni Sigurðssyni, philol. stud.

2. Af Oberlíni presti, sem öllum mun sýnast merkilegur maður, og eptirbreytnisverður fyrir sèrhvörn mann í sinni sveit. Varla mun liggja meira eptir einn prest í sókn sinni, heldurenn eptir þennan mann, því hann efldi ekki einúngis velmegan meðal sóknarbarna sinna, heldur og einnig alla þekkíngu og fróðleik, en þekkíng og kunnátta gjörir velmeganina stöðuga og affaragóða. Saga þessi er tekin eptir söguágripi, sem

prentað var í þjóðblaðinu í fyrra, og var jafnframt hliðsjón höfð af annarri lengri sögu, sem áður er prentuð. Útleggíngin er samin af Ólafi Pálssyni, stud. theol.

Fèlagið vonar að Íslendíngar muni ekki setja bæklíng þennan hjá, nè misskilja hann, heldur færa hann sèr í nyt samkvæmt tilgángi hans; þá telur fèlagið, og þeir sem að bæklíngnum hafa unnið, ómaki sínu vel varið.

**Kaupmannahöfn, 8da Maí 1839.**

Bandafylkin í Vesturálfu eru nú eitthvört hið auðugasta land í veröldinni: þar eru jarðir frjófsamar og vel setnar; borgir stórar og fjölmennar; liggja járnbrautir aptur og fram um allt landið, en hjólskip*) bruna um ár og vötn; þar er kaupverzlun og skipagánga í mesta blóma. — En land þetta var býsna ólíkt að sjá fyrir tveimhundruð árum síðan: þá var þessi hinn stóri geymur eins og furðulega mikil viðivaxin heiði eða móafláki, og á honum öllum sást ekki kvikt, nema einstaka villtir menn, eyrlitir, sem höfðust við á veiðum á mörkum úti, milli stórvatnanna og ánna. Að sönnu þektu Norðurálfumenn land þetta frá því skömmu eptir að Kolúmbus fann miðbik Vesturálfu (1492)**),

*) *Hjólskip* þykir meiga nefna þau, sem renna fram á hjólum líkt og vagnar; er þar sitt hjol á hvört borð, en bæði hjólin leika á ási, sem gengur í gegnum skipið. En að því leiti sem eldsmagn eða annað afl knýr hjolin til snúníngs, þá skiptast hjolskip í tvo flokka: *eldskip* (eldskutur, eldbátar) eður gufuskip, sem bæði eru til smá og stór, og *stigbáta* eður spyrnibáta, sem allir eru smáir, því þar er snúning komið á hjólin með spyrniafli nokkurra manna.

**) það hefir lengi verið meiníng manna, og er fyrir skömmu greinilega sannað af Herra Prófessor Rafni í bok nokkurri sem hann hefir gjört og hið norræna Fornfræða-

en ekki fyrr enn rúmum hundrað árum seinna fóru þeir að gefa því nokkurn gaum, því á öndverðri 17du öld byrjuðu enskir menn að flytja þángað búferlum, og tóku þeir sèr þá fyrst bústaði nálægt sjó, ruddu þar merkur og græddu svo út smámsaman. Eptir að Englismenn voru búnir að búa um sig, og sögðu góða landskosti á hinu nýa landi, fóru menn að sækja þángað úr öðrum löndum í Norðurálfu, og gjörðist þá mikið samband þjóðanna og túngumálanna, en aungu síður trúarbragðanna. Menn námu lönd lángt frá sjó, og smáheröðin, sem áður varla voru nema rjóður ein, urðu nú að fjölbygðum stórfylkjum. Höfuðsmaður einn var settur yfir hvört fylki af hendi Englismanna, og voru honum fengnir innlendir kunnugir og skynsamir menn til ráðaneytis, sem alþýðu var leyft að velja. Höfuðsmaðurinn varð að leita þessa ráðaneytis optlega, en einkum var svo ráð fyrir gjört, að aungar álögur mætti skipa landsmönnum, nema greint fulltrúaþíng, er nefnt var „samkundan" (Congres), játaði slíku.

Seinast á 17du öld var mjög róstusamt á Englandi af deilum manna um stjórnarrèttindi og trúarbrögð, og stukku margir úr landi vegna þeirrar

félag látið prenta, og nefnist „Antiqvitates Americanæ", að land það sem Íslendingar enir fornu þektu, og að líkindum margir Norðurlandabúar á sömu öld, og kölluðu Vínland hið góða, sè í bandafylkjum Vesturálfu; hafa menn einnig tekið þar eptir nokkrum vegsummerkjum, og fleirum hlutum, sem sanna sögu forfeðra vorra um landið, svosem ýtarlega er fráskýrt í bókinni, en hèr yrði oflangt að telja.

styrjaldar; rèðu þeir flestir af að fara vestur um haf, og leita sèr frelsis og framfæris í Vesturálfu, því þaðan voru sagðir landskostir góðir, en bygð lítil. Í þessara flokki var Jósías nokkur Franklín, ættaður úr Norðheimtúns-skíri*), og höfðu lángfeðgar hans búið þar lengi, og verið frægustu járnsmiðir. Franklín þessi tók sèr bústað í Bostúni 1682, og lifði af sápugjörð og kerta, en var þó mesti ómegðarmaður. Í þeim bæ fæddist ýngsti sonur hans *Benjamín* nálægt miðjum vetri (17da Janúar) 1706.

Jósías Franklín var guðhræddur og ráðvandur, og hinn mesti skynsemdar maður, en átti erfiðt uppdráttar; með mesta sparnaði og yðjusemi gat hann að eins orkað að færa fram börn sín 17, en var ekki fær um að útvega sonum sínum þá kennslu í uppvexti þeirra sem hann vildi. Snemma bar á gáfum hjá Benjamíni, og föður hans lángaði til að geta einhvörntíma orðið svo ríkur að hann gæti látið kenna honum til prests, en hann var aldrei svo efnaður.

Þegar Benjamín var á áttunda ári var honum komið í skóla, og þar lærði hann rèttvel að skrifa, en hann varð að fara bráðum heim aptur til að hjálpa foreldrum sínum að steypa kerti. Þessi vinna aptraði, sem nærri má geta, mikið framförum hans í kunnáttu, en faðir hans lagði allt kapp á að bæta úr því með góðri umgengni og fróðlegum viðræðum. Meðal annars hafði hann þann sið að bjóða skynsömustu vinum sínum og grönnum til borðs með sèr svo opt sem hann gat, og hneigði

*) Skíri (shire) nefnast heröð á Englandi.

hann ávallt borðræður þeirra til einhvörs þess efnis, sem gat lagað hjartalag eða skilníng barnanna. „Með því", sagði Benjamín seinna, „vakti hann eptirtekt okkar á öllu því sem var gott, rètt og skynsamlegt, en ekki tókum við neitt eptir hvað okkur var gefið að borða; jeg vandist þá á að vera ómatvandur, og ennþá man jeg ekki nokkru eptir matmál hvað á borð hefir verið borið.

Þegar Benjamín var 12 vetra gamall fór mjög að bera á að honum leiddist kertasteypan; hann vildi þá óvægur verða sjómaður, en það vildi faðir hans ekki, heldur einsetti sèr að koma honum fyrir til að nema hagleik nokkurn, svo laungun hans til sjóferðanna yrði ekki of mögnuð með aldrinum. Hann gekk smámsaman til ymsra hagleiksmanna, rennismiða, járnsmiða og annarra, og sýndi syni sínum hvörnig varið væri hvörs eins yðju, til að komast eptir hvörju honum væri helzt fýsn á. Sveininum leizt einna bezt á járnsmíði, og af því föður hans var það ekki móti skapi, var honum komið fyrir hjá meistara einum til reynslu; en þegar að átti að herða um skilmálana, var meistarinn svo heimtufrekur, að ekkert varð af neinu. Benjamín hafði frá blautu barns beini verið gefinn fyrir að lesa, og gleypt með mestu áfergju efnið úr öllum þeim bókum sem hann komst yfir. Þetta var orsök til að faðir hans um síðir ákvarðaði að hann skyldi verða prentari, þó annarr sonur hans væri það á undan. Hjá þessum bróður sínum, sem bjó í Bostúni, fór þá Benjamín að læra að prenta.

Þessi yðn átti algjörlega við lyst hans og

geðslag. Hann gat alltaf útvegað sèr margar og góðar bækur, og vakti marga nótt til að fara yfir sumar, sem hann mátti ekki halda lengi. Bráðum fór hann að lánga til að yrkja, og gladdist hann mjög þegar honum var lofað að prenta nokkur smákvæði, en hann tók bráðum eptir því sjálfur, að honum var ekki lagin skáldskaparmentin. Um þetta leiti kynntist hann við annan únglíng sem hèt Kollins, og var líka mikill bókavinur; þeim bar opt á milli útúr því sem þeir höfðu lesið, og einusinni bar svo við að þeir skildust fyrr enn kappræða þeirra var á enda. Benjamín tók sig þá til, og skrifaði upp ástæður sínar; útaf því byrjuðu þeir að skrifast á og gekk það nokkra stund. Einusinni komst faðir Benjamíns að því, og þókti vænt um, en sagði syni sínum að hann orðaði ekki einsvel og Kollins. Þetta hvatti Benjamín til að fara að hugsa um að vanda orðfæri sem mest. Hann tók sèr kafla úr ensku tímariti sem þá var prentað og kallað spectator (áhorfandinn), setti vel á sig efnið í þessum kalla, lagði síðan bókina frá sèr, og skrifaði efnið upp með svo góðu orðfæri sem hann hafði faung á; síðan bar hann þetta saman við það sem stóð í bókinni, og leiðrètti orðfæri sitt eptir því. Þessu hèldt hann áfram, þángaðtil hann var orðinn betur að sèr enn kunníngi hans. Til þessara yðkana hafði hann einúngis stundarkorn á morgna og kvöld á rúmhelgu dögunum meðan aðrir sváfu, því allan daginn varð hann að vinna í prentsmiðjunni.

Um þetta leiti las hann margar bækur, og sagði hann svo síðan, að margar af þeim hefðu fengið

mjög á sig, en einkum nefndi hann til þess eina, sem lærður maður nokkurr, er hèt Meðir (Mather), hafði gjört, sú bók var um góðverk. „þessi bók", segir hann, „sneri öllum huga mínum í það horf sem hann hefir haft síðan í merkilegustu viðburðum lífdaga minna. Síðan hefi jeg ekki glaðst af neinu eins og þegar jeg hefi gjört einhvörjum gott, og hefi jeg talið mèr það meiri sóma enn sèrhvað annað sem mèr hefir verið gjört til sæmdar". Aðra bók las Benjamín, sem rèði öllum að hafa einúngis jurtir og jarðar ávexti til viðurværis, það ráð fèll honum vel í geð, og hann ásetti sèr að fylgja því. Bróðir hans var þá enn ókvongaður, og borðaði með kennslupilltum sínum hjá fólki sem bjó þar í bænum, einsog búlausum mönnum er tíðt; Benjamín bauð honum að sjá sèr sjálfur fyrir fæði, ef hann fengi helmínginn af því sem annars var goldið fyrir mat handa honum, og það lèt hinn eptir; fèlagar hans kölluðu þetta dutlúnga, en hann hætti ekki fyrirtæki sínu samt. „Af því sem bróðir minn fèkk mèr" segir hann, „gat jeg keypt bækur fyrir helmínginn, og hafði auk þess þau not af fyrirtæki mínu, að jeg varð einn eptir í prentsmiðjunni þegar hinir fóru að borða; jeg var þá ekki lengi með lèttmetið mitt, sem ekki var annað enn hveitibrauðs kaka og hnefafylli af rúsínum og svo glas af vatni, en tímann sem þá varð eptir, þángaðtil hinir komu aptur, hafði jeg til lestrar. En af sparneytninni varð jeg bæði næmari og skilníngsbetri".

1720 fór bróðir hans að stofna til dagblaðs útgjörðar, og var þá ekki nema eitt prentað áður

í öllu landinu; nokkrir af vinum hans voru gáfaðir menn, og sömdu þeir stuttar ritgjörðir sem þeir lètu prenta í blaðinu, bæði til þess að auðga það og sjálfum sèr til skemtunar. Þessir menn komu opt í prentsmiðjuna, og skemtu sèr við að tala saman um það sem þeir höfðu ritað, og hvörnig alþýðu hefði fallið það í geð. Benjamín fór af þessu að lánga til að reyna sig; hann samdi dálitla ritgjörð, og vandaði hana þángaðtil honum líkaði við sjálfan sig, en honum var ekki um, margra hluta vegna, að það yrði uppskátt hvör samið hefði, og því stillti hann svo til, að ritgjörðin fannst fyrir utan prentsmiðjudyr einhvörn morguninn. Hún var óðar hyrdt, og lásu vinir Franklíns hana á fundi; þókti þeim hún svo vel samin, að þeim datt ekki í hug að nefna til aðra höfunda enn þá menn, sem voru orðlagðir fyrir lærdóm og gáfur, og má nærri geta hvörsu glaður Benjamín hafi orðið þegar hann heyrði það. Hann hèldt síðan áfram að semja ritlinga, og láta prenta í blaði bróður síns, þángaðtil honum datt ekki lengur neitt nýtt í hug. Hann sagði þá einusinni frá að hann væri höfundur allra þessara ritgjörða; en bróðir hans, sem alltaf hafði verið harður við hann áður, batnaði ekki við það, heldur varð öllu lakari enn fyrr. Benjamín var þver, en hinn stórorður, og laust bróður sinn opt, svo faðir þeirra varð tíðum og einatt að gánga á milli og sætta þá. Þetta olli Benjamíni mikillar áhyggju, og óskaði hann opt að kennsluár sín væru á enda; það varð líka fyrr, og öðruvísi enn hann vænti: bróðir hans hafði látið prenta illmæli um fulltrúa landsins, og var honum

þessvegna með dómi bannað að halda áfram útgjörð blaðs síns. Vinir hans tóku nú það ráð fyrir hans hönd, að láta blaðið koma út undir Benjamíns nafni þaðanaf, en af því það þókti lítilfjörlegt að sá væri kallaður "kennsluspilltur" sem stóð fyrir því, þá var ónýttur sá gjörníngur sem saminn hafði verið milli hræðranna þegar Benjamín fór að læra, og skyldi nú kalla sem hann væri fullnuma; þó varð hann undir niðri að játast undir nýan kennslusamníng, svo bróðir hans gæti haldið honum. Þannig liðu nokkrir mánuðir svo þeir urðu vel ásáttir, en nú varð þeim sundurorða; Benjamín hafði þá læríngarskrá (námshrèf [?] "sveinsbrèf") sína í höndum, en vissi að bróðir sinn mundi ekki þora að sýna þann hinn nýa samníng, og sagði honum því upp vistinni. Seinna iðraðist hann samt opt eptir þessu, og játaði það hefði verið ávirðíng sín að nota sèr bágindi bróður síns, en hann var þá svo uppvægur, að hann hugsaði ekki um annað enn að frelsast frá hörku meðferð hans. Honum var legið á hálsi af mörgum fyrir þetta fyrirtæki, og til að skjóta sèr undan því álasi einsetti hann sèr að fara frá Bostúni, en það þorði hann ekki að gjöra svo á bæri, því þá mundi faðir hans hafa aptrað því, vegna þess hann hèlt með eldra syni sínum í þessu máli. Kollins, vinur hans, tókst á hendur að búa undir það sem þurfti til ferðarinnar; hann spann upp æfintýri, og fèkk með því stýrimann*)

*) Stýrimaður heitir í sögum vorum sá sem nú almennt í daglegu máli er nefndur „skipherra" eða „Kapteinn", en formaður á smáskipum. Þann sem nú er nefndur „stýri-

einn til að taka við Benjamíni á skip sitt; bækur hans voru allar seldar; síðan fór hann leynilega á skip, og að 3 dögum liðnum var hann kominn til Nýu-Jórvíkur (New-York).

Nú var hann staddur í 60 mílna fjærlægð heimanað, hælislaus, aðstoðarlaus, kunningjalaus og peníngalítill, 17 vetra úngíngur. Einsog nærri má geta fór hann fyrst að reyna að koma sèr fyrir hjá prentara, en þar var ekki nema alls einn í bænum, og hafði lítið að gjöra. Hann ásetti sèr því að halda til Bræðraborgar (Philadelphia), þó hún lægi 21 mílu þaðan; hann fèkk sèr far á skútu einni sem flutti ferðafólk, var hann á ferðinni 30 stundir, gagndrepa og næríngarlaus, nema hann fèkk rommgrugg að drekka, en komst samt ekki lengra enn til Ámubæar (Amboy). Þaðan fór hann fótgángandi upp með Delavari*) í mesta fúlviðri, til bæar þess sem heitir Borlingstún (Burlington); þar kom hann inní hús eitt, hitti þar konu eina gamla, og keypti að henni brauð; honum datt þá í hug að koma sèr fyrir hjá henni, en í því sigldi bátur framhjá sem hann fèkk sèr far með. Þeir sigldu upp eptir ánni lengi um nóttina, og lendtu seinast í vík einni litilli, kyndtu þar eld og lögðust fyrir þartil morgnaði. Daginn eptir sigldu þeir, og eigi lengi áðurenn þeir sáu Bræðraborg, er blasti við þeim; hvarflaði Franklín þá fyrst augum yfir bæ þann, hvar honum

---

maður" (Styrmand) mætti þá kalla „stýrimannsmæti", einsog Vestfirðíngar nefna þópta formanna „formannsmæti"; eður að öðrum kosti „undirstýrimann".

*) Delavar (*Delaware*) er móða ein mikil þar í landi.

var fyrirhugaður farsæll bústaður, og eylíf frægð, sem þaðan barst út af honum um víða veröld. En hvörsu ólíkt var ástand hans og virðíng núna, þegar hann stè fyrst á land við bæ þennan, því sem það var þar á seinustu dögum æfi hans? — Báturinn lagði að við árbakkann, og hann stè á land húngraður, þreyttur og saurugur eptir ferðina, með vasana troðna af sokkum og lèreptsflíkum sínum; allt það sem hann átti til í penîngum var einn dalur. Á torginu rètt hjá mætti hann sveini nokkrum sem bar brauð, og það fyrsta sem hann spurði hann að, var: hvar þar byggi bakari? sveinninn fylgði honum þángað og hann beiddi um brauð fyrir nokkra skildínga. Hann fèkk þar 3 brauð, og tók sitt undir hvörn handlegg, en stýfði það þriðja úr hnefa, og svona gekk hann um strætið. Þá sá hann stúlku standa í dyrum á húsi einu, og hló sú að honum hvörsu kátlega hann gekk; það var sú hin sama sem seinna varð konan hans. Hann ráfaði í þetta sinn víða um stræti, og sneri síðan aptur niður til bátsins, drakk sèr vatnsslurk úr ánni, gaf tvö brauðin fátækri konu, sem var með tvö börn sín á bátnum og ætlaði að ferðast lengra áleiðis, síðan gekk hann hress og glaðvær upp í bæinn aptur. Hann fann þá fjölda af velklæddu fólki sem var að fara í kirkju, meðal annars kvekara*) einn, sem vísaði

*) Kvekarar (Quakers) er almennt nefndur söfnuður nokkurr er hófst á Englandi 1650; það nafn þýðir „titrandi" og því eru þeir nefndir Titringsmenn í Landaskipunarfræði IV, 329; en sjálfir nefnast þeir „vinir" eður „vina-

honum á gestaherbergi. þar hafði hann fataskipti, bjó sig svo vel sem hann gat, og fèkk að vita bústað bezta prentarans þar í bænum, sem hèt Braðforð. þángað gekk hann, en fèkk ekki nema vinsamlegt ávarp hjá prentaranum, því hann hafði ekkert að láta hann gjöra; þó sagði hann honum frá öðrum prentara þar í bænum, sem hèt Keimir, og sagði hann mundi taka við honum. Keimir var mannþurfi og tók við honum þegar, en hann hafði ekki húsrúm handa honum heima hjá sèr, og útvegaði honum því húsnæði hjá manni nokkrum sem hèt Ríður (Reað). þessi maður var faðir stúlkunnar sem hafði hlegið að honum áður, og hann komst með þessu móti fyrst í kunníngskap við hana.

Mágur Franklíns hèt Holmes, hann var stýrimaður; hann fór eittsinn skipi sínu uppeptir Delavari og uppað Nýa-kastala (Newcastle), og frètti þar að Franklín var kominn til Bræðraborgar. Hann sendi Franklíni brèf, og sagði honum hvörsu foreldrar hans og vinir hörmuðu flótta hans, rèði hann honum einlæglega að fara heim aptur, og lofaði sjálfur að gjöra hvað sèr væri mögulegt til þess vel yrði tekið við honum. Franklín svaraði því brèfi, og sagði mági sínum skírt og skorinorðt orsakir þær sem hefðu knúið sig til að fara úr

felagið". Sá hèt Gyrgir Foxi (Georg Fox) sem var helzti frumkvöðull safnaðar þessa, og var hann skósmiður. Kvekarar eru töluverðt frabrugðnir öðrum mönnum í háttum, en hafa alltjafnt verið orðlagðir fyrir raðvendni, og góðvild við nauðstadda og hjálparþurfa.

Bostúni, en sagði honum undireins, að hann fyrir anngva muni vildi nè gæti snúið aptur. Þegar Holmes tók við brèfinu, hittist einmiðt svo á, að höfuðsmaðurinn í því fylki var viðstaddur; hann hèt Vilhjálmur Keit. Höfuðsmaðurinn las brèfið, og undraðist hvörsu ljóslega og snillilega svo úngur maður gat skírt frá því sem honum bjó í brjósti. "*Þetta* er efnismaður", sagði hann; prentarar vorir í Bræðraborg eru ónýtir menn, en ef *hann* vildi stofna sèr til prentverks, hlýtur honum að gánga vel, og hvað mèr sjálfum viðvíkur, þá skal það vera mèr sönn gleði að styrkja svo efnilegan únglíng". Svona sagði höfuðsmaðurinn, en Franklín frètti það aldrei.

Einusinni bar svo við, ekki mjög skömmu eptir þetta, að höfuðsmaðurinn kom inn í prentsmiðjuna, þar sem Franklín var að vinnu sinni. Hann hugsaði höfuðsmaðurinn ætlaði að tala við Keimir, og brá honum ekki alllítið í brún þegar höfuðsmaðurinn, slíkur höfðíngi, spurði eptir dreng*) sem hèti Franklín. Höfuðsmaðurinn tal-

*) Vera má að sumir landar mínir ekki uni vel við að hin eldri merking sè höfð hèr í stað hinnar nýu, sem vèr höfum tekið eptir Dönum; en til þess einginn villist á því, þá skal geta þess hèr, að það sem Danir kalla "Dreng" yfirhöfuð að segja, er her nefndur "sveinn"; "Haandværksdreng" (handverksdrengur), kennslupilltur; "Svend" (sveinn), drengur; þarf einginn sigldur "sveinn" að taka það ser til óvirdingar, því svo segir í eddubok þeirri sem eignuð er Snorra Sturlusyni: "Drengir heita úngir menn bulausir, meðan þeir afla sèr fjár eða orztir; þeir fardrengir er milli landa fara; þeir konungsdrengir

aði mikið vingjarnlega við hann, sagði sig lángaði til að kynnast betur við hann og bauð honum með sèr út í bæ; þar bauð hann honum að drekka vín með sèr á einum stað, og kom það þá upp í tali þeirra, að hann bauð Franklíni að styrkja hann með öllu móti ef hann vildi stofna preutverk sjálfur. Franklín svaraði, að sèr væri að sönnu þetta mesta þakkaboð, en sagðist vera hræddur um að föður sínum þækti hann of úngur, og mundi því ekki vilja leyfa það. Höfuðsmaðurinn bauð honum að skrifa föður hans til með honum, og það staðrèðist milli þeirra, að Franklín skyldi ferðast til Bostúns, og kljá þetta mál við föður sinn. Hann vann ennþá um hríð hjá Keimir, og var opt í boði höfuðsmannsins, sem var honum sèrlega góður. Seinast í April mánuði 1724 ferðaðist hann til Bostúns, og hafði með sèr brèf höfuðsmannsins; hann var þá hálfan mánuð á ferðinni. Þegar hann kom urðu ættíngjar hans bæði glaðir og hissa, því Holmes var þá enn ekki kominn, og einginn vissi hvað á daga Benjamíns hefði drifið um burtverutímann. Faðir hans lèt sèr vel líka hvörnig honum hafði gengið, en var fastur á því, að hann væri bæði of úngur og of fátækur til að stofna prentsmiðju fyrir sjálfan sig, þókti samt líkindi til, að hann með yðni og sparsemi kynni smámsaman að geta nælt svo, að hann yrði ekki

---

er höfðingjum þjóna; þeir og drengir er þjóna ríkum mönnum eða bændum. Drengir heita vaskir menn og batnandi"; og má af því sjá, að drengur er *á íslenzka túngu* ekkert óvirðingarorð.

uppá aðra kominn, og sagði að sig mundi þá ekki skorta að styrkja hann, einsog föðurskyldan stæði til. Franklín fór síðan heim aptur, í þetta sinn með ljúfu samþykki og beztu óskum foreldra sinna, sem auk hins áðurnefnda loforðs rèðu honum mörg heilræði, og leiddu hann út með sæmilegum gjöfum.

Franklín vann eptir þetta nokkra hríð hjá Keimir, og fèll vel á með þeim. Keimir var glaðlyndur og málskrafsmaður mikill, en ekki mikill yðjumaður, og ginnúngur í sumum hlutum. Það var eitt af uppátækjum hans, að hann ætlaði að stofna nýan trúarflokk, og vildi að Franklín gjörðist annarr höfuðsmaður fyrir flokkinum. Franklín hafði einusinni lesið bók þá sem Senófon gjörði um Sókrates, og fellt sig prýðilega við kenníngaraðferð þessa nafnfræga spekíngs, líka með mestu álúð vanið sig á að breyta eptir honum, svo Keimir hèldt þessvegna hann væri mesti snillíngur. Hann ætlaði þá sjálfur að kenna hina nýu trú, en Franklín átti að flækja mótmælendur með spurníngum. Það var einkum tvennt sem Keimir ætlaði að leggja ríkt á um við flokk sinn: annað var að halda heilagt laugardag hvörn, einsog Mósis lögmál býður, en annað að láta sèr vaxa skegg og aldrei raka. Þetta þókti Franklíni of lint, og vildi hann skyldi banna alla kjötneyzlu, því hann vildi reyna Keimir að gamni sínu, af því hann vissi hann var mesti sælkeri og matmaður. Loksins lèt Keimir undan, og kom þeim saman að reyna þetta fyrst nokkra hríð; gekk það svo hèrumbil tvo mánuði að Keimir át ekki kjöt, en ílanngun hans vóx dag frá degi. Seinast var öll guðrækni hans á enda, hann lángaði

til kjötkatlanna í Egiptalandi, og lèt steikja grís handa sèr; hafði hann boðið Franklíni og nokkrum öðrum til borðs með sèr í sama sinn, en steikin kom ofsnemma fram, svo Keimir gat ekki staðist freistínguna — hann var búinn með grísinn þegar boðsmenn komu.

Mest gleði var Franklíni að umgengni nokkurra únglínga, sem, einsog hann, voru sólgnir í að lesa bækur. Sunnudagurinn var þeim ekki einúngis líkamshvíldardagur, heldur einnig dagur til sálarlífgunar. þeir voru þá vanir að gánga saman við árkorn eitt, sem rennur í Delavar; hafði einhvör þeirra bók með sèr, og var lesinn úr henni kafli, og síðan rædt um það sem lesið var. Stundum tóku þeir sig saman um að semja ritlínga um eitthvört tiltekið efni, og voru þá ritlíngar þessir lesnir á næsta fundi; fann þá hvör að hjá öðrum sem hann hafði bezt vit á. þessara sunnudagstíma minntist Franklín jafnan með mestu gleði.

Höfuðsmaðurinn var alltjafnt eins góður við Franklín, og hafði hann opt í boði sínu. Einusinni sagðist hann fastráðinn í að vilja hafa góðan prentara í bænum, bauð Franklíni að lána honum það sem hann þyrfti til prentsmiðjustofns, og lèt hann skrifa upp öll áhöld þau sem hafa þyrfti. þegar Franklín sýndi honum það, spurði hann hvört ekki mundi vera bezt fyrir hann að ferðast sjálfur til Englands, til að kaupa áhöldin, og koma sèr í kunningskap við þá menn, sem hann síðar gæti keypt við. Franklín fèllst á þetta, og tók sèr, að ráðum höfuðsmannsins, far með skipi einu sem fór á tilteknu tímabili milli Lundúnar og Bræðr-

aborgar, og var þá eingin önnur regluleg skipaferð þar á milli. Skip þetta var bráðum ferðbúið, og fór Franklín nokkrumsinnum til höfuðsmannsins, að sækja meðmælisbrèf þau sem hann hafði lofað að senda með honum til Englands, en höfuðsmaður sendi þá í hvört skipti skrifara sinn á móti honum, og beiddi hann að hafa þolinmæði, því hann hefði svo margt áríðandi fyrir stafni, sem hann yrði að ljúka af fyrst. Þannig leið tíminn og skipið átti að fara af stað; þá var Franklíni sagt að honum væri óhætt að fara, því brèfið skyldi verða sendt seinna, með öðru sem ætti að fara til Norðurálfunnar. Einn af undirtillum höfuðsmannsins kom líka út á skip, og sagði þá, að brèf þau sem Franklín ætti að bera væru eflaust í poka með öðrum fleirum, og væri honum hægt að kanna það áður enn hann kæmi til Englands.

Á ferðinni bar ekkert markverðt til tíðinda. Ferðin gekk greiðt, og má nærri því geta, að eins eptirtektasamur únglíngur og Franklín var, muni ekki hafa siglt yfir hið mikla aðalhaf, án þess að taka eptir mörgum stórmerkjum náttúrunnar, því heldur sem hann hafði ekki verið á útsjó fyrri enn þá. Ámeðal þeirra sem fluttir voru kynntist Franklín við marga væna menn, einkum tók hann tryggri vináttu við kvekara nokkurn sem hèt Denamur (Denham), og hèlzt sú vinátta meðan þeir lifðu báðir. Þegar þeir voru komnir nálægt Englands ströndum leyfði stýrimaður Franklíni að leita í brèfum höfuðsmannsins, og tók hann fáein af þeim í sínar vörzlur, af því þau voru til bókakaupmanna, svo hann efaðist ekki um að sín væri

getið í þeim. Í Desember mánuði 1724 sigldi skipið upp í Temsá og upp til Lundúnaborgar.

Það sem Franklín tók sèr fyrst fyrir hendur í borginni, var að koma af sèr brèfunum, og brá honum ekki lítið í brún, þegar hann heyrði að þar væri ekki minnst á sig mannsins máli. Hann stóð nú í öðru sinni ráðalaus, einmana í ókendum stórstað, án þess að vita hvört hann ætti að snúa sèr. Í þessari nauðsyn sagði hann Denami hvörnig ástadt væri fyrir sèr, og hann kenndi honum að þekkja höfuðsmanninn betur enn áður. "Höfuðsmaðurinn er dáudisvænn maður", sagði Denamur, "og skynsemdar maður, en hann á lítið aflögu, lofar þessvegna miklu, og meiru enn hann gæti endt þó hann væri ekki eins hirðulaus eins og hann er; það er því varla neinn sem trúir honum til nokkurs hlutar, og þó hann hefði skrifað meðmælisbrèf með þèr þá hefðu þau ekki orðið þèr að neinu liði". Denamur bað hann að láta samt sem áður ekki hugfallast, heldur leita sèr að vist, og bera sig að læra eitthvað í Lundúnum, því hann mundi hafa gagn af því seinna, þegar hann yrði sjálfs síns og eignaðist prentsmiðju yfir í Vesturálfu. Franklín tók það ráð, og var svo heppinn að komast í vist hjá efnuðum prentara sem hèt Palmir. Þar var hann eitt ár, og var yðjusamur vel, en eyddi þó öllu gagni sínu til skemtana og gleðileika. Hann samdi um þennan tíma ritkorn „um frelsi og ófrelsi, gleði og sorg" sem hann sagði betur hefði verið óprentað. Vegna þess fèkk þó Palmir meiri mætur á honum, og hann kynntist þá líka við ekki allfáa ritsmiði og

bókakaupmenn, og kom bókasafn þeirra honum í miklar þarfir. Hann fór nú að leggja upp af því sem honum bættist, og þegar honum bauðst færi á að fá ríkuð laun sín fór hann frá Palmi, og til annars heldri prentara, sem Vöttur (Watts) hèt, og var hjá honum meðan hann dvaldi í Lundúnum. Þegar hann kom þángað vildi hann heldur prenta enn hlaða*), af því hann þurfti hreifíngar við. Hann drakk aldrei annað enn vatn, í stað þess að lagsmenn hans drukku ótæpt öl, en þegar þeir sáu að hann gat borið tvær stórar letursettar breiður upp og ofan stiga, undruðust þeir að „vatnskallinn vestræni", sem þeir nefndu hann, væri sterkari enn þeir, sem drukku svo áfengt öl. Þeir hèldu, að til kraptavinnu þyrfti kraptaöl, en Franklín var öðru vanur, og þóktist auk þess vera sannfærður um, að ölið væri eptir því kraptagott sem mikið af korni væri haft til þess; hann reiknaði, að maður fengi meira afl af tvískildíngsbrauði enn af potti öls, auk þess að brauðið var miklu ódýrara. Að nokkrum vikum liðnum fór hann fyrir bónastað Vattar frá prentuninni til að hlaða; þeir sem voru lagsmenn hans í því verki heimtuðu að honum nokkra peninga til að hýrga sig fyrir, þegar hann kom fyrst í þeirra fèlag, en Franklíni þókti það ósanngjarnt, þar hann hefði goldið áður, þegar hann byrjaði

*) Þetta orð er hèr haft fyrir hið danska „at sætte", þ. e. að raða letrinu í línur á breiðunum eða hlöðunum (Former); vera má að sumir kunni betur við orð það sem haft hefir verið: „að setja".

að prenta. Húsbóndinn var á hans máli, og bannaði honum jafnvel að gefa nokkuð, „en jeg gjörði það samt", segir Franklín, „því jeg var þá þegar orðinn sannfærður um, að það er heimska að vilja koma sèr illa við þá sem maður á daglega saman við að sælda. Nú fór jeg líka smámsaman að ráða nokkru meðal fèlaga minna. Mörgu var umbreytt, eða hagað öðruvísi í vinnunni, eptir því sem jeg gaf ráð til. Margir fylgdu líka mínu dæmi, að borða hafragraut fyrir öl, brauð og ost; það þýngdi budduna en lètti höfuðið". Húsbóndanum þókti vænst um hvörsu Franklín var yðinn, því hann vann eins á mánudögunum og endrarnær*), og hvörsu hann var fimur að hlaða; hann galdt honum því meira kaup enn öðrum. Franklín rèði sèr þá bústað hjá kaupmannsekkju gamalli, skamt frá prentsmiðjunni, og fèkk það fyrir lítið, því hún hafði afspurn af skaplyndi hans og siðferði. Kona þessi hafði á ýngri árum verið með mörgum tignum mönnum, og kunni frá mörgu að segja sem við hafði borið um næstu 50 ár á undan. Hún þjáðist af flugkveisu (Gigt), og gat ekki stigið út fyrir þrepskjöld á húsi sínu; hana lángaði þessvegna opt til að hafa einhvörn að tala við, og Franklín lángaði ekki síður til að vera hjá henni, því hún var fróð mjög. Hann kom æfinlega heim í rèttan tíma, og var aldrei í neinu henni nè húsbúendum til trafala eða ónæðis; kom þetta honum svo í mjúkinn hjá hinni gömlu konu,

*) Það er víða siður að láta kennslupiltta og drengi eiga helgd á mánudögum.

að hún vildi fyrir hvörn mun halda honum, og þegar hún flutti sig, bauð hún honum vist hjá sèr fyrir enn minna enn hann hafði áður goldið. Svona heppinn var hann alltaf meðan hann var í Lundúnum, að bæði fèkk hann ódýrt húsnæði, og líka hlotnuðust honum skemtileg heimili, þar sem hann bæði gat numið margt, og einginn truflaði hann þegar hann vildi lesa, en það var kærasta vinna hans þegar hann átti hvíld.

Í prentsmiðju Vattar kynntist Franklín við efnilegan únglíng sem hèt Væget (Wygate), hann var af góðum ættum og ágætlega uppalinn; Franklín kenndi honum og nokkrum öðrum vinum sínum sund, því hann var syndur sem selur; en hann hafði líka hugsað um sundlistina, einsog annað sem hann gjörði, gat þessvegna kennt þeim á yfrið stuttum tíma. Þeir komu honum í kunníngskap við ymsa væna menn sem bjuggu í heraði nálægt borginni. Einusinni fóru þeir allir út á báti til skemtunar, og sagði þá Væget hinum frá hvílíkur afbragðs sundmaður Franklín væri; þeir beiddu hann því innilega að sýna list sína, og fór hann á sund og syndti lángan veg, lèk líka margt bæði uppi og í kafi, sem vakti undran þeirra er á sáu.

Því lengur sem Franklín og Væget voru saman, því meir óx vinátta þeirra; Væget bauð honum einusinni að ferðast með sèr um Norðurálfuna, en Denamur rèði honum frá því, og bauð honum undireins annað sem betur átti við hann: hann kvaðst hafa í hyggju að byggja vörubúð í Bræðraborg, og bauð Franklíni að vera þar um-

sjónarmaður með sèr, og hafa svo mikið kaup að hann gæti orðið sjálfs síns að fáum árum liðnum. Franklín tók þessu með gleði, og bjó sig skyndilega til ferðar. þegar búið var að kaupa alla vöruna, búa um og hlaða í skipinu, komu Franklíni boð frá tignum manni nokkrum sem hèt Vilhjálmur Vændhamur (Wyndham), að hann vildi eiga tal við hann. Franklín brá við skjótt og fór til fundar við Vændham, en hann vildi honum það, að hann bað hann að kenna sonum sínum sund, og bauð honum mikil kennslulaun. Hann átti tvo sonu, og áttu þeir bráðum að fara utan, en hann vildi þeir kynnu sund áður; hafði hann heyrt að Franklín væri ágætur sundmaður, og hefði kennt Vægeti þá list á skömmum tíma. þessu boði varð Franklín að neita, því hann var að öllu ferðbúinn, en atvinna óviss eptirleiðis ef hann hefði dvalið lengur á Englandi. „það kom mèr þó á þá trú", segir hann, „að mèr mundi hafa orðið ríkuglegur atvinnuvegur að stofna sundskóla á Englandi, og líklegt er að jeg hefði dvalist tölnverðt lengur þar á landi, ef mèr hefði komið þetta boð fyrri. Mörgum árum seinna átti jeg viðskipti við annan son Vændhams, sem voru annarrar tegundar og merkilegri; hann var þá orðinn greifi yfir Egremonti".

Nálægt miðsumri (í Júlí) 1726, einn fagran veðurdag, lètti skipið atkerum við Grafarenda (Gravesand) og sigldi leiðar sinnar út Englands sund (Ermarsund. Kanal). þeir höfðu hæg veður jafnan, og stundum byrleysu. Síðla um haustið (4 Okt.) fengu þeir vita af landi í Vesturálfu, það

var titlíngur, sem var orðinn þreyttur á flugi, og séttist á mastur þeirra til að hvíla sig. Fjórum dögum seinna sá fyrst til lands, og daginn eptir sigldu þeir uppeptir Delavari í dýrðlegasta veðri; voru þá allir mjög glaðir, og landsfólkið fagnaði þeim á báðum löndum.

Eptir að þeir voru komnir til Bræðraborgar lèt Denamur flytja vöru sína af skipi. Franklín lagði allt kapp á að nema það sem þurfti til kaupmannsskaparins. Denamur og hann mötuðust, sváfu og unnu saman, og fèll sem bezt á með þeim í öllu, en að tveim mánuðum liðnum tóku þeir báðir sótt mikla. Franklín varð svo gagntekinn, að einginn ætlaði honum líf, og sjálfur var hann svo vonlaus um líf sitt, og hafði búist svo vissulega við dauða, að hann varð hálfvegis óánægður þegar hann fann til apturbata. Denamur átti lánga legu, og andaðist síðan. Hann eptirlèt sèr ekki annað enn lítið eitt af peníngum, og það ánafnaði hann Franklíni vini sínum.

Franklín var nú enn einusinni öldúngis einmana í veröldinni, og hafði aungan atvinnuveg. Keimir bauð honum þá til sín aptur, og lofaði honum góðu kaupi, ef hann tæki við allri stjórn á prentsmiðjunni. Franklín þáði það, þó hann heyrði að illt orð lægi á Keimi, og færi heldur vesnandi; hann tók líka bráðum eptir því, að Keimir ætlaði sèr einúngis að láta þjónustumenn sína nema af honum það sem hann kunni betur enn þeir til prentunarlistar, og sleppa honum svo. Þegar Franklín tók við ráðsmennskunni var allt komið á ríngulreið, en þjónustumennirnir

kunnáttulausir og viljalausir; þó tók hann til verka með góðu geði, og kom öllu bráðum í gott horf með atorku og skörúngskap. Jafnframt þessu kynntist hann við marga merkismenn í bænum, og undi rèttvel hag sínum að öllu leiti, nema að hann var í skuldum við einn af vinum sínum, sem lengi hafði liðið hann.

Um þessar mundir stofnaði Franklin, og ekki allfáir vinir hans, fèlag nokkurt sem þeir kölluðu sameiníngunna (Júnta), og hèldu þeir fund á hvörju föstudagskvöldi. Forseti átti að segja fyrir hvörsu allt skyldi framfara á fundum. Að leita sannleikans var fèlagsins æzti tilgángur; þar mátti eingiun beita egníngaryrðum við annan nè keppni, og útlátum varðaði ef nokkurr hafði vond orð á vörum; fjórumsinnum á ári skyldi hvörr fèlagi skrásetja eitthvað það efni sem honum virðtist helzt við sitt hæfi; á hvörjum fundi var fyrst spurt, hvört fèlagar hefðu allir á þeim degi lesið spurníngar fèlagsins, og hvört þeir hefðu nokkurt eyrindi að flytja fèlaginu samkvæmt þeim. Spurníngar þessar voru 24, og voru þessar einna helztar: „Hefirðu tekið eptir nokkru, sem öllu fèlaginu sè fýsilegt að vita, í nokkurri bók sem þú hefir lesið nýlega? Hefirðu nýlega heyrt, að nokkurr bóndi eða kaupstaðarmaður hafi bætt hag sinn; og hvörnig hefir hann farið að því? Veiztu nokkurn landa vorra hafa nýlega aðhafst nokkuð það, sem sè lofsverðt og gott dæmi til eptirbreitni, eða nokkuð illt, sem allir ættu að varast? Hefir þèr hugsast nokkuð sem fèlagið gæti gjört, og sem mætti verða mannkyninu yfirhöfuð, fósturjörðu vorri eða ein-

stökum mönnum að liði? þekkir þú nokkurn frumbýlíng, sem ætti skilið að fèlagið styrkti hann? Hefirðu nýlega heyrt nokkurn vænan mann lastaðan, og hvörnig hefirðu tekið málstað hans? Hefirðu þegið velgjörnínga nýlega af nokkrum manni, sem ekki er hèr viðstaddur, og hvörja? Með hvörju getur fèlagið orðið þèr að liði?" þetta fèlag hèlzt við lengur enn 50 ár; Góðgirni sú og velvild sem þar var drottnandi teingdi fast vináttuband milli allra meðlima þess. það kendi margt út frá sèr sem var þarflegt og gott. Fèlagar sjálfir vöndust á að lesa með athygli, af því þeir urðu að skíra frá því sem þeir höfðu lesið, á fèlagsfundi, en ritlíngar þeir sem þeir áttu að semja vöndu þá á að þenkja skipulegar, og bera meiníngar sínar skílmerkilegar fram. Margar þarflegar uppástúngur komu þaðan í fyrstu, og báru síðan góðan ávöxt. Fèlagið varð auk þess Franklíni sjálfum mesta stoð, þegar hann fór að búa, en síðar varð það honum eitthvört hið bezta verkfæri til að koma mörgu til leiðar þjóðinni til nytsemda. það var ráðið í upphafi, að einginn skyldi vita af fèlagi þessu, bæði af því fèlagar sjálfir helzt vildu gjöra gott svo lítið bæri á, og til að komast hjá þeim sem þeir ekki gátu neitað um að veita viðtöku í fèlagið, en þeir vildu þó helzt vera lausir við. Fèlagslima talan var ákvörðuð að vera skyldi 12 manns, en bráðum urðu margir svo elskir að fèlaginu, að þeir vildu koma vinum sínum inní það líka; það vildi Franklín aunganvegin, og stakk uppá að hvör meðlimur skyldi stofna nýtt fèlag; tókst sumum það ekki, en sumum tókst það svo

vel, að þeirra fèlög urðu hinu elzta til mestu gleði og aðstoðar bæði nær og fjær.

Til þessa hafði Franklín unað sèr vel hjá Keimi, en eptir því sem Keimir þóktist sjálfbyrgari, eptir því fór hann að draga af kaupi Franklíns, og stundum beitti hann húsbóndarèttinum. Einusinni varð þeim sundurorða útúr litlu efni, og fór Keimir þá að beita meinyrðum. þar jókst orð af orði, en svo lauk að Franklín kvaddi hann að fullu og öllu. Einn af þjónustumönnum Keimis flutti faung Franklíns þaðan og í annað hús, þar sem hann hafði tekið sèr bústað; það var únglíngur nokkurr sem Mardaður (Meredith) hèt, gáfaður pilltur og mikill bókavinur; en það var galli á honum sá, að honum þókti góður sopinn. Hann hafði miklar mætur á Franklíni, og beiddi hann fyrir alla muni að fara ekki úr bænum, heldur vera kyrr, og efna sèr sjálfur til prentsmiðju; hann sagði að Keimir kæmist bráðum á knèn, og þá væri ekki nema einn prentari eptir. Franklín kvaðst vera snauður maður; hann kvaðst skyldi biðja föður sinn að reiða fram peníuga sem þyrfti, og síðan skyldi Franklín stýra prentsmiðjunni, en ábatanum skyldu þeir skipta milli sín. þetta varð líka framgengt; faðir Mardaðar treysti Franklíni vel, og vonaði líka að hann mundi geta ráðið því við son sinn að hann hætti ofdrykkju; hann var því viljugur til að reiða fram það sem þurfti, og var það fastráðið að Franklín skyldi skrifa til Lundúnar eptir áhöldum.

Fám dögum seinna fèkk Franklín brèf frá Keimi, var það mjög auðmjúklegt, og bað Keimir

hann að gleyma öllu sem orðið var, og hverfa aptur til sín. En það bar til þess, að Keimir hafði verið beðinn að prenta býsna mikið af seðlum handa fylki nokkru þar í nánd, en gat það ekki nema með styrk Franklíns. þetta vissi Franklín sjálfur, en hann hjálpaði honum samt; fóru þeir báðir samt til Borlingtúns, og prentuðu seðlana svo öllum líkaði vel. Franklín hafði sjálfur það gott af ferðinni, að fulltrúarnir í nágrennisfylkinu tóku eptir að hann var ráðvandur og duglegur maður og vel að sèr, og lètu þeir það ásannast seinna. þannig varð honum að því, sem opt ber við, að laun dygðarinnar koma ávallt fram, og sèr opt menjar þess jafnvel á högum manna hèr á jörðu.

Eptir að þeir voru komnir heim til Bræðraborgar komu prentsmiðju áhöldin frá Lundúnum. Franklín og Mardaður fóru þá frá Keimi, og leigðu sèr hús við torgið. Helmínginn af húsinu bygðu þeir glersmið einum, og fengu fyrir það mat sinn í öll mál. Óðar enn þeir voru búnir að koma smiðjunni í lag, kom einn af vinum þeirra með mann ofan úr heraði, sem hafði spurt að prentara. þann mann prentaði Franklín fyrir fyrstan, „og mèr þókti" segir hann, „eins vænt um það sem hann galdt mèr, sem ekki var nema fáir dalir, einsog um margfaldt meiri peninga seinna. Jeg man lengi eptir hvörsu vænt mèr þókti um vin minn fyrir tilvísan hans, og sú endurminníng hefir gjört mig fúsan til aðstoðar frumbýlíngum". Fèlagið, sem áður var umgetið, varð honum nú að mesta liði, því meðlimir þess kostuðu kapps um að útvega honum allt hvað þeir gátu til prent-

unar. Þá prentaði hann sögu Kvekaraflokksins, í tveggja blaða broti; tók hann þá fyrir sig að hlaða letri til heillar arkar á dag, og varð því opt að sitja við framundir miðnætti, en hann var svo fastur við ætlunarverk sitt, að einusinni, þegar brotnaði hjá honum hlað, svo tvær blaðsíður duttu niður, fór hann samt ekki að hátta fyrrenn hann var búinn að bæta það. Þetta gjörði hann af ásettu ráði, því hann vissi hvörsu mjög það mundi afla sèr orðstýrs; það varð líka orð að sönnu. Nágrannar hans tóku eptir hegðun hans, og sögðu öðrum frá; og einusinni, þegar tilrædt varð um það í gildaskála (Klub) kaupmanna, að nýa prentsmiðjan mundi ekki reisa rönd við hinum eldri, þá svaraði einn: „að vísu mun það reisa rönd við þeim, því Franklín þessi er svo yðinn að jeg hefi aldrei vitað dæmi til slíks; þegar jeg geng frá gildaskála vorum á kvöldin þá situr hann við, og á morgnana er hann á fótum á undan öllum grönnum sínum". Þetta þókti þeim sem heyrðu svo mikils um verðt, að einn þeirra bauð Franklíni skömmu seinna styrk til að stofna sölubúð með skriffæri (Skrivematerialier), en hann þorði ekki að ráðast í það að svo búnu.

Það var ásetníngur Franklíns, að koma áru sinni svo fyrir borð, að hann gæti gjört út blað nokkurt, og var hann svo einlægur, að hann sagði manni nokkrum frá því sem leitaði sèr vistar hjá honum, en sá sagði öðrum, og seinast frètti Keimir það. Keimir var ekki seinn til, og boðaði mönnum að hann ætlaði að hefja blað, en Franklín var ekki eins fljótur til, því hann þurfti að búa

sig undir; en til þess að Keimir þó ekki hefði allan sigur, skopaðist hann að fyrirtæki hans í blaði Braðforðs, sem þá kom eitt út í Bræðraborg, og vann það á, að mjög fáir gjörðust kaupendur að Keimis blaði, en biðu Franklíns. Keimir hóf samt blaðið þó hann hefði fáa kaupendur, en varla voru 3 mánuðir liðnir þegar hann bauð Franklíni eignarrètt þess fyrir lítilræði. Keimir skemdi þaraðauki alla velferð sína með mörgu öðru bráðræði, svo hann varð öreigi, en hinn prentarinn (Braðforð) var auðugur maður, og lèt prenta það sem vant var en ekki meira. Franklín hóf nú blað sitt, og leit það miklu öðruvísi út enn menn voru vanir þar, því bæði var pappírinn betri og prentið ásjálegra. Einusinni lèt Franklín prenta þar grein um sundurþykkju nokkra, sem var milli höfuðsmannsins og fulltrúanna; eptir þeirri grein tóku margir heldri menn, og ræddu opt um blaðið og höfund þess, en þar af leiddi, að innan fárra vikna keyptu þeir allir blaðið. Aðrir fylgdu þeirra dæmi, og þannig óx tala kaupendanna óðum. Braðforð prentaði þó nú einsog áður allt það sem viðkom stjórnarmálefnum; en einusinni varð ávarp (Adresse) fulltrúanna til höfuðsmannsins svo rángt og illa prentað hjá honum, að þeir reiddust, og sendu Franklíni það til þess það yrði rètt og fallega prentað. Mismunurinn var augljós, og nokkrir vinir Franklíns komu því til leiðar útaf þessu, að honum var falið að prenta allar auglýsíngar þaðanaf, og annað sem snerti alþjóðleg málefni.

Um þessar mundir kom einn hlutur fyrir

Franklín, sem hefði getað orðið honum að skaða ef hann hefði ekki varað sig. Mardaður hinn eldri var í skuld við kaupmann einn um nokkur hundruð dala, sem kaupmaður hafði greidt til stofnunar prentsmiðjunni, en nú gat ekki Mardaður goldið skuldina, og kaupmanninum leiddist að bíða. Franklín gekk að sönnu í veð fyrir hönd Mardaðar, en hann sá, að ef hvörugur gæti goldið á rèttum gjalddaga mundi verða gengið að sèr með oddi og egg, og þá væri öll velferð sín á enda. Í þessum kröggum komst hann að raun um, hvörsu gott er að hafa áunnið sèr traust annarra manna: þá komu tveir af vinum hans, svo hvörugur vissi af öðrum, og buðu honum það sem hann þyrfti við til að leysa til sín prentsmiðjuna; þeir vildu ekki láta hann eiga lengur neitt að sælda við Mardað, af því hann var svo opt að spilum á illræmdum stöðum, og sást drukkinn á strætum. Franklín þakkaði þeim mikilega þetta vináttumerki, en kvaðst eiga þeim feðgum svo margt gott að launa, að sèr findist það óhreinlegt að skiljast við þá, meðan þeir hèldu loforð sín, þó hann vissi að þeir í rauninni skemdu fyrir sèr; en ef fèlag slitnaði á annað borð, kvaðst hann gjarnan þiggja vilja boðið. Nokkru seinna spurði hann Mardað fèlaga sinn, hvört hann hèldi ekki að föður hans þækti miður, að hafa varið peníngum sínum til prentsmiðjunnar; hann kynni kannske að vilja láta son sinn njóta ávaxtarins, en ekki aðra vandalausa; ef svo væri beiddist hann að heyra sannleikann, og kvaðst þá vilja sleppa þessu sem þeir hefðu stofnað saman og byrja sjálfur á ný.

„Nei", svaraði Mardaður, „faðir minn á í sannleika ekki fyrir skuldum sínum, og mèr er ami mikill að vera honum til þýngsla. Jeg sè líka að jeg verð æfinlega ónýtur prentari; jeg var uppalinn við sveitabúskap, og það var heimska mín að yfirgefa hann; en nú reisa margir landar mínir bú og nema lönd í Nyrðri-Karólínu, og þar eru jarðir falar við litlu verði; þángað fýsir mig að fara, og taka til hinnar fornu yðju minnar. Ef þú þessvegna villt gjalda skuld okkra feðga, og mèr þaraðauki nokkur hundruð dala, þá vil jeg slíta fèlagskap okkarn og fá þèr allt í hendur". þetta þáði Franklín gjarnan, og galdt honum það sem hann kvað á; fór Mardaður síðan leiðar sinnar. Árið eptir fèkk Franklín brèf frá honum, og skýrði hann þar greinilega frá loptslagi, landskostum og búskaparháttum í heraði sínu, því þar bar hann gott skynbragð á, og prentaði Franklín skýrslu þá í blaði sínu; líkaði öllum það sem bezt, því það er mikilsverðt, ekki sízt fyrir nýlendumenn, að vita þvílíkt um öll heröð lands síns.

þegar Mardaður var kominn af stað, tók Franklín við því sem vinir hans höfðu heitið honum, þáði hann helmíng þess sem hann þurfti af hvörjum. Hann galdt nú skuld sína, og lýsti síðan yfir að hann þaðanaf hefði smiðjuna einnsaman. þá var hann á 23ja ári.

Nú verður Franklín ennþá yðnari og ötulli, ef verða mátti, enn fyrr. "Til að ávinna mèr traust annarra", segir hann, "var jeg ekki einúngis yðinn og sparsamur í raun og veru, heldur

lèt jeg mèr annt um að sýna öllum jeg væri það. Stundum tafði jeg mig að sönnu nokkuð á að lesa góðar bækur, en það var bæði sjaldan og leynilega, svo einginn tók eptir því. Til þess að sýna að jeg ekki hrokaði mèr hærra enn mèr sómdi, ók jeg opt sjálfur pappír á hjólbörum eptir strætinu heim til mín. Jeg klæddi mig fátæklega, en þó þokkalega, og lèt aldrei sjá mig við fávíslegar skemtanir. Bráðum lagðist nú sá orðrómur á, að jeg væri yðinn og ötull frumbýlíngur, og gildi refjulaust skuldir mínar á gjalddaga rèttum, komu þá kaupmenn til mín að fyrra bragði, og bauð hvör um sig að ljá mèr peninga sem þyrfti til prentsmiðjunnar, ef jeg vildi eiga kaup við hann. Jeg hafði opt heyrt föður minn nefna orðtæki Salómons: ""Sjáir þú mann sem er ötull við sitt, þá hæfir honum að standa frammi fyrir konúngum, en ekki kotkörlum"". Eptir þessu hugsaði jeg optlega, og var fullviss um að iðni og reglusemi legðu beinastan veg til velgengni og virðínga, en aldrei datt mèr í hug, að orðtækið sjálft mundi rætast á mèr og að jeg mundi standa frammi fyrir konúngum, einsog síðar kom fram. Jeg hefi staðið frammi fyrir konúngum, og með einum hefi jeg *setið* að middagsverði; sá var Danmerkur konúngur*).

---

*) Danakonúngur þessi var Kristján, hinn sjöundi með því nafni; hann gjörði ferð sína skömmu eptir að hann var til konúngs tekinn, og kom við í Parísarborg og Lundúnum. En þá var Franklín í Norðurálfu, og hafði fulltrúaeyrindi Pennskógafylkis á hendi, sem síðar segir.

Um þessar mundir var rædt um að fjölga bánkaseðlum í landinu; þeir ríkari vildu það ekki, en hinir fátækari óskuðu þess. Franklín og vinir hans töluðu um þetta efni á fèlagsfundi, hann var á því máli að seðlar væru þarfir landinu, og kvaðst vera sannfærður um, að þeir efldu kaupverzlun, og aíburði við *alla* vörugjörð og aðdrætti. Af því hann talaði svo opt um þetta mál, varð það honum svo ljóst, að hann gjörði ritlíng um það, sem hann prentaði nafnlausan, og sýndi hann þar hvörnig brèfpeníngum væri varið og hvört gagn þeir gjörðu. Ritlíngur þessi vakti eptirtekt margra. Alþýða snerist á sama mál, og allur þorri fylkis fulltrúanna, enda sýndi tíminn og reynslan síðar að seðlarnir urðu að mestu notum. Nokkrir fulltrúar urðu eptir þetta fullkomnir vinir Franklíns, og komu því til vegar að honum var falið á hendur að prenta seðlana; varð honum það töluverður hagnaður. "Það var eitt með öðru", segir hann, "því að þakka, að jeg hafði vanið mig við að fara með pennann. Skömmu seinna var honum falið á hendur að prenta seðla, lög og auglýsíngar handa Ný-kastala fylki, og hèldt hann því ávallt *síðan*. *Um þetta mund* efndi hann til sölubúðar, og hafði þar meðal annars pappír, bókfell, kaupmannabækur og skjalaefni (Blanqvetter); allt var það ásjálegra og haganlegar fyrirkomið enn hjá öðrum. Hann útvegaði sèr duglegan og iðinn forstöðumann, sem hann hafði kynnst við í Lundúnum, og gekk salan vel fram. Hann fór nú smámsaman að komast úr skuldum, og varð láns-

traust (Credit) hans því fastara sem dugnaður hans og ráðvendni urðu mönnum kunnugri.

Hagur Keimis fór alltjafnt vesnandi, eins og fyrr var umgetið, og seinast fór afskiptaleysi hans og óforsjálni svo með hann, að hann varð að selja allt sem hann átti til skuldalúkníngar. Fór hann þá sjálfur suður í eyar (Vestindí), og dróg þar fram líf sitt í eymd og volæði, en einn af kennslusveinum hans, er Harri (Harry) hèt, keypti prentsmiðjuna og hèldt áfram prentunariðninni. Franklín var hræddur um hann mundi verða sèr hættulegur, af því hann átti marga heldri menn að og marga ríkismenn; hann bauð honum því fèlagskap við sig, en hinum þókti lítið til þess koma, og neitaði drambsamlega. Hann var maður mikill á förum, klæddi sig ríkmannlega, eyddi peníngum til skemtana og allskyns óhófs og óþarfa, komst í skuldir, og var svo hirðulaus um athöfn sína, að eínginn vildi fá honum verk. Eptir að hann var orðinn starfalaus, fór hann sömu leið og Keimir, og flutti prentsmiðju sína með sèr. Keimir varð þá daglaunamaður hjá honum, og sátu þeir aldrei á sárs höfði. Harri varð nú skjótt fèlaus maður, svo hann neyddist seinast til að selja prentsmiðju sína og hverfa aptur til Pennskóga; rèðst hann þar í vist uppi í heraði. En sá sem keypti prentsmiðjuna fèkk sèr Keimi til forstöðumanns, og hèlzt það við fáein ár, þángaðtil Keimir andaðist.

Franklín var nú orðinn svo efnaður að hann gat farið að hugsa sèr fyrir kvonfángi. Stúlka sú, sem áður var getið, er mætti honum fyrst þegar hann kom til Bræðraborgar, hafði ávallt fallið

honum vel í geð, einsog hann henni; en ferð hans til Englands, og dvölin þar um nokkur ár hafði skilið þau, einkum það, að hann um þann tíma aldrei sendi nein skírteini um hagi sína, og iðraðist hann þess opt að hann hefði þannig farið að ráði sínu. Frændur hennar höfðu þá talið svo um fyrir henni, að hún giptist pottasmiði nokkrum; en henni var það þvernauðugt og hjónabandið fór eptir því. Maðurinn lèt hana illa, hleypti sèr í skuldir, nenti ekki að vinna, og hljópst loks á burt til að forðast skuldheimtumenn sína. Eptir að Franklín var nú kominn heim aptur og seztur að í nágrenninu, kviknaði vinátta þeirra á ný, og 1ta September 1730 gjörði hann brúðkaup sitt til hennar.

"Það var", segir Franklín, "auðna mín, að jeg eignaðist konu þá, sem var eins iðin og sparsöm einsog jeg sjálfur. Hún vann með mèr sem hún mátti, batt bækur, var í búðinni, og margt fleira. Við hèldum aldrei löt hjú, sjálf lifðum við hófsamliga í fæði og klæðum og öðrum nauðsynjum. Lengi var morgunverður minn ekki annað enn mjólk og brauð í lítilli tvískildíngs skál af leiri; spónninn minn var úr tini. En það sannaðist á mèr einsog öðrum hvörsu óhófið smeygir sèr inn, og fær vald yfir öllum lífernisreglum. Einn morguninn var kallað á mig til morgunverðar, og þá var mjólkin komin í skál af postulíni (steinleir, glerleir, *porcellain*), og silfurspónn í. Þetta hafði konan keypt á laun við mig við geysi verði, (23 shillings, eður hèrumbil 11 dölum); bar hún það fyrir sig, að sèr sýndist maðurinn *sinn* eiga eins

skilið að fá silfurspón og postulínsskál einsog nágrannar hans. þetta var í fyrsta sinn að silfur og postulín kom í okkart hús, en seinna, þegar við urðum auðngri, áttum við nokkurra þúsund dala virði af því tægi".

Fèlag það sem Franklín hafði stofnað með fleirum vinum sínum (Sameiníngin), var nú orðið svo efnað, að það tók sèr lítilfjörlegt húsrúm til leigu. Franklín stakk þá uppá að allir fèlagsmenn skyldu flytja þángað bækur sínar, svo þeir hefðu þær hjá sèr á fundum, og til þess að hvörr einn gæti fengið bækur sèrhvörs fèlagsmanna að láni sem hann girntist, því þá væri einsog hvörr einn þeirra ætti allar bækurnar. þetta var gjört; en af þessu ráði spratt annað sem varð afleiðíngaríkara. — Um þessar mundir voru sárfáir bóksalar í Bandafylkjunum. Prentarar í Nýu-Jórvík og Bræðraborg seldu einúngis pappír, almanök og fáeinar af venjulegum skólabókum, en þeir sem vildu eignast aðrar bækur urðu að nálgast þær frá Englandi. Franklíni kom til hugar að stofnsetja bókasafn með sameginlegum kostnaði, og var það frumvarp hans, að hvörr sem tæki þátt í því skyldi þá þegar gjalda nokkuð til að kaupa stofn fyrir, og síðan á hvörju ári til aukníngar safninu. En svo var þá lestrarfýsnin dauf í Bræðraborg, að einir 50, flestir úng kaupmannaefni, lofuðu að styrkja fyrirtækið. þó þetta væri lítill stofn var samt byrjað, og áskrifendum leyft að taka bækur að láni einusinni í viku. Að þessu urðu bæði not og skemtan, og þareð útlátin ekki voru neinum um megn, er ekki var ölmusumaður, jókst ávallt

tala þeirra sem vildu eiga hlut í bókasafninu*). Smámsaman var farið að breyta eptir þessu dæmi í öðrum borgum og sumstaðar í heraði; bókasöfnunum bættust opt bækur gefins, og lestrar fýsnin varð almenn. „Þjóð vor", segir Franklín, „sem ekki átti neinar almennar skemtanir til, er gætu dregið hana frá bóklestri, varð æ kunnugri góðum bókum, og leið ekki lángt um að útlendir menn þóktust hafa tekið eptir að alþýða væri hèr betur að sèr enn almennt er í öðrum löndum, því smákaupmenn og bændur voru margir eins vel að sèr og allur þorri þeirra sem kallaðir eru mentaðir annarstaðar; er það eigi ólíklegt, að þessi hafi verið ein hin helzta orsök til, að hèr var almennt samheldi til mótstöðu allrar kúgunar, þegar um rèttindi þjóðarinnar var að tefla". Upp frá þessum tíma hafa bókasöfnin alltjafnt fjölgað í Bandafylkjunum, og dreift allskonar fróðleik meðal ótölulegs grúa manna í öllum stèttum.

„Óþægð sú og mótmæli", segir Franklín, „er mættu mèr þegar jeg var að safna áskrifendum til þessa fyrirtækis, sýndu mèr bráðlega, að það er ekki ráð fyrir neinn, sem ætlar að stofnsetja eitthvað nytsamt, að nefna sjálfan sig sem frum-

*) Bókasafn þetta varð um síðir, svo auðugt, að prýðileg höll var reist á þess kostnað því til geymslu, stendur þar líkneski Franklíns á framanverðu húsinu, og er gjört af ítölskum marmara. Franklín er þar gjörður standandi, styður hann vinstra handlegg á bækur, og heldur á brèf-stránga í hendinni. Í hægri hendi hefir hann veldissprota niðursnúinn (á höfði), til merkis um að hann var móthverfur einveldisstjórninni.

kvöðul, sízt ef fyrirtækið að líkindum mætti verða höfundinum til meiri sæmdar enn öðrum sem styrkja það, en hann þarf þó hjálpar þeirra til þess fyrirtækið fái framgáng. Jeg dróg mig því sem mest í hlè, og lèt ekki annað uppskátt, enn að nokkrir vinir mínir hefðu tekið sig saman um þetta, og beðið mig að leita liðs þeirra, sem þeim hefðu þókt líklegastir til að vera fróðleiksgjarnir. Með þessu móti fèkk fyrirtækið jafnari framgáng, og því hefi eg ávallt síðan farið eins að, og heppnast vel. Beri svo við, að menn lengi ekki viti hvörjum slíkt sè að þakka, kann einhvörr oflátúngur að eigna sèr það, en það þolir öfundin ekki, og neyðist þá til að gefa þèr heiður þann er þú átt skilinn, svo *hann* fái hann ekki. Bókasafn þetta gaf mèr þaraðauki tækifæri til stöðugra fróðleiksiðkana, því jeg las þar eina eða tvær stundir á hvörjum degi. Þannig bættist mèr það sem mig vantaði á uppfræðíngu í eiginlegum lærdómi, sem faðir minn hafði ætlað mèr fyrrum. Bóklestur var eina skemtan mín um þetta bil, en aldrei eyddi jeg neinu augnabliki í gildaskálum, nè til annarra dægrastyttínga. Við iðn mína var jeg svo kappsamur og ötull sem jeg mátti, og á þurfti að halda. Jeg var í skuld fyrir prentsmiðjunna; átti vaxandi fjölskyldu að framfæra, og keppast á við tvo prentara, eldri mèr, um atvinnu; samt sem áður blómgaðist hagur minn óðum".

Í Bandafylkjunum er eingin föst þjóðtrú lögtekin, búa allskonar trúarflokkar þar í samblandi, án aðskilnaðar. Franklín felldi sig ekki við neinn þeirra til fullnustu, en fylgdi samt þeim flokki

sem nefnist Presbyteríanar*), einsog faðir hans, þó honum þæktu nokkrar kenníngar þeirra tæpar og óskilmerkilegar. Hann virðti alla trúarflokka, — en ekki alla eins — vegna hins góða sem sèrhvörjum þeirra fylgdi, og styrkti þá einnig góðgjarnlega; en það var honum mjög ógeðfelt, að flestir þeirra voru fastastir á því sem helzt aðgreindi þá frá bræðrum þeirra (í öðrum flokkum), því þar leiddi aldrei neitt gott af, heldur sífeldan ríg og kala. Því ríkari sem þessi sannfæríng varð, því framar leiddist hann til að hafa mætur á *góðu hugarfari* og *ráðvöndu framferði*, því honum skildist, að án þess gæti einginn orðið sannfarsæll. Eingin athöfn þókti honum þessvegna eins umvarðandi einsog sú, að kappkosta að verða góður maður og dygðauðugur, og einsetti sèr þessvegna að kappkosta það eptir megni. En hann komst bráðlega að raun um, „að það sem hann hafði lagt á sig var vandara enn hann hafði ætlað, því optlega rataði hann í aðra yfirsjónina, þegar hann hugsaði að komast hjá einni; venjan yfirbugaði hann þegar hann gáði ekki að sèr; girndin varð skynseminni yfirsterkari". Hann sá af þessu, að hið góða ekki gæti grundvallast hjá sèr fyrrenn það yrði að *vana*; en til að venja sig á hið góða, og af ósiðum, tók

*) Flokkur þessi hefir líkar kenníngar og lúterskir menn, í trúarefnum, en ólíka kirkjustjórn, og er hun löguð að dæmi kristinna safnaða á fyrstu krists öld, þessvegna nefnist flokkurinn öðru nafni *Púritanar;* öldungar (*Presbyteri*) safnaðanna hafa alla stjórn í andlegum efnum, en biskupar eru aungir. Þessi flokkur hófst á dögum Elízabetar drotníngar, á ofanverðri 16du öld.

hann þetta ráð: Hann skipti hinu góða, sem hann ætlaði að innræta sèr, í 13 dygðir; *Sparneytni* (Borðaðu ekki þángaðtil þú linast upp; drekktu ekki þángaðtil þú ræður þèr ekki!); *Þagmælsku* (Talaðu ekki annað enn það sem getur orðið þèr eða öðrum til nota!); *Reglusemi* (Lát hvörja sýslan hafa sinn tíma, hvöru hlut sinn stað!); *Fastræði* (einsettu þèr að gjöra það sem þú átt að gjöra, og framkvæmdu nákvæmlega það sem þú einsetur þèr!); *Sparsemi* (eyddu aungu nema það sè þèr eða öðrum að gagni, aungu til ónýtis!); *Iðni* (eyddu ekki tímanum til ónýtis, hafðu ávallt eitthvað þarft fyrir stafni, hafstu aldrei neinn óþarfa að!); *Einlægni* (vertu hreinn og ráðvandur í huga, og talaðu samkvæmt því!); *Rèttsýni* (Gjör aungum mein með ráugindum, nè með því að láta velgjörðir falla niður sem þèr er skyldt að veita!); *Hófsemi* (Forðastu allt hvað of er eða van!); *Þrifnað; Jafnlyndi* (Láttu aldrei smámuni bíta á þig, nè venjulega atburði sem ekki má forðast!); *Skírlífi; Auðmýkt.* Hann sá hráðlega að hann mundi ekki fá *vanið* sig á dygðir þessar í einu, þessvegna ásetti hann sèr að venja sig á eina í senn, og þegar hann væri orðinn nokkurnvegin tamur henni þá að byrja á annarri; en af því honum skildist að ein dygð mundi beina veg til annarrar, þá raðaði hann þeim einsog fyrr var sagt, því sá sýndist honum beinastur vegur. Síðan bjó hann sèr til kver, strikaði á hvörja blaðsíðu 7 lángstrik og 13 þverstrik, og skrifaði vikudaga nöfnin efst milli lángstrikanna, en dygðanöfnin niður frá, milli þverstrikanna. Þannig hafði hann

reit handa sèrhvörri dygð á hvörjum degi vikunnar, og merkti hann í hvörjum reit hvörsu opt á dag honum varð á að gleyma hinni tilteknu dygð. Hvört kvöld hèldt hann reikníng við sjálfan sig um hinn liðna dag. Hann setti sèr eina dygð fyrir um hvörja viku, og á meðan stóð sú efst á blaðinu; næstu vikuna sú sem þaráeptir fylgdi í röðinni, og svo frameptir, þángaðtil röðin var á enda. „Og þareð jeg vissi", segir hann, „að guð er uppspretta alls vísdóms, þá áleit jeg mèr það skyldu og fulla nauðsyn að biðja hann aðstoðar, svo jeg gæti öðlast hana. Jeg bjó mèr til þessa bæn, og skrifaði hana fremst í kverið: „„Almáttugi guð! gæzkuríki faðir! miskunsami leiðtogi! efl hjá mèr vísdóm þann sem kennir mèr að þekkja hið rètta gagn mitt! styrk vilja minn, til þess jeg geti framkvæmt þann ásetníng sem þessi vísdómur tendrar hjá mèr! Tak það góða sem jeg gjöri öðrum börnum þínum sem endurgjald, það eina endurgjald sem jeg megna að greiða, fyrir alla þá velgjörnínga sem þú hefir auðsýnt mèr"".

Stöðuglyndi Franklíns og áhyggja um þetta fyrirtæki var í sannleika sjaldgæf og aðdáanleg. Um mörg ár hèldt hann áfram reiknúngskap þessum við sjálfan sig, allt þángaðtil ferðir og ýmsar annir í alþjóðlegum málefnum trufluðu hann. Að sönnu mátti hann játa sig ófullkomnari enn hann ímyndaði sèr að geta orðið; en hann öðlaðist samt þá gleði, að taka eptir að hann varð með þessari aðferð betri og farsælli maður enn hann að líkindum annars hefði orðið. „Jeg vil", segir

hann, „að niðjar mínir viti, að það sè, næst guðs hjálp, þetta smáræði, sem ættfaðir þeirra átti að þakka stöðuga gæfu sem honum hefir hlotnast um 79 ár, er hann hefir á baki þegar hann skrifar þetta. Hvört eða hvör bágindi honum mæta hèðanaf, er í guðs hendi; en þótt þau mæti, þá skal endurminníng hinnar umliðnu gæfu styrkja þolinmæði hans. *Sparneytninni* er að þakka stöðug heilsa og þrek líkamans sem hann ennþá hefir. *Iðni* og *sparsemi* gáfu honum snemma ríkuglega atvinnu; þær gjörðu hann að efnamanni, lètu honum auðnast að ná þeirri þekkíngu, sem hefir gjört hann að nytsömum fèlagslimi þjóðar sinnar og alls mannkyns, og aflað honum nokkurrar frægðar meðal lærðra manna. *Einlægni* og *ráðvendni* útveguðu honum traust landa hans, og ruddu honum veg til sæmdarstarfa þess, er þeir síðar fólu honum á hendur. Öllum þessum dygðum tilsamans á hann að þakka jafnt glaðlyndi og skemtni í umgengni, svoað kunníngjar hans hinir ýngri leitast eptir og hafa gleði af að vera með honum. Jeg vona því að nokkrir af niðjum mínum muni vilja fylgja dæminu, og uppskera ávexti þess."

"Framanaf", segir hann enn, "hafði jeg ekki nema tólf dygðir á bók minni, en kvekari einn sýndi mèr það vináttumerki, að segja mèr, að jeg þækti almennt ekki lítilátur, og það mætti líka heyra dramb í ræðu minni; hann sannfærði mig einnig um það með ekki allfáum dæmum. Jeg einsetti mèr þessvegna að bæta *auðmýkt* við hinar dygðirnar. Ekki vil jeg raupa af að jeg hafi síðan

orðið sannanðmjúkur, en *það* má jeg segja með sanni, að í viðmóti fór mèr fram í auðmýktinni. Jeg gjörði mèr það að reglu, að bera aldrei beinlínis móti því sem aðrir sögðu, nè vera rígfastur á sjálfs míns meiníngu. Jeg dirfðist aldrei að segja: "öldúngis víst" eða "hiklaust", heldur sagði jafnan "jeg held" eða "mèr sýnist núna." Segði sá sem jeg átti málstað við eitthvað sem mèr fannst rángt, þá hóf jeg mótmæli mitt svo, að ef einhvörnvegin öðruvísi stæði á mundi hann hafa rètt að mæla, en einsog nú væri ástadt, *fyndist* mèr vera öðru máli að gegna. Skjótt varð jeg varr við hvörsu betri þessi aðferð var: samræðan varð vinsamlegri, mèr varð minni hneysa að hafa rengra málstað, og vannst betur að lagfæra rángar meiníngar annarra, og koma þeim á mitt mál þegar jeg hafði rètt að mæla. þessum vana þakka jeg umfram annað (næst trausti manna á ráðvendni minni), að þegar snemma var svo mjög látið að orðum mínum, er jeg stakk uppá nýum fyrirtækjum eða umbótum, og að jeg varð svo mikils metinn í ráðinu þegar jeg kom í það, því jeg var ómælskur maður: málstirðurjafnan, lá við að þagna og stama þegar jeg þurfti að velja orð, og talaði varla gott mál; en þó kom jeg optastnær mínum vilja fram".

1732 kom fyrsta almanak Franklíns, og kallaði hann sig þar Ríkarð hinn snauða. því var haldið fram hèrumbil um 25 ár, og var það almennt kallað "almanak Snauða-Ríkarðar". Hann lagði sig til að gjöra bók þessa svo skemtilega og þarflega sem mögulegt var; hún gekk líka vel út,

og varð honum að miklum gróða; hann seldi 10 þúsundir af henni á ári, og mátti það heita frábært, því land var þá enn strjálbygt. Hann ætlaði kver þetta helzt til uppfræðíngar almúga, og lèt því prenta allstaðar þar sem eyðnr voru spakmæli og smá-heilræði, einkum þau sem vekja máttu til iðni og sparsemi. Seinast var heilræðnu þessum öllum safnað í eitt; voru þau prentuð á seinni árum kversins, og lögð í munn gömlum manni nokkrum vitrum, sem talaði til alþýðu á yfirboðsþíngi (Auction). Hugsvinnsmál þessi, sem hann kallaði "Ráð Ríkarðar hins gamla til að ná auði og sæld", voru mjög vel meðtekin; þau voru prentuð í öllum blöðum í landinu, og auk þess á stór brèf, sem margir menn í Bræðraborg lètu gjöra rastir (Ramma) að og gler fyrir, og heingdu upp í stofum sínum. Þau voru einnig prentuð á Englandi, og á Frakklandi tvívegis*). Prestar og ymsir aðrir keyptu fjölda af þeim til gefins útbýtíngar meðal hinna fátækari. Af því alþýða gegndi því sem þar var lagt á móti útlendum óþarfa og óhófsvörum, fór að nokkrum árum liðnum að bera á almennri velmegan í Pennskóga fylki.

"Blað mitt", segir Franklín, "ætlaði jeg líka að skyldi auka og útbreiða þekkíngu nytsamlegra hluta. Þessvegna prentaði jeg opt á ný það sem fyrri menn höfðu ritað, einnig sumt er jeg hafði sjálfur samið laungu áðnr, og ætlað var til lestrar á fundum fèlags vors. Apturámóti forðaðist jeg

*) Heilræði þessi eru hèr aptanvið, og nefnd "auðnuvegurinn".

að láta prenta meiðyrði til einstakra manna. Bæði nokkurr mig um að prenta þvílíkt, og höfundar stæðu fast á, einsog vant er, að prentan ætti að vera öllum frjáls á öllu, þegar menn greiddu kostnaðinn; þá svaraði jeg, að jeg skyldi prenta það fyrir þá sèrílagi, þeir gætu þá fengið svo mikið af því sem þeir vildu, og komið því út sjálfir, en jeg hefði lofað kaupendum blaðs míns að senda þeim eitthvað þarflegt eða skemtilegt, og mætti því ekki gjöra þeim rángt til, að fylla blaðið, sem *þeir* ættu reyndar, með jagi annarra sem ekki varðaði þá. Jeg segi þetta til aðvörunar úngum prenturum, svo þeir ekki verði list sinni til mínkunar með slíku. Ef þeir fylgja ráðum mínum munu þeir sanna að það verður þeim að gagni".

Árið eptir (1733) sendi Franklín einn verkmann sinn til Karlstúna (Charlestown), því þar var þá einginn prentari. Franklín lagði honum til áhöld og letur, og gjörði fèlag við hann um tiltekinn hluta kostnaðar og ábata. Maðurinn var vel að sèr í mörgu, en kunni alls ekki reikníng; hann sendi að sönnu stundum peninga, en aldrei fèkk Franklín skýlausa grein fyrir því sem þeim fór á milli. Ekkja manns þessa tók að honum dauðum við stjórn prentsmiðjunnar; hún var fædd í Hollandi, en þar er stúlkum kendur reikníngur með mikilli alúð. Hún kom bæði reglu á reikrínga manns síns, og hèldt þeim fram með mestu nákvæmni; henni búnaðist líka svo vel, að hún gat ekki að eins alið börn sín upp sómasamlega, heldur og einnig keypt prentsmiðjuna að Franklíni, þegar samníngur þeirra var á enda, og fengið hana í

hendur syni sínum. "Jeg get þessa", segir Franklín, "til að mæla fram með að stúlkum vorum sè kendur reikníngur, því komist þær í einstæðíngsskap, verður það þeim þarfara og börnum þeirra, enn þó þær læri að sýngja og dansa".

Af því fyrirtæki þetta heppnaðist í Karlstúnum, hvattist Franklín til að reyna sama annarstaðar; hann lèt þá sem höfðu verið honum trúir þjónustumenn taka sèr bólfestu á ymsum stöðum í nýlendu-fylkjunum, með sömu skilmálum og nú var sagt. Flestir þeirra urðu auðnusamir, og gátu leyst til sín prentsmiðjuna þegar hinn tiltekni samníngsfrestur (6 ár) var á enda. "Sámlögum lýkur opt með þrætum", segir Franklín, "en jeg var svo heppinn, að samlög mín stóðu og enduðu með vináttu. Það held jeg hafi að miklu leiti komið af því, að við tókum nákvæmlega fram í skilmálunum, hvað hvörr okkar ætti að gjöra, og hvörs hann mætti vænta, svo þrætuefnið varð ekkert. Þegar þetta er ekki allt nákvæmlega áskorðað í upphafi, kemur opt grunsemd, ágreiníngur og ósamþykki, ef nokkurr efi getur verið um orð skilmálans viðvíkjandi tillögum og skyldum hvörs um sig. Þaðanaf rofnar vinátta og samníngar, ef þá ekki verða málasóknir útúr eða annað verra".

Smámsaman hneigðist nú lífsferill Franklíns á nýa og æðri stefnu. Forsjá og heppni voru búnar að gjöra hann að efnamanni og koma honum í veltuna; hann þurfti ekki lengur að vinna mikið sjálfur; þjónustufólki því sem hann hèldt hafði hann sjálfur kent, og galdt því vel, svo hann mátti vera óhultur um trúmennsku þess;

hann þurfti smámsaman ekki annað enn einúngis að hafa aðsjón með því, og það hafði hann líka nákvæmlega. Árið eptir lètti líka þessu á honum: hann tók þá Davíð nokkurn, duglegan og ötulan mann og hinn hezta dreng, sem hafði verið hjá honum mörg ár, í fèlag við sig; stýrði hann síðan smiðjunni um 18 ár með dygð og dugnaði. Þegar kaupstaðamenn og bændur eru búnir að koma sèr einsvel fyrir og Franklín nú, þykjast þeir vera komnir nógu lángt, og vita ekki hvað þeir eiga að taka sèr fyrir hendur síðan; þeir þurfa ekki að vinna neitt sem örðngt er, og umsjón yfir vinnu annarra, sem er komin á fasta rás, er ekki torveld; þeir taka þessvegna ósjaldan á sig náðir, en þaðan spretta leiðindi, og síðan lestir, sem gjöra þá afskiptalausa og óhæfilega til að sjá um sitt, og þannig láta þeir allt hrynja aptur, sem þeir áður höfðu varið miklu ómaki til að byggja. Franklín þarámóti var búinn að leggja allt niður fyrir sèr áður, og lagði þetta einúngis sem óhultan grundvöll, er síðan mætti byggja á. Hann einsetti sèr þá að kappkosta tvo hluti, fyrst að taka sèr fram í þekkíngu og fróðleik, en síðan að vinna gagn þjóð sinni, og allri mannþjóð ef hann gæti. Hið fyrra varð að miklu leiti að undirbúa hann og laga til hins síðara.

Fyrst í stað gaf hann sig einúngis við lítilvægum málefnum. Siðamenn (lögreglumenn; Pólití) voru vanir að skiptast til að halda næturvörð þar í borginni, og taka nokkra af borgarmönnum í lið með sèr; vildu *þeir* ekki leggja á sig næturvökur, guldu þeir siðamönnum peninga til að leigja vöku-

menn í staðinn. Urðu þá optastnær strákar eður ónytjúngar til að gánga á vörð, sem falir voru fyrir lítið kaup, svikuvörðinn, og einginn heiðvirður maður gat verið með. Franklín las fèlagi sínu ritkorn, er hann hafði samið um óreglu þessa, og sýndi þar, að hinn fátækasti yrði með þessu móti að gjalda jafnt hinum ríkasta, einúngis ef hann ætti hús í bænum; hann stakk því uppá að áreiðanlegir menn væru keyptir til að halda vörð, og kaupi þeirra jafnað niður á alla búfasta bæarmenn eptir því sem þeir væru fjáðir til. Fèlagið tók þessu vel; var það síðan lesið í hinum fèlögunum, og í hvörju einu látið einsog það hefði komið fyrst upp þar. Þetta hvatti marga til að hugsa málið, og fáum árum seinna voru samin ný varðlög, samkvæm uppástúngunni.

Franklín gjörði annan ritlíng um sama bil, lýsti hann þar stjórnleysu bæarmanna þegar slökkva átti voðaeld, og gaf ráð til hvörnig bezt yrði hagað stjórn í slíkum tilfellum. Ritlíngur þessi var fyrst lesinn á fèlagsfundi, og síðan prentaður; vakti hann eptirtekt margra, og leiddi til þess, að fèlag eitt tók sig saman um að útvega góð slökkvitól, og koma til liðs þegar voði var á ferðum. Að þessu voru ljós not, og gengu margir í fèlagið sjálfkrafa, en þegar mannmargt var orðið í hinu fyrsta, voru fleiri smáfèlög stofnuð í sama tilgángi. Í þessi fèlög gengu síðan allir þeir af bæarmönnum, sem nokkurs máttu missa við húsbruna, og komst þannig ágæt regla á í þessari grein.

1734 var Franklín valinn til skrifara á fylkis-

þínginu (Congres). Í það sinn völdu allir hann í einu hljóði, en árið eptir mótmælti einn af hinum nýu þíngmönnum að hann væri valinn, og vildi láta annan verða skrifara. Franklín var samt valinn, og var honum það ekki lítill hagur, því bæði fèkk hann álitleg laun, og líka var honum falið að prenta allar auglýsíngar, lög, bánkaseðla og önnur þjóðskjöl. Það beit ekki lítið á Franklín að einn af þíngmönnum hafði lagt á móti honum, einkum af því sá var gáfaður maður og vel að sèr, og líklegur til að ráða miklu meðal fulltrúanna; samt vildi hann ekki reyna nein ósæmileg meðöl til að ná vináttu hans, heldur fór hann þannig að: Hann hafði heyrt að maðurinn ætti bók, sem var bæði sjaldgæf og merkileg, hann skrifaði honum því brèf nokkru síðar, og bað hann að ljá sèr bókina fáeina daga. Hann fèkk bókina þegar, og sendi aptur að viku liðinni með þakklætisbrèfi fyrir lánið. Þegar þeir hittust næst á þíngi ávarpaði maðurinn Franklín að fyrra bragði, sem hann var aldrei vanur, og mjög vingjarnlega; var hann ávallt síðan mesti vinur Franklíns meðan þeir lifðu báðir. „Þetta sýnir", segir Franklín, „að það er satt sem mælt er: sá sem einusinni hefir gjört þèr greiða mun vera fúsari til greiða við þig aptur, enn sá sem þú hefir verið innanhandar að fyrra bragði. Það sýnir hve forsjálegra sè að sefa fjandskap, enn endurgjalda hann og ala".

Árið eptir bættist Franklíni nýtt embætti. Ræðismaður sá, sem átti að stjórna póstagaungum um fylkin var orðinn reiður Braðforði hinum eldra sem átti að ráða gaungunum frá Bræðraborg, vegna

hirðuleysis og óskilsemi í reikníngum; hann tók því af Braðforði embættið og bauð Franklíni. Ekki var þar fyrir launum að gángast, en sá hagnaður var við það, að Franklín átti hægra að senda blað sitt síðan, en Braðforð hafði áður hindrað það með öllu móti, (því hann gjörði út blað sjálfur). Franklín hefndi sín á honum með því, að greiða fyrir blaði hans svosem hann gat. „Jeg ætla undireins", segir hann, „að segja úngum mönnum, sem eiga að sjá um annarra fè, að standi þeir ljós og nákvæm skil á því er þeir hafa undir höndum, mælir það bezt fram með þeim til embætta".

Franklíni hugsaðist um þetta mund upp ný lögun á stofuofnum (Kakalofnum). Þessir hinir nýu ofnar voru síðan kallaðir vindofnar, eru þeir bæði fallegri og eldsneytissparari enn hinir eldri, og eru nú almennt tíðkaðir. Þegar hann var búinn að mynda til um lögunina, gaf hann myndina (Model) Hróbjarti Gresa vini sínum, og steypti hann eptir því marga ofna, því hann átti steypusmiðju, og græddi mikið fè. Franklín samdi líka ritlíng nokkurn um lögun ofnanna og nytsemi þeirra; þókti höfuðsmanninum svo vænt um það, að hann bauð Franklíni nokkurra ára einkaleyfi til ofna smíðis, en Franklín þáði það ekki. „Vèr höfum", sagði hann, „svo margan hagnað af því sem öðrum hefir hugsast upp, að vèr ættum að gleðjast við ef oss einnig hugsaðist eitthvað nýtt, og ekki hafa það til ásælni við aðra, heldur þeim til gagns".

Þá var fyrir nokkrum árum ófriður kominn milli Spánar og Englands, og hèldu Frakkar með

Spáni. Af ófriði þeim var hinum ensku nýlendum í Vesturálfu mikill háski búinn, bæði af sjó og landi, frá nýlendum Frakka að norðanverðu; en landið var að öllu varnarlaust. Höfuðsmaðurinn í Pennskógafylki hafði opt viljað lögleiða, að hvörr maður væri skyldaður til landvarnar, en hafði aldrei komið því fram vegna fylkisfulltrúanna. Kom það af því, að allur þorri þeirra var kvekarar, en í trú kvekara er allur hernaður bannaður, og sömuleiðis að veita öðrum til hernaðar. Samvizkan leyfði þeim ekki að bregða af þessari trúargrein, þó þeim væri hættan í augum uppi. Franklíni datt þá í hug að reyna, hvört ekki mætti koma því til leiðar með samlögum sem lögin ekki orknðu; hann samdi ritlíng, og lèt prenta, lýsti hann þar ljóslega og með sannindum varnarleysi landsins, og hvörsu mikil nauðsyn á væri að allir landsmenn hèldu saman um vörnina, síðan hvatti hann alþýðu að bjóðast til landvarnar, svosem hvörr maður væri færr til. Ritlíngur þessi vann mikið á; Franklín var beðinn að kveðja leiðmóts um fylkið, og það gjörði hann. Til mótsins kom svo mikill fjöldi, að samkomuhúsið varð drjúgum fullt; voru þá smáborð með skriffærum sett með öllum veggjum, handa þeim sem vildu rita nöfn sín. Síðan talaði Franklín stutt eyrindi, og útlistaði frumvarp til skjals nokkurs, er tilgreindi skyldur sèrhvörs sem gengi í landvarnar þjónustu. Sú skrá var fengin prentuð sèrhvörjum sem á mótinu var, og andæpti henni einginn; en þegar þínginn var slitið, sáu menn að **1400** manna höfðu lofast til landvarnar. Bæklíngur Franklíns og landvarn-

arskráin voru síðan send um allt land, og nokkru síðar höfðu rúmar 10 þúsundir gengið í landvarnarflokkinn. Þeir lögðu sèr sjálfir til vopn, skiptu sèr í flokka (Kompagnier) og sveitir (Regiment), völdu sèr foríngja (Offisèra), og söfnuðust í hvörri viku til að læra hernaðaraðferð. Konur tóku sig saman um að búa til merkin, saumuðu þær einkunnir á hvört merki, og gáfu sitt hvörri sveit. Foríngjar Bræðraborgar-sveitar kusu Franklín sèr til höfðíngja (*Chef* — Sjef), en hann vildi ekki takast það á hendur, því hann þóktist ekki færr til þess, heldur rèðst hann í fylkínguna til dáta, en til höfðíngja rèði hann mönnum að velja Lafrens (Lawrence) nokkurn, og var það gjört. Síðan gekst Franklín fyrir að byggja skyldi skotvegg (skotbryggju — Batterí) fyrir neðan borgina, voru keyptar þángað gamlar fallbyssur í Bostúni, og skrifað til Lundúna eptir fleirum til viðbótar, en á meðan á því stóð, var hann og 3 aðrir af bæarmönnum sendir til Nýu-Jórvíkur, til að fá fallbyssur nokkrar að láni hjá Klintoni höfuðsmanni. Hann neitaði því í fyrstu þverlega, en nokkru seinna voru þeir saman að middagsverði, var þar drukkið Madèra-vín af kappi, eins og siður var til; en þegar höfuðsmaður var orðinn kendur fór hann smámsaman batnandi, svo hann lofaði þeim fyrst 6, síðan 10, og seinast 18 fallbyssum, eptir því sem vínið sveif á hann. Þessar 18 fallbyssur voru fluttar heim á skotvegg í Bræðraborg, og var settur vörður við þær, meðan styrjöldin hèlzt, á hvörri nóttu. Franklín gekk þar á næturvörð einsog hvörr óvandaður dáti.

Nokkrir af vinum Franklíns voru hræddir um, að hann hefði komið sèr útúr húsi við kvekarana með hernaðarsýslu sinni, svo þeir mundu ekki kjósa hann framar til skrifara á fylkisþínginu, en þar áttu þeir flest aðkvæði. Úngur maður nokkurr, sem vildi verða þíngskrifari, og átti nokkra af þíngmönnum sèr hliðhalla, skaut því að honum, að menn hefðu fastráðið að taka embættið af honum, rèði hann honum því vinsamlega að segja af sèr fyrri enn hann væri rekinn frá. Franklín svaraði: „Jeg hefi heyrt sagt frá manni, sem gjörði sèr að reglu að biðja aldrei um neitt embætti, en aldrei heldur *neita* þeim sem honum væru boðin. Þessa reglu hefi jeg tekið upp, og bætt því við, að jeg ætla aldrei að *segja af mèr* embætti. Vilji þeir fá öðrum það, þá mega þeir taka það af mèr". Ekki varð samt neitt af frárekstrinum, því hann var valinn í einu hljóði til skrifara í næsta sinn. Kvekurunum hefði án efa þókt vænt um ef hann hefði sagt af sèr, en þeim leizt ekki fært að taka af honum embættið fyrir það hann var ötull í að efla gagn þjóðarinnar og velgengni, og annað gátu þeir ekki fundið til orsaka.

Eptir að friður var á kominn tók Franklín til þess sem honum hafði lengi verið ríkt í skapi: að stofna stórskóla (Academí) í Bræðraborg. Hann hóf það svo, að hann tók sig saman við nokkra vini sína og fèlagsbræður, síðan prentaði hann ritlíng einn nafnlausan, og lèt útbýta gefins meðal allra málsmetandi manna. Þegar hann sá að vegur var þannig beindur, tók hann sig upp, og bað um

styrk til stofns handa skólanum; gekk það svo æskilega að hann fèkk safnað 5000 punda (hèrumbil 45,000 dala). Hann og annarr til voru valdir til að segja upp lög skólans, og að þeim sömdum og samþyktum var hús eitt tekið á leigu, kènnendur ráðnir, og skólinn settur. Lærisveinarnir fjölguðu óðum, og að skömmum tíma liðnum varð húsið of lítið. Fè græddist líka óðum, því bæði komu miklar gjafir frá Englandi, eigendur Pennskógafylkis gáfu jarðir, fylkisfulltrúarnir lögðu einnig drjúgmikið til, og að síðustu varð úr skólanum *háskóli* (allsherjar skóli — Universitet) sem enn í dag stendur í Bræðraborg. Franklín segir sjálfur: „Jeg hefi nú híngaðtil verið forstöðumaður skólans frá upphafi, og hefir mèr verið mesta gleði að sjá fjölda únglínga vaxa þar upp og taka framförum, suma framúrskarandi efnilega, sem síðan urðu merkilegir menn, og föðurlandinu til gagns og sóma".

1751 ætlaði læknir nokkurr, sem Bondi hèt, að setja spítala handa fátækum sjúklíngum. Þá sýndist það, hvörsu mikið orð Franklín hafði á sèr meðal alþýðu, um skynsemi og atorku til framkvæmdar öllu því sem miðaði almenníngi til þarfa. Bondi leitaðist við á alla vegu að safna fè handa spítalanum, en það gekk yfrið tregt, því allt þesskonar var ókunnugt þar í landi. Að síðustu kom hann til Franklíns, og sagðist mega sanna, að ófært mundi að koma nokkru á fót til almenníngs þarfa nema hann ætti þátt í því. „Þegar jeg bið menn um styrk", sagði hann, „spyrr sèrhvörr mig óðar: hafi þèr spurt Franklín ráða?

hvörnig lízt Franklíni á þetta fyrirtæki? Neiti jeg því, þá segjast þeir þurfa að hugsa sig um". Bondi leiddi honum síðan fyrir sjónir hvörnig spítölum væri varið, og nytsemi þeirra, svo Franklín sá að fyrirtækið var eitthvört hið nytsamasta. Hann lèt fyrst prenta grein um þetta í blöðunum, einsog hann var vanur, og lèt gánga áskriptar brèf umkríng á ný, handa þeim sem gefa vildu; gafst þá allmikið fè, en þó ekki svomikið að nóg væri, þángaðtil Franklín kom fylkisfulltrúunum til að skerast í málið. Þá var bygt spítalahús og sjúklíngar teknir, og varð það alþýðu mesta gagn og gleði.

Um sama mund kom annarr maður til Franklíns, og beiddi hann að styrkja til að bygt yrði samkunduhús handa einum flokki af Presbýteratrú. Því neitaði Franklín, því hann vildi ekki gefa sig að neinu sem honum ekki var annt um, og ekki spilla orðstýr sínum hjá alþýðu með því að ráða til þeirra hluta sem hann gat ekki ljóslega sýnt að væru til nota. Maðurinn beiddi hann þá að segja sèr hvörir örlátastir væru þegar gefa ætti til almenníngs þarfa; um það neitaði Franklín honum líka. „Leggið mèr þá eitthvört gott ráð að minnsta kosti", sagði hinn. „Það má vera", svaraði Franklín; „Fari þèr fyrst til þeirra sem þèr vitið með vissu að gefa munu; farið síðan til þeirra sem óvíst er um hvört gefa munu eður ekki, og sýnið þeim nöfn hinna fyrri; en nð síðustu skulu þèr fara til þeirra, sem þèr vitið að ekki munu gefa, því vera mætti yður hafi skjátlast um suma". Þá hló hinn ókunni maður,

og kvaðst mundi fylgja þessu ráði, hann gjörði það líka trúlega, því hann fór til *allra;* söfnuðust með því móti miklu meiri gjafir enn hann hafði vænt, og var bygt fyrir þær prýðilegt samkunduhús.

Eptir að Franklín var orðinn kunnugur mönnum, bættust sífeldt á hann alþjóðleg störf, og var fátt gjört svo, sem nokkru varðaði, að hans aðkvæða ekki væri leitað að alþýðu ósk. En mest gladdist hann þegar hann var valinn til fulltrúa á fylkis-samkomunni, er var hin mesta sæmd sem staðarbúar gátu sýnt nokkrum manni. „Jeg var orðinn leiður að sitja og skrifa", segir hann, „að heyra rædt um þjóðarmálefni, og verða að þegja. Þegar jeg var fulltrúi sjálfur, jókst mèr þrek til að starfa þjóð minni gagn, og jeg ber heldur ekki á móti að jeg gladdist af sæmd þeirri sem mèr var gjörð; því þegar jeg hugsaði fram á upphafið, þá var þetta býsna tign; en auk þess sýndi það ljóslega þokka margra til mín, því jeg hafði ekki verið í neinum útvegum að jeg yrði kosinn. Jeg var síðan valinn um 10 ár samfleytt, án þess jeg beiddi nokkurn mann að gefa mèr aðkvæði sitt, og án þess jeg lèti með nokkrum hætti merkja á mèr að jeg óskaði þess. Undireins og jeg var valinn til fulltrúa, var sonur minn valinn til skrifara".

Um leið og Franklín þannig stundaði gagn þjóðar sinnar, lagði hann jafnframt stund á margskonar þekkíngu, og var þaraðauki ötull og kostgæfinn við iðn sína. 1833 var hann þegar farinn að stunda útlendar túngur; lærði hann fyrst frakk-

neska túngu svo vel, að hann gat hæglega lesið bækur á því máli, en síðan byrjaði hann á Ítölsku. Einn af vinum hans, sem iðkaði þessa túngu, var vanur að koma til hans, og tefldu þeir skák saman, en þegar Franklíni þókti taflið eyða ofmiklum tíma frá bókiðnum sínum, stakk hann uppá að sá sem ynni skyldi setja hinum fyrir kafla úr málfræði (Grammatík) til að læra, eða úr einhvörju ítölsku riti til að þýða á næsta fundi. Þeir tefldu nærri því jafnt, og unnu þessvegna báðir ítölsku á taflinu. Síðan lærði Franklín svomikið í Spánversku, að hann skildi bækur á þá túngu. Einusinni barst honum latínskt testament í hendur, gekk þá yfir hann að hann skildi mikið í því; þessvegna tók hann til að læra latínu, og var það yfrið hægt, því hinar túngurnar voru honum bezti stofn. Þetta kom honum á þá trú, að menn færu að líkindum ekki beinasta veg þegar menn lærðu túngur. Í stað þess allflestir taka latínu fyrsta, af því hún er móðir margra hinna nýari túngna, fannst honum auðveldara að taka þær fyrri, og síðan latínuna. „Það er að sönnu satt", segir hann, „að ef vèr gætum komíst haptalaust í efstu rim á stiga, yrði oss ekki mikið fyrir að fara með höptum niður aptur, en hitt er víst, að hægast verður að komast efst, ef maður tekur til neðst. Jeg vil því biðja þá sem ráða kennslu únglínga, að hugleiða, hvört ekki mundi bezt að taka Frakknesku fyrst, og síðan Ítölsku, einkum þar menn optlega hætta við latínuna eptir að hafa numið lítið eður ekki, og hafa síðan aldrei nein not af. Færu þeir nú hina leiðina, gætu þeir kanuske,

þó þeir hættu áðurenn þeir væru komnir að latínunni, verið búnir að nema eina eða tvær af hinum nýari túngum, sem þeim gæti orðið gagn að". En — það voru ekki einúngis túngumálin sem Franklín stundaði; hann girntist innilega að þekkja allt sem var gott og gagnlegt. Fèlagið, sem áður er nefnt (Sameiníngin), var honum að miklu gagni, því bæði gat hann numið margt af fèlögum sínum, og líka allopt frædt þá, en af því jókst eljun hans til allrar vísinda-iðkunar; til hins sama studdi annað fèlag sem nefnt var „Heimspekisfèlag", og hann ásamt öðrum var höfundur að. Það var að líkindum, að sá maður sem hafði svo ágætt verksvit sem Franklín, mundi einkum taka eptir kröptum náttúrunnar; að kynnast þeim var líka ástundan hans hin kærasta og iðuglegasta. Djúpsæi hans og grandskygni festu bráðt sjónir á því sem ekki lá í augum uppi, í sèrhvörri vísindagrein; hann var ekki í rónni fyrri enn hann þekti hvað eina sem hann lagði stund á, grandgæfilega, ásamt stað þess og afstöðu í reiti vísindanna. Nú vildi svo til að hann einkum festi sjónir á þeim hlut, sem ekki hafði verið gefinn mikill gaumur að áður: það var *rafurmagnið* (Electricitet). — Þegar í fornöld höfðu vitrir menn tekið eptir, að rafur dróg að sèr aðra hluti; náttúrufróðir menn á seinni öldum höfðu tekið eptir því á mörgu. Grey, enskur maður, tók eptir því 1728, að rafurmagni mátti beina úr einum hlut í annan, þótt þeir væru sundurlausir; einnig að ef menn hengdu upp járntein á silkiþræði eður hári, neru síðan fast mjóa glerpípu og lètu undir tein-

inn, sæust neistar fljúga úr endunum ef í myrkri væri. Eptir það höfðu lærðir menn í þýzkalandi ransakað rafurmagnið, og gjört um það margar tilraunir merkilegar. Einn af vinum Franklíns í Lundúnum, er Kollinson hèt, sendi „heimspekisfèlaginu" 1745 skírslu um þessar tilraunir, og eina glerpípu eins og þær sem hafðar voru við tilraunirnar. Franklíni þókti mikils um þetta verðt; fór hann þegar að reyna pípuna, og reyndist honum einsog hinum hafði reynst, en hann tók þaraðauki eptir mörgu öðru, þegar hann fór að venjast við. þegar aðrir heyrðu þetta, flyktust svo margir í hús Franklíns, til að sjá hvörsu þetta yrði, að hann hafði varla húsrúm; hann lèt því gjöra margar pípur eins, og sýndi vinum sínum aðferðina. Einum af nágrönnum Franklíns þókti mikil skemtan að reyna rafurmagnið; Franklín rèði honum að sýna aðferðina og taka borgun fyrir, og það gjörði hann; var það mörgum gagn og skemtan, og honum sjálfum ábati, en hann var snauður maður áður. Franklín samdi fyrir hann skíríngu um tilraunirnar, var þeim þar skipt í flokka, raðað niður og síðan skírt frá aðferðinni. Eptir að hann hafði lengi hugsað um þetta efni og reynt fyrir sèr, tók hann eptir mörgu sem einginn hafði áður tekið eptir, en síðan er orðið alkunnugt: það var eitt, að þrumuskýin væru ekki annað enn rafurmagnað lopt, og þrumueldur rafurblossar, sem gusuðu úr skýunum þegar þau nálguðust jörðina; eld þennan hèldt hann vera hinn sama og þann sem sæist í enda járnteinsins og pípunnar. þetta varð honum

því ljósara sem hann hugsaði lengur um það, og hann þóktist sjá sannindi þess á mörgum hlutum, en allt það var enn óreynt. Honum fannst, að ef þetta væri víst, þá mætti veita þrumueldi, og gjöra hann hættulausan bæum, ef járnteinn væri settur á hús, sem stæði nokkurra álna uppaf, og gengi þaðan í jörð niður. það var honum stærsta gleði að hafa tekið eptir þessu, en hann var lángt frá að hugsa til launa fyrir það, miklu framar þóktist hann vera skuldbundinn til að segja vini sínum á Englandi hvað sèr hefði orðið úr glerpípunni, því hann þakkaði honum að hann hafði nokkurntíma tekið eptir rafurmagninu. Hann skrifaði honum til, og sagði honum skilmerkilega og nákvæmlega frá því sem hann þóktist hafa uppgötvað. Vini hans fannst mikið um það, og lèt lesa brèfin á fundi vísindafèlagsins í Lundúnum, en þar þókti ekki mikið í þau varið, og ekki þóktu þau taka því að þau yrðu prentuð í ritasafni fèlagsins. þó var einn maður sem ekki varð fèlagsmönnum samþykkur; hann hèt Fúðirgill, og var læknir frægur mjög; sá dáðist að brèfunum, og voru þau að hans áeggjun prentuð ein sèr, en fáir gáfu gaum að þeim á Englandi. Um sama bil hafði einhvörr snúið þeim á Frakknesku, og þó illa; komust þau þannig í hendur Búffoni hinum fræga, náttúruspekíngi Frakka, og þókti honum vænt um, svo hann lèt snúa þeim á betra mál. þegar sú bók var orðin kunnug, varð ábóti nokkurr, er Nolli (Nollet) hèt, og var kennari einhvörra af konúngsættinni, reiður mjög, því hann hafði gjört bók um rafurmagnið, sem þá var al-

menut trúað; hèldt hann að fjandmenn sínir mundu hafa spunnið upp brèf þessi til að spilla fyrir sèr og erta sig, og nefnst ókunnu nafni til blekkíngar, því hann vissi ekki til að nokkurr maður í heimi hèti Franklín; en þegar hann frètti það með vissu, skrifaði hann brèf ámóti, og áttu þau að hrinda meiníngu Franklíns. Þegar brèfin bárust Franklíni í hendur, ætlaði hann fyrst að svara þeim, af því þau voru orðuð til hans, en hann hvarf frá því aptur, og rèði heldur af að nota tímann til að gjöra fleiri tilraunir. Hann hafði fastráðið áður að láta slíka hluti ávallt fara sem auðið væri, því standi mál á aungum fæti, sagði hann, væri til einkis að halda því fram, en sè það sannleikur, mun það sjálft koma sèr fram. Það sýndist bráðt að Franklíni missást ekki um þetta: Tala þeirra fjölgaði óðum sem voru á hans máli um rafurmagnið; brèfum hans var snúið á aðrar túngur, og Hrói (Roy) nokkurr í Frakklandi svaraði Nolla fyrir hans hönd. Meðan leitaðist Franklín við, hvörsu hann mætti sanna mál sitt með tilraunum, og rann honum þá í hug að freysta að draga þrumueldinn niður úr loptinu, þó það mætti sýnast ofdyrfskufullt ráð og greypilegt. Í brèfum sínum hafði hann sagt að hann hèldi það mega, með því að reisa uppmjóan járntein á háu húsi; en í Bræðraborg var of smáhýst til þess. Hann tók þá til bragðs að hann gjörði dreka, sem börnum er tíðt, og lèt fljúga í lopt upp; þann dreka gjörði hann úr silki, en ekki brèfi, og festi járnbrodd á hann ofanverðan. Einn dag, þegar dróg upp til skrugguveðurs, fór hann út á

völl með syni sínum, því öðrum vildi hann ekki segja ætlun sína, til að forðast gis þeirra ef mistakast kynni. Hann lèt drekann fljúga upp í þrumuský, og hafði taug á honum, fór síðan undir skúta til að forðast regnið. Nú gekk svo lengi að hann sá aungan vott eldsins; tók hann þá að verða efablandinn, og skar það hann sárast að menn mundu kalla sig skrumara, af því ekki rættist það sem hann hafði sagt. Þá sá hann allt í einu að lóin á tauginni fór að rísa, hann bar lykil að og flaug þá neisti. Síðan reyndi hann með mörgum hætti, og varð fullviss um að hann hafði rètt fyrir sèr. Gleði hans var ósegjanleg; honum hafði hlotnast sú hamíngja að uppgötva það, sem auðsèð var að mundi draga til harðla mikilla vísinda, verða allri mannþjóð til velgengnis eflíngar, og undireins halda orðstýr sínum á lopti meðan heimurinn bygðist. Hann hafði komið skynsemi mannsins uppá að veita þrumueldinum þángað sem *hún* vildi, að beita því vopni, sem hún hèldt fyrrum að ekki væri bært nema Seifi og Þór, eður þeirra líkum. Fám vikum áður var uppgötvan hans sönnuð á Frakklandi, svo augljóslega sem verða mátti. Búffon gekst fyrir því, og aðrir lærðir menn, að láta reisa járnstjaka á turnunum í Parísarborg og tveim stöðum öðrum til reynslu, einsog Franklín hafði gefið ráð til. Alþýðu fýsti mjög að sjá hvörnig þessu reiddi af, og auðnaðist það í Maí mánuði 1752; þá leið þrumuský yfir einn turninn, og sáu menn jafnskjótt neistaflug og önnur rafurmerki. Fám dögum síðar tók „de Luc", frægur náttúruspekíngur nokkurr, eptir

hinu sama, hafði hann reist tilfæríngar á húsi sjálfs síns. Þessum viðburðum var síðan lýst fyrir alþýðu, og þusti fjöldi manna að til að forvitnast um hvörnig þessu væri varið. Frakkakonúngi þókti svo mikils um verðt, að hann var opt við með alla hirð sína þegar tilraunir voru gjörðar, og var nafn Franklíns þar í hvörs manns munni. England og öll Norðurálfan vaknaði nú allt í einu til eptirtektar á uppgötvun hans. Hið konúnglega vísinda fèlag í Lundúnum fyrirvarð sig, hvörsu lítinn gaum það hafði gefið að brèfum hans áður, og lèt nú einhvörn hinn frægasta náttúruspekíng þar í landi skíra fèlaginu frá því sem í þeim hefði staðið, og hvör skírteini hann hefði síðan sendt til Englands um þetta efni. Skírsla þessi var prentuð í ritasafni fèlagsins, ásamt lofræðu um Franklín; en til að bæta úr því að það hafði einkis metið orð hans áður, veitti það honum einnig þann sóma að bjóða honum í fèlagið tillagslaust; Mikilfeldur (*Macclesfield*) lávarður, forseti fèlagsins, sendi honum síðan minnispeníng fèlagsins úr gulli. Þaraðauki var honum gefin meistara (Magister) nafnbót á háskólanum í Kantarabryggju (Cambridge), og send meistaraskráin yfir í Vesturálfu.

Meðan orðstýr Franklíns þannig barst út um víða veröld, gekk hann sjálfur í öllu heima í prentsmiðju sinni, og vann einsog hann var vanur; einginn maður sá hann bregða skaplyndi nè háttalagi. Frægð hans utanlands jók enn meira virðíngu hans meðal bæarmanna, þeir sáu að borgin hafði sóma af honum, og þókti því vænna um hvörsu hann var óstoltur, rèttsýnn, ræktarsamur

við fósturjörð sína og framkvæmdarsamur í öllu sem rífka mátti hag þeirra. Það var því ekki kyn þótt hann væri kvaddur til að skerast í allflest alþýðu málefni sem til aðgjörða komu.

1754 var aptur von á ófriði milli Englands og Frakklands; stjórnhöfðíngjar (Ministerium) á Englandi skipuðu þá svo fyrir, að nýlendufylkin skyldu velja sèr fulltrúa hvört um sig, og skyldu þeir hittast allir í Albansborg (Albany), áttu þeir að koma sèr saman við Jörpumenn (Indíana) um samlög til landvarnar. Höfuðsmaðurinn í Pennsmörk og fylkisþíngið völdu Franklín til fylkisfulltrúa; samdi hann þá á leiðinni til Albansborgar reglugjörðar-frumvarp, hvörsu bezt mætti haga að öll fylkin ættu fèlag saman um vörn og önnur stórmæli sem varðaði þau öll. Hann stakk uppá að konúngur kysi aðalforseta (Generalpræsident), og til ráðaneytis honum skyldi hvört fylki velja sèr fulltrúa. Hann sýndi frumvarp þetta á þínginu, og líkaði öllum það svo vel, að það var samþykt með fáeinum breytíngum, en það fèkk ekki framgáng þessvegna, að stjórnin á Englandi óttaðist að nýlendurnar mundu magnast við það um of, og verða of sjálfráðar, en vera má það hafi seinna verið nokkur orsök til, að landsmenn tóku upp þessa stjórnarlögun, þegar þeir náðu frelsi. Í stað þess að hvetja fylkin til samheldis í landvörninni, sendu nú Englar Braðdokk herforíngja sinn til Vesturálfu, með tvær sveitir stofnhers (regulære Tropper), átti hann að fara gegnum merkur þær sem eru fyrir norðan fylkin, og koma svo á óvart ofaní nýlendusveitir Frakka.

Fylkisfulltrúar í Pennsmörk grunuðu, margra hluta vegna, vináttu Braðdoks, og óttuðust þessvegna að hann mundi verða harðdrægur ef hann færi gegnum fylkið með her sinn. þeir tóku því það ráð að senda Franklín í veg fyrir hann, til að reyna að tala honum hughvarf; var það á orði gjört að Franklín ferðaðist í embættis eyrindum sínum, því hann var þá æzti ræðismaður yfir póstgaungum öllum um fylkin, og ætlaði að bjóða Braðdokki liðveizlu sína, svo brèf gætu gengið milli hans og fylkjanna, og hann fengið styrk hjá hvörju þeirra eptir þörfum. Franklíni heppnaðist eyrindið, en honum var nærri orðið hált á að hann gekst fyrir að greiða herferðina með öðrum hætti. Herinn var í mestu vandræðum áður hann kom, vegna akfæraleysis, og var við sjálft búið að öll herferðin færist fyrir. Franklín lofaði þá að útvega akfæri frá Pennsmörk fyrir sanngjarnlegt kaup, og hvatti brèflega Pennskógamenn til að útvega þau, en hèt að ábyrgjast kaup allt og skaðabætur. þannig fèkk Braðdokkur styrk, svo hann gat haldið áfram, en hann treysti ofmjög hernaðarkunnáttu Norðurálfubyggja, og þáði því ekki lið Jörpumanna, sem buðust honum sjálfkrafa til liðveizlu. þegar hann kom á eyðimerkur, þar sem alla vegu þraut, sá hann fyrst hvar hann var að kominn, því þegar hann þóktist óhultastur fèkk hann allt í einu skotelda heilsan frá Frökkum, og Jörpumönnum vinum þeirra, höfðu þeir þá leynst allt í kríngum herinn í runnum og á eikabaki. þar fèll Braðdokkur og mestur hluti flokksforíngja, en lið hans flýði sem fætur toguðu, og skildi eptir

öll faung sín. Nú komu þeir sem akfærin höfðu lèð til Franklíns, og kröfðust skaðabóta, en ef hann hefði átt að gjalda þær allar mundi hann hafa orðið snauður maður, og þó ekki hrokkið til; en hann fèkk fyrst frestað kröfunum með góðu, og síðan heppnaðist honum, eptir nokkra frammistöðu, að fá skaðabætur úr ríkissjóðinum.

Meðan höfðu Jörpumenn herjað á landamærum Pennsmerkur, eyddu þeir þar landið, og rændu borg eina litla, sem hèt Náðarbúð (Gnadenhut), og brendu síðan, þá borg áttu Hernhúttíngar*). Franklín hvatti þá alþýðu til að vopnast, í fluguritlíngi einum, og var því vel tekið af öllum. Meðan herinn var í búníngi, beiddi höfuðsmaðurinn Franklín að fara til heraða þeirra sem liggja lengst í útnorður í fylkinu, til að segja fyrir byggíngu

*) Flokkur þessi er í mörgu frábreyttur öðrum kristnum söfnuðum: bæði í truargreinum og andlegri stjórn, einnig í siðferði, og jafnvel klæðaburði, og yrði her oflángt frá því að skira, en nokkuð er sagt um það í Landaskipunarfræði II, 98 og III, 115. þeir teljast vera komnir frá Dalamanni flokki (Valdensum), en uppruni flokksins er sá, að greifi nokkurr á Saxlandi sem Zinzindorp het, trúmaður mikill, kynntist við nokkra af hinum svonefndu bræðrum frá Mæri (mæhrische Brüder) og fluttust nokkrir til hans 1722, en síðan fleiri, bygðu þeir borg í landi hans, og nefndu *Herrnhút* (Drottinsbuð), en hann gjörðist foríngi fyrir þeim, og skipaði reglu þá sem þeir hafa haldið síðan. þeir gángast mjög fyrir kristniboði, og senda trúboðendur um allan heim. Mikið orð hefir farið af siðavendni þeirra og iðjusemi, og hafa margir fengið þeim börn sín til fosturs, einkum meybörn, til að firra þau solli og venja þau til guðhræðslu.

smákastala, sem vant var að hafa til vígis móti Jörpumönnum. Hann kom á leiðinni við í Náðarbúð, og sá þá vegsummerki, var bærinn allur öskuhrúga, yfirdreyfð dauðra manna búkum, þeirra sem Jörpumenn höfðu myrðt. Heraðsmenn söfnuðust nú til hans, felldu þeir stórviði og drógu saman, og grófu díki í kríng, en Jörpumenn lágu á njósn á hólunum kríngum þá, og leituðu sèr færis að ráða að þeim, en þóktust ekki hafa liðsafla til atlögu að svo búnu. Franklínsmenn bygðu þar þrjá trèkastala á skömmum tíma, og síðan sneri Franklín sjálfur heimleiðis aptur til Bræðraborgar, en skildi eptir duglegan foríngja í sinn stað. Þegar hann kom heim var liðsafnaðurinn sem mestur, og lögum bundinn. Flokksforíngjar hersins völdu nú í annað sinn Franklín sèr til höfðíngja, og tókst hann það embætti á hendur. „Þegar jeg var búinn að kanna sveit mína", segir hann, „og sjá hernaðar-kunnáttu hennar í fyrsta sinni, fylgdu allir sveitarmenn mèr heim, og skutu nokkur skot mèr til virðíngar framanfyrir húsi mínu. Af hristíngnum brotnuðu þá nokkur gleráhöld fyrir mèr, sem jeg hafði til að reyna með rafurmagnið. En ekki varð hið nýfengna herstjórnar embætti óbrothættara, því hin enska stjórn ónýtti rètt á eptir hersafnaðar lögmálið".

Maður er nefndur Vilhjálmur Penn; hann var kvekari; hann hóf fyrstur landnám í Pennsmörk (Pennskógafylki — Pennsylvaníu), og bygði Bræðraborg, höfuðborgina (nál. 1670). Vilhjálmur átti stórfè hjá stjórninni á Englandi, og fèkk hann fyrir það víðlendi mikið af óbygðu landi í Vest-

urálfu, en síðan rèði hann menn til að búa í landnámi sínu, Englismenn og þjóðverja*). Vilhjálmur var sjálfur höfuðsmaður (Gouverneur) í fylki sínu, og gekk tign sú í erfðir, en af því flestir ættmenn hans voru búfastir á Englandi, settu þeir höfuðsmann yfir fylkið í sinn stað. Ættmenn Vilhjálms höfðu smámsaman selt margar jarðir þar í fylkinu, en áttu þó margar torfur eptir og miklar, og vildi höfuðsmaðurinn láta þær allar vera skattfríar sem óseldar voru, því svo var honum umboðið í veitíngarbrèfi hans, en fulltrúarnir vildu eins láta gjalda skatt af þeim jörðum og öðrum.

Franklín var á fulltrúanna máli, því honum þókti hitt rángindi; varð hann optastnær til að svara brèfum höfuðsmannsins fulltrúanna vegna, og slóst þar stundum í ertíngar. þó var Morris, sem þá var höfuðsmaður, góður vinur Franklíns utanþíngs. Einnsinni mætti hann Franklíni á stræti, kom til hans að fyrra bragði, og sagði við hann: „þèr verðið að koma heim með mèr Franklín! og vera hjá mèr í kvöld; þèr munuð hitta þar gest sem yður verður skemtan að"; síðan leiddi hann Franklín heim með sèr. Á því kvöldi þurfti Franklín á allri orðheppni sinni að halda; því þegar lengi hafði verið drukkið af kappi, og samræðan tók að verða gleðimeiri, sagði höfuðsmaðurinn sem í gamni: sèr þækti jafnan snilliyrði það sem haft væri eptir Sankó Pansa, sveini herra Kíkottar**), þegar hann heyrði hann ætti að verða

*) 1689 voru innbúar 4000.

**) Sagan um Herra Kíkott (*Don-Quixotte*) og svein hans

höfuðsmaður: að hann vildi þá helzt vera það yfir Blökkumönnum, því þá gæti hann selt alla þegna sína ef sèr fèlli ekki við þá. Þá sagði einn af vinum höfuðsmannsins við Franklín: „Hvað kemur þá til Franklín! að þèr haldið sífeldt með bölvuðum kvekurunum? Ætli það væri ekki betra að selja þá? þèr fengið þá vel borgaða hjá þeim sem fylkið eiga!" „Nei!" svaraði hann, „höfuðsmaðurinn er ekki búinn að gjöra þá nógu blakka". „En það var líka satt", segir Franklín, undireins og hann segir frá þessu, „höfuðsmaðurinn hafði gjört þá svo blakka (rægt þá) sem hann mátti, í skírslum sinum til stjórnarinnar, en þeir þvoðu sortuna jafnóðum af sèr og köstuðu henni framaní hann sjálfan; og að síðustu, þegar hann var orðinn hræddur um hann mundi verða svartur, hætti hann öllum tökum og hafði sig á burt".

Eptir að Morris var kominn úr landi, var sá maður fenginn til höfuðsmanns, sem Denni (Denny) er nefndur, og var kapteinn að nafnbót. Var gjörð veizla móti honum í Bræðraborg, og rètti hann Franklíni þar hátíðlega minnispeníng hins konúnglega vísindafèlags í Lundúnum, sem áður var áminnst. Þegar máltíð var lokið, og menn voru seztir að drykkju, kallaði höfuðsmaðurinn Franklín á einmæli inn í aðra stofu. Hann kvaðst lengi hafa heyrt hans getið að almanna rómi, og haft miklar mætur á honum, vinir sínir hefðu líka

---

er í fyrstu rituð á spánverska túngu, og er orðin mjög fræg, hefir henni verið snuið á flestar tungur í Norðurálfu.

ráðið sèr að leita vináttu hans, því hann mundi, fremur öllum öðrum, mega hagræða fyrir höfuðsmönnum; beiddi hann Franklín að vera sèr vinveittan, og kvaðst vera búinn til alls greiða aptur á móti. Hann talaði margt um hvörsu landsdrottnar vildu fylkinu vel, og hvörsu æskilegt væri að samlyndi þeirra og fylkisbúa yrði sem bezt; en að síðustu skar hann uppúr, af því þá var öl orðið innri maður, að landsdrottnar mundu ríkuglega launa sèrhvað það sem þeim væri gjört til þægðar. Franklín svaraði, að guði væri svo fyrir þakkandi, hann væri ekki uppá örlæti þeirra kominn, og hann *mætti* heldur ekki taka slíku, því hann væri fulltrúi alþýðu. Þetta væri þó ekki þannig meint, að sèr væri nokkur fáþykkja í hug til landsdrottna sín vegna, og kvaðst vera fúsastur manna til að styðja sèrhvað það sem hann væri sannfærður um að væri alþýðu nytsamlegt, án allra launa. Sjálfum honum þakkaði Franklín vináttuþokka til sín, og kvaðst vera búinn að hagræða fyrir honum hvað hann mætti, en hann vændist þess einnig, að hann ekki hefði fengið eins óefnileg eyrindi með að fara einsog forgaungumenn hans. Það reyndist samt bráðt, að honum hafði verið lagður sami ferill, en Franklín var líka samur til mótstöðu; hann svaraði fulltrúanna vegna einsog áður, þó hann aldrei ætti sjálfur neitt í höggi við höfuðsmanninn. Sundurþykkjan fór alltjafnt vaxandi, og þó Ládon, sem tók við herstjórn eptir fall Braðdoks, leitaði sætta, og stefndi til sín Franklíni og höfuðsmann-

inum í því skyni, stoðaði það ekki; aungri sætt varð komið á.

Sundurþykkja þessi, milli landsdrottna og fulltrúanna, steypti landinu í mesta háska og vanda. Þegar fulltrúarnir lögðu skatt á til framkvæmdar nytsamlegum fyrirtækjum, og hlífðu ekki jörðum landsdrottna heldurenn öðrum, vildi höfuðsmaðurinn aunganvegin játa skattinum, og ónýtti þarmeð alltsaman. Frakkar og Jörþumenn juku á háskann, því fyrir ránum þeirra og herverkum var hvörki lífi manna nè eignum óhætt, og penínga var ekki hægt að fá að, landinu til varnar. Þó stóðu fulltrúarnir fast á sínum rètti og alþýðu, þókti þeim ekki fært að láta rèttindi sín augljós fyrir rángsleitni landsdrottna, en þaraðauki óvíst hvörsu færi þó undan væri látið. Seint um síðir ásettu þeir sèr að þola ekki lengur slíkar búsifjar, og sendu klögunarskrá og bæn sína til stjórnarinnar; en til að fara með málið þurfti að velja mann, sem gat ferðast til Englands og fylgt því duglega, og fengu þeir Franklíni þetta eyrindi á hendur.

Nú skiptust leiðir fyrir Franklíni; hann kom nú í flokk þeirra sem sýsla um málefni þjóðanna. Það var að sönnu einúngis eitt fylki sem hann átti að halda uppi svörum fyrir; en það eyrindi leiddi beinlínis til þess, að hann síðar hlaut einn mestan þátt í þeim viðburðum sem breyttu ástandi tveggja heimshluta á skömmum tíma, og sköpuðu þeim og öðrum forlög um óþektar aldaraðir; hann varð einn af þeim merkismönnum sem gjörast

oddvitar þjóðanna, og segja þeim til leiðar hvört halda skuli.

Þegar Franklín var búinn að ráðstafa búi sínu, og útvega öll skírteini sem hafa þurfti, rèðst hann til ferðar; fór hann fyrst til Nýu-Jórvíkur, því þaðan gengu hleypiskútur (Pakketter) til Englands. Ládon, sem fyrr var getið, rèði ferðum þeirra, og hafði hann lofað Franklíni að hann skyldi ekki þurfa að bíða degi lengur í Jórvík. Ládon skrifaði brèf á hvörjum degi, og lofaði eins á hvörjum degi að skútan skyldi verða búin „á morgun", en samt drógst það um þrjá mánuði. Seint um síðir komust þeir samt af stað. Á leiðinni tók Franklín eptir því hvað flýti og tálmi skipgángi á siglíngum, og hafði það með öðru til dægrastyttíngar sèr. Skip þeirra sigldi ágætlega, og dróg vel undan víkíngaskipum Frakka, er margopt reyndu að sigla þá uppi. Eitt kvöld voru þeir á siglíngu nálægt Englandi, þá hafði einn af skipverjum, sem átti að halda vörð í framstafni, sofnað útaf, og vissi sá sem að stjórn var ekki fyrr, enn hann sá mikinn eldhnött rauðan framundan skipinu, og ekki allfjærri, þekti hann að það var varðvitinn á Syllínga (Scilly) klettum*), og stefndi skipið beint á þá í blásanda byri. Stýrimaður var genginn til svefns, og skipverjar urðu allir felmsfullir, en það varð þeim til lífs, að einn af ferðamönnum þeim sem með skipinu voru þreif stýrið, vatt skipinu undir vindinn, og

*) Syllíngar (Scilly) eru eyar, er liggja suðvestanvèrðt við England; þær eru mikill vogestur sjófarendum.

fèkk með mesta harðfylgi borgið öllusaman; sá maður hèt Kinnaður (Kennedy) og var kapteinn að nafnbót. Morguninn eptir, þegar upp birti, voru þeir komnir undir Falmóðu (Falmouth); blasti þá ágæt höfn við þeim og stóð þar sigla við siglu. Rètt í því þeir komu á land var hríngt til kirkjugaungu, og gekk Franklín þángað með syni sínum að þakka guði lífgjöfina. Síðan fóru þeir landveg til Lundúnaborgar og komu þángað 27 Julí 1757.

---

Það mátti hvörr maður sanna, sem hugleiddi hindranir þær er Franklín átti við að stríða, að honum mundi ekki auðveldt að vinna mál sitt. Mótstöðumenn hans, sem fylkið áttu, voru stórauðugir menn og vinsælir á Englandi, og höfðu því marga sèr meðmælta; stjórninni var leiðt að heyra klögumál um óleyfilega meðferð konúnglegra leyfisbrèfa; en auk þess var almanna rómur mótfallinn Vestmönnum, þóktu þeir staglsamir og þverbrotnir, sem helzt mættu kvarta yfir sjálfum sèr. Allt þetta lèt Franklín ekki á sig bíta, hann lèt sèr fyrst annt um að laga alþýðu dóm á málinu, og þareð dagblöðin höfðu mest rángsnúið honum, valdi hann þau til að leiðrètta meiníngar manna. Mótstöðumenn hans og hjálparmenn þeirra lètu prenta nafnlaust álas um Vestmenn; því sætti hann til að svara með sama hætti, og sannaði að þeir ættu einmiðt á rèttu að standa. Síðan lèt hann prenta sögu Pennskógafylkis frá landnámstíð og framað því sem þá var komið. Bæklíngur

þessi var bygður á skýlausum vitnisburðum, og sannfærði hann alþýðu að fullu um, að Vestmenn höfðu rètt að mæla. Landsdrottnarnir höfðu áður verið fastir á sínu máli og hafnað öllum sáttum, en nú fóru þeir að láta undan. Að síðustu kom Franklín málinu svo, að þeir lofuðu að sættast, með því skilyrði að sínar jarðir yrðu ekki skattlagðar frekar enn aðrar jarðir í fylkinu, og varð það sætt þeirra.

Fyrir þessi málalok varð Franklín svo nafntogaður, að þrjú önnur fylki: Massakúsa (Massachusetts), Maríuland (Maryland) og Gyrgisland (Georgía) kusu hann sèr til eyrindsreka (Agent), tók hann því með gleði, og lèt þá heldur ekki þurfa að iðrast kosníngarinnar.

Englismenn áttu um þetta mund ófrið við Frakka, einsog áður var um getið, og var Friðrekur hinn annarr Prússakonúngur handamaður þeirra. Afreksverk Friðreks konúngs voru svo fræg á Englandi, að nálega hvört mannsbarn dáðist að þeim, og stjórnin klauf þrítugan hamarinn til hers útgjörðar í Þýzkalandi konúngi til aðstoðar. Franklíni þókti sem Englandi mundi lítið happ standa af þessu, en hitt hlyti að verða Frökkum stærsta tjón, ef þeir mistu nýlendur þær sem þeir áttu í Vesturálfu norðanverðt við hinar ensku. Hann skar uppúr um þetta mál í áheyrn höfðíngsmanna nokkurra sem hann var kominn í vináttu við, en þeir fluttu það Kattami (Chattam) lávarði stjórnarherranum. Kattamur lávarður lèt Franklín skíra nákvæmar frá þessu máli, og sannaði að hann hefði rètt að mæla; var þá Úlfur (Wolf) hers-

höfðíngi sendur til Vesturálfu. Úlfur átti orrustu mikla við Frakka að Kvíabekk (Quebec), og fèll hann þar við frægan orðstýr, en enskir menn höfðu sigur og unnu síðan Kanöðufylki undan Frökkum. Franklín sýndi þá í ritlíngi einum hvörsu mikilsverðt land þetta væri, og mun það ekki sízt hafa ollað að England áskildi sèr það síðan í friðarsamníngunum.

Meðan Franklín dvaldi á Englandi fór hann snöggva ferð norður á Skotland, var þar tekið við honum með miklum veg og sóma, því orðstýr hans var floginn um allt land. Háskólinn í Andreasborg (St. Andrews) veitti honum doktors nafnbót í lögfræði, og síðan háskólarnir í Edínaborg og Öxnafurðu (Oxford). Um þetta mund bjó hann til hljóðfæri það, sem síðan er alkunnugt orðið og kallað Harmóníka; koma raddir þess úr mörgum glerklukkum, sem tempraðar eru til hljóðsbreytíngar eptir saunglistar reglum.

1762 um sumarið sneri Franklín heim aptur til Bræðraborgar. Eptir að hann var kominn heim þökkuðu fulltrúarnir honum sameiginlega fyrir framkvæmd hans, og sendu honum 5000 punda í Pennsmerkur kúranti. Þó hann væri á Englandi hafði hann á hvörju ári verið valinn til fulltrúa, og settist því aptur í sæti sitt á fylkisþínginu, til að vinna fósturjörð sinni heill og frelsi.

Ekki leið lángt um að Franklín var kosinn í annað sinn, til að ferðast til Englands í trúnaðareyrindum Pennskógafylkis og annarra heraða. Það bar til þess, að stjórnin á Englandi var í peníngа hraki, og ætlaði að koma því af sèr með

því að leggja gjald á nýlendurnar í Vesturálfu; en því var svo hagað, að öllum var skipað að kaupa stimplaðan pappír. Stjórnin hafði áður þegið mikla penínga úr Vesturálfu, og á seinustu ófriðarárunum svo mikla, að hún þóktist verða að skila nokkru aptur til að vera ekki ofmjög ásælin; en allt það gjald var greidt af hendi með samþykki fylkis fulltrúanna; þókti alþýðu konúngur ekki eiga vald að þýngja álögur á sèr nema með fulltrúanna samþykki, því fulltrúaþíngin væru sèr í málstofustað. þeir kváðust gjarnan vilja *gefa*, en ekki láta *kúgast* með ólögum. En stjórnarherrarnir á Englandi vildu heldur kúga þá, og þessvegna lètu þeir löggilda skrá þessa í málstofunum. Móti þessu lögmáli átti Franklín að tala, og vann hann það á að lyktum, að málstofumenn kjöru nefnd manna til að ransaka málið á ný. Nefnd þessi stefndi Franklíni fyrir sig til að skíra frá hvörnig ástadt væri í Vesturálfu, og sýndi hann þar með merkilegum hætti djúpsetta og nákvæma þekkíngu, en ekki var minni orðfimi hans og orðheppni, þó hann hefði þar alls aungan umhugsunartíma. Hann leiddi nefndinni allan málavöxt svo ljóslega fyrir sjónir, að hvörjum manni var auðsært ránglæti lögmálsins og skaðsemi. Nefndin ályktaði því að pappírslögmálið skyldi niðurfalla, og varð það framgengt.

Á þessu ári fór Franklín til Hollands og þýzkalands, og ransakaði í Hollandi vatnsmegin í díkjum (Canaler), en árið eptir sókti hann heim Frakka, var þá allstaðar tekið við honum báðum höndum; má hèr helzt geta vísindafèlagsins (Aca-

demic des sciences) í Parísarborg, sem nokkru seinna kaus hann til meðlims.

Þó stjórnin á Englandi neyddist til að fella niður pappírs lögmálið, hætti hún þó ekki að kúga Vestmenn í því sem hún mátti; sýndi hún það einkum á því að tálma kaupverzlan þeirra, því það miðaði beinlínis til að kefja framfarir landsins, og draga allan verzlunarábata þess til Englands. Þeim var bannað að búa til sumar vörutegundir; en hvílíkur hnekkir það hafi verið kaupferðum þeirra að verða að fara til Englands í hvörri ferð á heimleiðinni, hvaðan sem þeir komu, það er svo auðsært að það þarf ekki orðalengíngar við. Landsmenn undu einnig mjög illa við sinn hlut; höfðu þeir allsherjar þíng í Bostúni, og tóku sig þar allir saman um, að kaupa aungar þær vörur frá Englandi sem væru til í landinu sjálfu; eins um, að hætta að kaupa dýrindis klæði og aðrar sælgætis vörur sem enskir menn fluttu, og láta sèr nægja það sem þeir gætu búið til sjálfir, þó lakara væri. Á hinn bóginn skutu þeir peníngum saman til að auka og efla handiðna framfarir í landinu sjálfu, og kjöru nefnd manna til að ala önn fyrir því. Nýlendufylkin snerust flest á þetta ráð. Stjórnin sendi nú her til Bostúns; þeir hermenn voru afunduir við landsfólkið, og það aptur við þá, því þeir þóktu sendir til ofríkis við menn og kúgunar; óx fjandskapur þessi þángaðtil sló í skæríngar, og fèllu þar nokkrir af landsmönnum. En þetta hvesti því meir hatur þeirra á enskum mönnum, og hefndarhug hvönær sem færi gafst.

Um einn tíma var haft á orði að gjöra Franklín að landskrifara (Statssekretær) í Vesturálfu, en það fórst fyrir, því menn voru hræddir um hann yrði ekki eins hliðhallur Englandi og þeir mundu kjósa. Þó leiddi það af samræðu Franklíns við mikilsháttar mann nokkurn í Englandi, að skipt var um landskrifara, og fèkk Darmóður (Darmonth) lávarður það embætti.

Franklín gladdist mikilega þegar hann heyrði þessi umskipti. Hann var um þennan tíma í svo miklu gengi á Englandi sem unnt er að vera í ókunnu landi. Lærðir menn allir höfðu mætur á honum, og sumir voru vinir hans fullkomnir. Mönnum þókti svo mikil skemtan að umgengni hans, að hann var að heimboðum nálega á hvörjum degi á vetrum, en öllum sumrum gat hann verið hjá vinum sínum til skiptis á lystigörðum þeirra. Útlendir menn sem nokkuð kvað að, og komu til Englands, heimsóktu hann allir (því enn meiri var frægð hans í útlöndum). Sendiherrar annarra þjóða tóku honum einsog hann væri einn af þeirra flokki, ekki sízt að líkindum til að frètta tíðindi úr Vesturálfu, því Frakkland og önnur stórveldi í Norðurálfu voru þá þegar farin að vona, að nýlendurnar kynnu að brjótast undan Englandi, og veldi þess þannig mínka.

En þessi velgengni stóð ekki lengi óröskuð. Eitthvört sinn talaði Franklín skorinorðt um, hvörsu gapalegt það hefði verið og hættulegt að stjórnarherrarnir sendu her til Bostúns. Maður nokkurr, sem á heyrði, svaraði, að það mundi ekki síður vera að kenna einhvörjum í landinu

sjálfu, og til að færa sönnur á mál sitt sýndi hann Franklíni brèf nokkur, sem höfuðsmaðurinn, og sá sem næst honum gekk (Vice-Gouverneur), höfðu ritað mestu höfðíngjum á Englandi; rægðu þeir Vestmenn þar sterklega, og kváðu kúgun einúngis stoða mundu, en aungan hlut annan. Franklín var beðinn að senda brèf þessi til Bostúns til að friðþægja stjórnina við landsmenn, þó með því skilyrði, að ekki skyldi skrifa þau upp, og ekki segja hvaðan þau væru komin; Franklín lagði einnig ríkt á þetta við þann mann í Bostúni sem hann sendi brèfin, en þau höfðu samt verið skrifuð upp honum á óvart, og þarnæst voru þau prentuð í dagblöðum. Allir Bostúnsmenn urðu hamslausir af bræði við þá sem skrifað höfðu brèfin, og fylkisþíngið sendi konúngi bænarskrá um að reka þá af embættum. Á Englandi var líka tíðrædt um þetta mál, og margir menn nafngreindir á prenti, sem haldið var að sendt hefðu brèfin, lendti tveim þeirra saman í einvígi og varð annarr sárr. Þegar Franklín frètti þetta óhapp, og honum var sagt undireins að þeir ætluðu að berjast aptur þegar sá væri gróinn sára sinna, þókti honum ekki lengur óhætt að þegja, og gjörði hann þá augljóst að *hann* hefði sendt brèfin. Höfuðsmennirnir sem brèfin voru frá lètu þegar stefna honum fyrir leyndarráðið (Geheimeraad) í Lundúnum, fyrir það hann hefði brotið lög á þeim, með því að uppljósta brèfum þeirra, en stjórnarherrarnir, sem voru óvinir hans, notuðu sèr þetta tækifæri til hefnda. Á tilteknum degi kom Franklín fyrir dóminn, og hafði tvo lögfróða

menn með sèr til að svara máli sínu; mótstöðumenn hans höfðu fengið þann mann sem Veðrabrunnur (Wedderburn) er nefndur til að sækja málið, hann var lögflækjumaður mikill og snjallur í máli, og mikill vinur stjórnarherranna. Talsmenn Franklíns áttu fyrri að segja fram sök; þeir sönnuðu að brèfin hefðu verið fengin honum til þess hann skyldi senda þau, og hann hefði berlega bannað að auglýsa þau. Þá reis Veðrabrunnur upp og talaði: hlífðist hann ekki við Franklín, og meiddi hann mjög í orðum. Hann bar á Franklín „að hann hefði komist að brèfunum með vèlum ef ekki þjófnaði; lýsti hann varmenni, sem allir mættu gæta leyndarskjala sinna fyrir og hirðsla, sagði hann hefði ekki fundið grand til meðaumkunar þó annarr maður saklaus hefði verið dauða nær fyrir sök þá sem *hann* var valdur að; en að lyktum bað hann dómendur, að gjöra Englandi, Norðurálfunni og öllu mannkyninu það til sæmdar, að brennimerkja Vestmann þennan hinn hlálega og hinn níðángalega". Sumir af dómendunum, sem voru fastastir á máli stjórnarherranna, blygðuðust ekki við að hlæa að meiðyrðum Veðrabrunns, en hann gladdist með sjálfum sèr af að hafa unnið algjörðan sigur.

Meðan áaustur þessi varaði stóð Franklín í horni einu í þíngstofunni grafkyrr, hrærði hann hvörki legg nè lið og einginn sá honum bregða. Þegar menn gengu burt að loknu þíngi, tók hann í hönd einum vini sínum sem þar var staddur, hjartnæmilega, og fór svo þegjandi leiðar sinnar. Morguninn eptir fór vinur hans til fundar við

hann, þá sagði Franklín: „aldrei hefi jeg fundið eins sterklega og í gær til þess, hvílíka hugrekki góð samvizka veitir. Hefði jeg ekki verið svo fastlega sannfærður um, að þetta, sem mèr var metið til svívirðíngar, væri eitthvört hið bezta verk sem jeg hefi gjört á æfi minni, svo jeg væri reiðubúinn að gjöra sama aptur ef eins stæði á, þá hefði jeg ekki horið af að verða fyrir slíku".

Þess var getið áður, að stjórnarherrunum var ekki vel til Vestmanna, og lètu þeir Franklín gjalda þess í öllu sem þeir máttu, því þeir kendu honum um að hann hefði kveikt óróa þennan meðal samlanda sinna; en meðfram stóð þeim stuggur af atorku þeirri og fjöri, stillíngu og óbifandi einurð, sem hann sýndi þegar hann var að sannfæra þá um yfirsjónir þeirra í stjórnarmálefnum fósturjarðar sinnar. Þessvegna notuðu þeir sèr þetta færi til að láta einsog þeir væru sannfærðir um vondsku hans. Daginn eptir lètu þeir skjóta að honum að hann væri sviptur póstgaungustjórninni í Vesturálfu, og reyndu jafnvel til að banna, að honum væru greidd laun þau, sem honum voru send þaðan. En höfuðsmennina lètu þeir, hvað sem hvörr sagði, vera við embætti sem áður.

Franklín lauk ekki upp munni sèr til forsvars í þessu máli öllusaman. Hann hafði tekið sèr þá reglu að þegja við ránglátum áburði og meiðyrðum, því hann þóktist þess fullviss, að sannleikurinn mundi koma upp um síðir; enda rættist það hèr, því vinir hans töluðu sköruglega máli hans í dagblöðunum. Veðrabrunnur hafði sneypu

af málinu, og stjórnarherrarnir, sem voru í verki með honum undir niðri, urðu sèr til mínkunar.

Darmóður lávarður var allur annarr enn Franklín hafði gjört sèr í hugarlund; hann var að sönnu ráðvandur maður og góðgjarn, en undireins svo röksemdarlaus, að hann lèt hina stjórnarherrana ráða öllu sem þeir vildu. það fór því svo fjærri að hætt væri að beita hörku, að henni hafði aldrei verið beitt eins og nú; var það auðsært á öllu að tilgángurinn var að kúga fylkin, og hafa þau síðan enskum aðalsmönnum til ábíts, einsog Indland lengi hefir verið og er. þá var það lögboðið, að Vestmenn ekki mættu kaupa te gras nema af hinu indverska verzlunarfèlagi í Lundúnum. þeir tóku sig þá saman um að kaupa ekkert te, og neyddu þannig öll þau skip sem fluttu þá vöru til að hverfa aptur svobúin. Höfuðsmaðurinn lèt samt nokkur bíða í Bostúni, og þókti líkindi til að farmi þeirra mundi verða komið út uppi í heröðum, en þá fóru nokkrir af bæarmönnum útá skip í dularklæðum, og ruddu skipið, en köstuðu öllu teinu fyrir borð. Stjórnarherrarnir urðu við þetta svo grimmir öllum bæarmönuum, að þeir sendu þángað flota og lið mikið, og lètu setjast að borginni öllumegin. En þetta var óráð, einsog þá var ástadt, því það espaði þjóðina enn meir um allt land, hvatti þá einn annan til að forðast að hafa eður kaupa enskan varníng, og svo var samheldi þeirra öruggt, að heröð þau sem mestan kaupskap höfðu haft við Breta allt þángaðtil, hættu honum að fullu og öllu. þvínæst tóku menn sig saman um að stefna

allsherjarþíng (Congres) eptir ráði Franklíns, og skyldi hvört fylki senda þángað fulltrúa sinn; skyldi þar ráðgast um það sem öll fylkin varðaði. Fyrsta þíng var sett í Bræðraborg í Septembri 1774, og sýndist þá þegar forsjá og kjarkur þeirra manna sem töluðu þjóðarinnar máli. Þó Franklín hefði gefið þetta ráð, reyndi hann samt til að sefa landa sína; bað hann þá að þola Bretum heldur öll rángindi, enn að hefja ófrið við þá, því það mundi hvört sem væri ekki líða á laungu þángaðtil kjör þeirra yrðu bætt.

Eptir málssókn þá sem áður var getið kom Franklín aldrei optar til neins af stjórnarherrunum, en var samt með margvíslegum hætti því máli til styrktar sem hann hafði gengið í. Hann átti opt tal um það við málsmetandi menn og skrifaði um það í tímaritum eða dagblöðum; stundum gengu menn milli hans og stjórnarinnar, því hún var nú farin að reka sig á eptirköst harðýðginnar, og vildi bæta nokkuð það sem ofgjört var. Einusinni var hann á fundi vísindafèlagsins, var honum þá sagt að höfðíngskona nokkur, systir Hófa (Howe) lávarðar, óskaði mikilega að kynnast við hann, og reyna hann í skáktafli. Franklín var vanur þvílíkum heimboðum, og kom því á tilteknum tíma, fannst honum mikið um kunnáttu hennar og skörúngskap í öllu, og heimsókti hana síðan optlega. Undir heimboði þessu var það falið í fyrstu, að hún átti að koma Hófa bróður sínum í tal við Franklín, en hann var vinur mikill stjórnarherranna. Eptir beiðni Hófa lávarðar stakk Franklín uppá ymsum greinum til sættaleitunar,

en stjórnarherrunum þókti hann jafnan of heimtufrekur fyrir hönd landa sinna. Fúðirgill læknir gekk einnig á milli til sættaleitunar, því hann var kunnugur mörgum höfðíngjum, og hafði verið beðinn að frètta sættaboð Franklíns. Þaraðauki var leitað um sættir á málstofuþíngi, og gjörði það Kattamur lávarður sem áður var stjórnarherra; þókti honum Vestmenn eiga í öllu þessu máli á rèttu að standa. — Kattamur bauð Franklíni að heimsækja sig í heraði, þar sem hann bjó á stórbýli sínu, til þess að skíra sèr nákvæmar frá málinu; tók hann honum með mestu virðtum, og heimsókti hann síðan optlega, og hvörr þeirra annan. Kattamur vildi umsíðir reyna að bera upp málið á málstofuþíngi, og beiddi Franklín að vera þar viðstaddan. Hann kom á tilteknum tíma og beið Kattams í forstofunni, leiddi hann Franklín inn við hönd sèr, og varð mörgum starsýnt á það, því einginn vissi áður að svo mikil vinátta væri meðal þessara manna. Kattamur lávarður talaði lángt og snjallt, en gat ekki komið fram máli sínu, því flestir aðrir voru háðir stjórnarherrunum. Fáeinum vikum síðar reyndi hann aptur, og lagði fram ennþá fjölorðari uppástúnguskrá enn áður; hann bað þá einnig Franklín að vera viðstaddan. Mótstaðan var sama og áður, og því meiri að Sandvigur (Sandwich) lávarður talaði mjög ákaflega móti Kattami: hann sagðist ekki fá af sèr að trúa, að slík handaskömm kæmi frá enskum lávarði, heldur þækti sèr líkindi til að þetta væri frágángur einhvörs að handan, enda kvaðst hann halda að höfundurinn væri ekki fjærri

(og sneri sèr að Franklíni), en sá væri argastur fjandmaður einhvörr, sem England nokkurntíma hefði haft. Þá störðu allir á Franklín, en hann lèt einsog hann sæi það ekki. Kattamur kvaðst *sjálfur* vera höfundur að uppástúngunni; sagði hann sèr skyldt að segja það, því þegar mönnum þækti hún handaskömm, væri það sitt að sjá til að hún yrði aungum öðrum til mínkunar; en í annan stað, hvað manninn snerti sem sneiddur hefði verið svo svívirðulega, þá þyrði hann viðstöðulaust að játa, að hann þyrfti ekki að fyrirverða sig að spyrja þann mann opinberlega ráða, þó hann sjálfur væri stjórnarherra; hann er sá maður, sagði hann, sem öll Norðurálfan ber virðíngu fyrir, og jafnar saman við Býl og Njúton*); hann er sá maður, að hann er ekki einúngis Englandi heldur öllu mannkyni til sóma. „Þetta oflof átti jeg miklu bágara að þola", sagði Franklín, „heldurenn oflastið áður; þó bar jeg mig að láta sjá á mèr, að mèr ekki kæmi til hugar að nokkuð af öllu þessu væri talað til mín". Þegar búið var að tala nokkrumsinnum bæði með og móti var uppástúngan ónýtt.

Franklín sá nú að eyrindum sínum mundi vera lokið á Englandi, og ásetti sèr því að snúa heim aptur; herðti líka tvennt annað að honum um það: fyrst, að kona hans var önduð, en auk þess varð honum dag frá degi hættara fyrir

*) Býll (*Boyle*, 1626—1691) og Isaak Njúton (*Newton*, 1642—1727) voru frægir náttúruspekíngar á Englandi, einkum hinn síðarnefndi.

eptirsókn stjórnarherranna; töluðu þeir jafnvel um að kasta honum í fjötur undir einhvörju yfirskini. Seinasta daginn sem hann var á Englandi sat hann um kyrt, og talaði trúnaðarmálum við Prestil (Prestley) vin sinn; sagði Prestill svo síðan, að Franklín hefði viknað af umhugsan þess sem hann sá að fyrir lág, og opt hefði honum stokkið tár, þegar hann hefði talað um blóðsúthellíng þá sem hann vissi að var óumflýanleg.

Að sex vikum liðnum kom Franklín heim í Vesturálfu; hafði hann það fyrir iðju á leiðinni að skrifa upp það sem fram hafði farið, og stundum að ransaka föllin (straumana) á aðalhafinu. Margt það sem hann tók eptir þá hefir síðan komið siglíngamönnum að miklu haldi. Þegar hann kom til Bræðraborgar var tekið á móti honum með mesta sóma, og daginn eptir var hann í einu hljóði kosinn til alþíngismeðlims; sá hann þá þegar hvörsu uppvægir landsmenn voru móti Bretum. Höfuðsmaðurinn í Bostúni hafði nokkru áður skipað að fella forðabúr nokkur nálægt borginni, og svarf þá til stáls milli Breta og hermanna nokkurra þarlendra, nálægt þorpi einu er Lexingtún heitir. Við það urðu landsmenn svo ákafir, að þeir vopnuðust þjóðvæpni. Safnaðist fyrst herr, eigi allítill, á hólunum fyrir utan Bostún og hèldt þar til bardaga við enska menn; var sú orusta mannskæð. Vashíngton ofursti var þá kjörinn til herstjórnar; alþýða rak víða af sèr tollheimtumenn Breta, og sumstaðar einnegin höfuðsmennina, svo nú var ófært lengur að komast hjá stríði. Franklín hlífði sèr

ekki á þínginu: hann starfaði frá því árla á morgnana, og lángt fram á nótt; enda fèkk hann margt að sýsla sem þjóðgagn var að, auk alþíngisstarfa hans: Hann ferðaðist norður í Kanöðufylki til að bjóða fylkismönnum þar að gánga í lið með löndum sínum; hann var í nefnd þeirri sem sett var til að stýra landvörninni; hann var ásamt Vashíngtoni og öðrum sendur til að fá landvarnarliðið til að ráðast til lengri herþjónustu enn ákveðið var í upphafi; hann og tveir aðrir voru kjörnir til að svara friðarboðum Hófa lávarðar, eptir að hann var kominn með skipaher mikinn og málalið þjóðverskt til að ógna landsmönnum. Sú ferð lagði, að kalla mátti, úrskurð á málið: 4 *Júlí* 1776 *auglýstu þrettán af nýlendufylkjunum að þau væru frjáls þaðanaf, og ætluðu ekki lengur að eiga stjórn sína undir Bretum.*

það var hvörjum auðsært, að úr því sem þá var komið var ekki í tveim höndum að hafa, einsog líka hitt, að fylkin ekki mundu geta reist rönd við til hlýtar, ef þau ættu að vera ein um hituna; þessvegna var kjörin nefnd manna, til að skoða sig um, hvar helzt mundi vera að leita á um liðveizlu; treystu menn Frakklandi framar öðrum til þess, einkum af því menn vissu að Frökkum mundi þykja mikið undir komið að England misti nýlendur sínar og nokkuð rènaði veldi þess; var því það ráð tekið, að senda mann til Frakklands að biðja liðs, og var Franklín valinn til þeirrar sendiferðar, því hann var lángreyndur að

dugnaði í slíkum málefnum, og frægur um alla Norðurálfu.

Franklín var sjötugur þegar þetta var; hann þurfti þá að nokkru leiti að læra nýtt mál, að kynna sèr menn, nema siðu ókunnugrar þjóðar í ókunnu landi, kanna ókunnuga braut og ólíka þeirri sem hann áður hafði gengið; þó var hann óðar albúinn fararinnar, og bjó sig sem hvatlegast, einsog hann hefði þá verið í broddi lífsins.

26ta Októbér 1776 steig Franklín á herskip eitt sem Vestmenn áttu, og hèt Hefnir (Repressal), hafði hann tvö barnabörn sín með sèr: Vilhjálm og Benjamín, auk nokkurra styrktarmanna. Hann var fimm vikur á ferðinni, og var alltaf á meðan að iðka sig í frakkneskri túngu. Áður gat hann að eins skilið bækur frakkneskar, en áður hann kom á land í Frakklandi var hann orðinn vel færr að tala málið. Skipstjórnarmanninum hafði verið bannað að leggja til orrustu nema hann ætti hendur sínar að verja; þessvegna nýtti hann sèr að skipið var gángskip, og gat forðast enska víkínga sem ætluðu að sigla hann uppi. Seinast í Nóvembri komu þeir við Frakkland.

---

Franklín steig fyrst á land í Ørri (Auray) á Bretlandi (Bretagne), og ferðaðist þaðan landveg til Parísarborgar. Á leiðinni kom hann við í borg þeirri sem Nantes heitir, og var honum þar vel fagnað af vinum bandafylkjanna, báru þeir honum þær gleðifrèttir að Frakka konúngur hefði sendt yfirum 200 fallbyssur, 30,000 byssur,

og margt fleira af herbúnaði. Franklín var skamma stund í Parísarborg, fór hann til Passaþorps (Passy), sem er skamt frá borginni í fögru bygðarlagi, og tók sèr þar mátulega stórt og fallegt hús á leigu; þar bjó hann þau 9 ár sem hann var á Frakklandi.

Framanaf var hann yfrið óframgjarn, og kom aldrei fyrir alþýðu sjónir sem sendiherra, því hann vissi enn ekki hvörnig konúngi hugnaðist mál þjóðar sinnar. En Vergennes greifi, sem var fyrir utanríkis málefnum Frakka, veitti honum beztu viðtökur í tómi; þó var honum aungu svarað brèflega uppá eyrindi þau sem hann færði frá þjóðfundi Bandafylkjanna, og var það af því, að Frakkar vildu ekki sýna sig í opinberum fjandskap við Breta, fyrrenn þeir væru búnir að sjá að landsmenn sjálfir væru hugdjarfir og staðfastir í að verja rèttindi sín.

Þó Franklín ekki mætti hafa sig mjög frammi, reyndi hann samt til að fara í krókum, og ná vilja sínum með því móti. Hann kom sèr í kunnleika við menn sem voru mikils metnir, og fèkk þá á sitt mál; hann lagði sig allan fram um að komast að, hvílíkan hug þjóðin hefði á málinu, og hvað stjórnin ætlaðist fyrir; hann leitaðist einnig við að beina alþýðu dómi með ymsum smáritum, sem hann lèt prenta í dagblöðum og annarstaðar. Mesta hagræði var honum það, að hann komst í vináttu við sendiherra Spánverja sem Arandi (Aranda) hèt, því það dróg til þess að Spánn skömmu síðar tók málstað Vestmanna, og hóf ófrið við England.

þegar um vorið 1777 var frelsisbarátta nýlendufylkjanna orðin svo þjóðkunnug í Frakklandi, að menn þyrptust saman til liðs við þau. þessi múgur kom allur til Franklíns, og beiddi hvörr maður hann að mæla fram með sèr, hvört sem hann þekti þá eða ekki, svo hann hafði aungan frið. Hann getur þessa sjálfur í brèfi sem hann skrifaði einum vini sínum, sem hafði sendt honum mann til að gefa meðmælisbrèf. „þú verður að fyrirgefa mèr", segir hann, „að mèr þykja Frakkar vera ósvífnastir manna til að biðja sèr meðmælis. Einsog þeir sjálfir mæla fram með þeim sem þeir þekkja að litlu eða aungu, eins heimta þeir að aðrir skuli gjöra, og það þeir sem eru eins ókunnugir hvörjumtveggja. Margopt gjöra þeir þetta einúngis til að koma þeim af sèr sem þeir eru orðnir leiðir á, og það hefir orðið mèr til óhróðurs að jeg hefi stundum mælt fram með mönnum eptir annarra vitnisburði. Vilir þú þessvegna ekki reka mig burt úr Frakklandi, bezti vinur! þá láttu, í guðs bænum, þetta vera í 23ja og seinasta sinni". Af því stundum bar við að hann gat ekki neitað um meðmælisbrèf, þá orðaði hann það eins handa öllum, sem voru honum ókunnugir, svo hann þurfti einúngis að breyta nafni og dagsetníngu; það var svona: „Sá sem hefir þetta brèf í höndum er mèr að öllu leiti ókunnugur; um skapferli hans verð eg því að skírskota til hans sjálfs. Jeg bið einúngis um, að þèr sýnið honum allt það gott sem hvörr útlendur eða ókunnugur á skilið, þegar maður ekki þekkir hann að neinu illu, og að þèr látið honum alla þá greiðvikni og

góðvild í tè, sem hann vinnur til, þegar hann kynnist betur".

Á þessu ári voru frèttirnar frá Vesturálfu heldur mótdrægar framanaf, en um haustið nálægt veturnóttum vann Getir (Gates), herforíngi banda manna, sigur á hershöfðíngja enskum sem hèt Bargini (Burgoyne), og tók hann sjálfan höndum og allt lið hans. Við sigurfregn þessa breyttist að fullu skaplyndi Frakkakonúngs; enda notaði Franklín sèr það, og lýsti þá þegar fyrir stjórnarráðinu, að það yrði nú að hraða sèr ef það vildi eiga nokkra vináttu við *Bandafylkin*, og óskaði að þau skildust við England. Geirarður ríkisskrifari var þá sendur aptur að vörmu spori með þau skilaboð frá konúngi, að hann vildi viðurkenna frelsi Bandafylkjanna þaðanaf, og sèr væri ljúft að binda kaupskapar og vináttu sáttmála við þau.

Eptir að sáttmálinn var gjörður var Franklín leiddur fram fyrir konúng og hina helztu höfðíngja; og var honum þaðanaf tekið sem sendiherra Bandafylkjanna. Svo hefir frakkneskur maður frásagt sem ritað hefir þennan atburð: „að þá hafi fylgt Franklíni mesti grúi manna; hafi fjöldi Vestmanna verið þar, en hinir þó miklu fleiri sem flyktust að af forvitni. Hærur hans silfurhjartar, og ráðvendnis svipur, og viðhafnarleysi bæði í klæðum og framgaungu, ásamt mörgum öðrum hlutum merkilegum og ágætum sem áður voru kunnugir um æfi hans, allt þetta studdi hvað annað honum til virðíngar. Hann var leiddur fyrir konúng og drotníngu og alla nánustu ættmenn

þeirra við hirðina; talaði konúngur mjög vingjarnlega við hann um fósturjörð hans og sjálfan hann. þegar hann gekk úr höllinni aptur með fylgd sinni heilsaði alþýða honum með háraustuðu fagnaðarópi".

Franklín átti nú hèðanaf hægra fyrir hendi um alla hluti. Hann fèkk af Frakkakonúngi skip, herbúnað og peníuga handa Bandafylkjunum; hann útvegaði einnig svomikið að láni, að goldið varð bæði sendimönnum og öðrum umboðsmönnum fylkjanna í Norðurálfu, og þaraðauki leiga af skulda fè þeirra; af því fè varð einnig nægur peníngastyrkur sendur hertekuum Vestmönnum sem fluttir höfðu verið til Englands. Franklín lagði síðan drög til þess að Frakkar sendu herforíngja sinn Esting (d'Estaing) til liðs við Bandafylkin með 11 stórskip og 6 freigátur, og flutti hann mikin fjölda landhers að auki.

Hvörsu ákafur sem Franklín var um allan hagnað fósturjarðar sinnar, og þó enska stjórnin ekki ætti neitt gott að honum, gleymdi hann samt aldrei göfuglyndi því, sem sèrhvörr góður maður sýnir vinum sem óvinum. Kristniboðsfèlagið á Englandi var vant að senda skip á hvörju ári með nauðsynjavöru handa trúboðendum í norðurherböðum Vesturálfu; Franklín fèkk skipi þeirra verndarbrèf í hvört skipti, til að sýna stýrimönnum á herskipum og víkíngaskipum Vestmanna, eða bandamanna þeirra (Frakka og Spánverja). þvílík verndarbrèf gaf hann mörgum enskum mönnum; Kókur (Cook) hinn frægi, sem sigldi kríngum jörð vora, fèkk eitt, þegar hann fór í landaleit

um vorið 1779. þjóðsamkoman (Congres) lèt sèr þetta vel líka, og hið konúnglega vísindafèlag í Lundúnum sendi Franklíni síðar minnispeníng sinn úr gulli, og þakkaði honum brèflega þessa góðvild hans. En góðvild þessi kom ekki af meinleysi, heldur var hún sprottin af virðíngu á mannkyninu yfir höfuð, og ákafri laungun til að efla gagn þess. það var hans óbifanleg meiníng, að þjóðunum væri einsmikil hneysa að eiga ófrið og orrustur sín á milli, einsog siðuðum mönnum að vera í áflogum; honum var stríð leiðt, ekki einúngis af því það varð svo mörgum að tjóni, heldur vegna þess það tálmaði framförum þjóðanna. „Daglega auðnast oss nýar uppgötvanir í Nattúrufræðinni", segir hann einusinni í brèfi til vinar síns, „mætti oss að eins auðnast *ein* í siðaspekinni: að sýna hvörnig þjóðirnar megi jafna kærumál sín, án þess að skera hvör aðra á háls. Hvönær ætli mannleg skynsemi verði svo vitur að hún sjái hvörsu nytsöm slík uppgötvan væri? Hvönær ætli menn fái að skilja, að þó einhvör þjóð ábatist á ófriði, hefir hún þó illt af að hefja stríð með rángindum? má og vera sumir hrósi happi af því þeir vita ekki hvað á eptir kemur. Við báðir getum verið huggóðir í ófriði þeim sem nú stendur, því við höfum spornað ámóti honum eptir megni". Samkvæmt þessari höfuðreglu vildi Franklín að lögleiðt væri í þjóðarèttinum, að þegar ekki yrði komist hjá ófriði, skyldi þó aungum varnarlausum granda.

Franklín sjálfur átti um þetta mund við sèrlega gott að búa. Hann var svo heilsusterkur

að hann þókti jafnvel verða enn frískari og kviklegri við ellina, og þareð hann lengi hafði búist við að kveðja heiminn, naut hann sèrhvörs dags með gleði og þakklátsemi við guð, einsog hvör stund væri viðbót þess sem nóg var áður. Í Frakklandi var hann vinsælli enn flestir aðrir samtíða menn eða allir; myndir hans bæði steyptar málaðar og höggnar voru seldar um allt land; margir málshættir og kýminyrði, sem hann átti nóg af þegar hann vildi það við hafa, voru í hvörs manns munni í Parísarborg. Konúngur og hirð hans og hinir útlendu sendiherrar höfðu hann í mestu hávegum, því þeim fannst mikið til að sjá slíka ráðvendni og einfaldleik sameinuð þvílíkum gáfum og dugnaði. Í Passaþorpi hafði hann áunnið sèr vináttu allra nábúa sinna, og fólk þeirra virdti og elskaði hann einsog föður sinn. Til höfuðborgarinnar kom hann einnig margopt, var hann þar í samkvæmum og tók þátt í skemtiræðum meðal vina og kunníngja, samt kom hann einna tíðast í samkvæmi til ekkju nokkurrar sem bjó á hólma einum fögrum í Signu (Seine), og var vön að bjóða einvala gestum til sín einusinni í viku; með lærðum mönnum var hann einnig optlega, og á fundum vísindafèlagsins, tók einnig þátt í fyrirtækjum þess í ymsum vísindagreinum; er þar einkum þess að geta, að hann var einn í nefnd þeirri sem var kjörin til að ransaka segulmagnið (Magnetisme), vegna þess sem Mesmir*) hafði látið berast út

*) Anton Mesmir var læknir í Vínarborg; hann vann doktors nafnbót 1766 fyrir ritlíng „um verkanir plánetanna á

um það, en nefndin sýndi ljóslega skrum hans og ósannindi, svo hann fèkk hneysu af. Franklín skrifaðist þaraðauki á við fræga lærða menn í ymsum löndum; frístundir sínar hafði hann til vísindaiðkunar og samdi ritlínga um ýmisleg efni, en síðan prentaði hann þá sjálfur í lítilli handpressu sem hann flutti með sèr.

En framar öllu þessu jók það gleði hans að heill fósturjarðarinnar þróaðist dag frá degi. Vashíngton hinn frægi, hershöfðíngi Vestmanna, hafði sigur á brezkum herflokkum hvörjum af öðrum, og kreppti æ fastar að þeim. Í Norðurálfu áttu Bretar nóg með Frakkland, Spán og Holland, og í Vesturálfu áttu þeir bágast að fæða her sinn, því þeir urðu að senda allar nauðsynjar sjóleiðis. Auk þess var auðsèð að stjórnina vantaði aðfylgi vegna peníngaeklu. Gleði Franklíns og von má sjá af einu brèfi hans til Vashíngtons, hvar hann segir: „Jeg er nú sem horfinn af sjónarhvelinum, en yður auðnast að líkindum að lifa og sjá blóma föðurlands okkar. Því blómg-

líkami manna" og 9 árum seinna samdi hann annan ritlíng í sendibrèfs formi „um lækníngar með segulmagni". Nokkru síðar komust menn að svikum hans í Þýzkalandi og fór hann þá til Parísar, er líklegt að menn hafi trúað honum þar fyrst um sinn, því konúngur bauð honum 20,000 fránka ef hann vildi kunngjöra lækninga meðferð sína, en hann vildi ekki; nokkru síðar var Franklín og 8 aðrir lærðir menn látnir ransaka lærdóm hans og fór það sem hèr segir. Eptir það hèlzt Mesmir hvörgi við, og andaðist að síðustu í Sveissalandi 1815.

ast mun það þegar styrjöld þessi er liðin, fljótt og undrunarlega, einsog akur sá sem skrælnaður er fyrst í lángvinnum þurkum og sólarhita, en verður síðan fyrir hagli og hretviðri, svo öllum þykir sýnt að eyðast muni. Þegar þá hríðin er afstaðin þýtur hann upp skrúðgrænn, svo eigendum og vegfarendum verður starsýnt á þá dýrðarsjón".

Þegar 1778 var farið að bera á friðfýsi Breta, en friðkostir þeirra voru þá svo harðir, að Vestmenn gátu ekki gengið að þeim; Franklín hafði síðan endurnýjað forna vináttu við Skelbjörn (Shelbourne) lávarð, og þareð hann nú var orðinn stjórnarherra á Englandi, var friðarboðið ánýað. Þjóðarsamkoman sendi þá kjörna nefnd manna til Frakklands, Franklíni til aðstoðar og ráðaneytis; umboðsmenn Breta komu einnig optar enn einusinni til móts við þá; var það ráðagjörð Breta undir niðri að koma Vestmönnum einum í sætt við sig, svo Frakkland yrði eptir síns liðs, því þeir treystu sèr vel að jafna á Frökkum einumsaman; en Franklín þvertók að landar sínir mundu sýna þvílíka hrekki, og kvað Frakka eiga annað skilið fyrir trygð þeirra og manndómlega aðstoð, en að ekki gengi jafnt yfir hvörutveggi. Meðan á þessu stóð gengu iðuglegar sendiferðir milli Lundúna og Parísarborgar; Bretar voru seigir í kröfum sínum, og sleptu aungri fyrri enn eptir lánga nauð. Heilt ár leið í þessu þrasi og nokkuð á annað; seint um síðir komst friðurinn á, og 3ja dag Septembermánaðar 1783 skrifuðu fulltrúar hlutaðeigenda undir friðarskrána í Parísarborg. Bandafylkin urðu frjáls, og höfðu marg-

háttaðan sóma og gagn fyrir staðfesti sína og hreysti.

Nú var þá Franklín kominn að hinu fræga takmarki sem hann hafði stefnt á mikin hluta æfi sinnar, og barist til gegn mörgu mótlæti og armæðu. Hann hafði sjálfur varla vonað að hann mundi lifa þennan gleðidag; en þaðanaf kaus hann helzt að vera á föðurlandi sínu meðal vina sinna og frænda, lifa þar í friði og ró og halda áfram vísinda-iðkunum sínum, því með þeim hætti vændist hann að mega gagnast mannkyninu nokkuð enn, um þá stund sem hann ætti eptir. Hann bað þessvegna um heimfararleyfi, og fèkk það; merkismaðurinn Jefferson kom í stað hans.

Skömmu eptir friðarsamninginn fèkk Franklín brèf frá syni sínum sem gladdi hann mikilega. Franklín hinn ýngri var orðinn höfuðsmaður í Nýu Hjörsey (New Yersey) áðurenn ófriðurinn hófst; hann þóktist (líklega þessvegna) vera skuldbundinn að verja mál hinnar ensku stjórnar, og rèðst í her Breta móti löndum sínum. Faðir hans álasaði honum aldrei fyrir það, og reyndi ekki einusinni til að tala honum hughvarf; en aungu að síður hnekti það mjög frændsemi þeirra, sem von var, að hvörr hèldt með annars óvinum, og mjög ákaflega. Þegar friðurinn var kominn á, skrifaði Franklín ýngri föður sínum sáttsamlegt brèf til frá Lundúnaborg, og svaraði faðir hans því þannig:

Sonur minn góður!

Brèf þitt hefi jeg fengið, og gleður það mig að þú aptur vilt endurnýa frændsemi okkar sem áður var svo góð. Hvað getur verið mèr geðfeld-

ara enn að verða við þeirri ósk þinni? Jeg segi það satt, einginn hlutur hefir nokkurntíma hryggt mig eins, einginn skorið mig eins sárlega til hjarta, einsog að eini sonurinn minn skyldi yfirgefa mig ellimóðan, og ekki einúngis yfirgefa mig, heldur bera vopn móti mèr í því máli hvar allt mitt var í veði, mannorð, eignir og fjör. Þú segist hafa verið þeirrar sannfæríngar, að skylda þín við konúnginn og umhyggja fyrir föðurlandinu krefði þessa. Jeg vil ekki áfasa þèr þó við sèum ekki samdóma um þjóðarmálefni; vèr erum allir menn, og misskilníngi undirorpnir. Það er ekki undir sjálfum oss komið hvörrar meiníngar vèr erum í mörgum efnum, það er komið undir ýmislegum atburðum, sem hrífa oss óviðbúna og yfirbuga oss. Samt mundu fáir hafa álasað þèr þó þú hefðir sneidt þig hjá, og verið með hvörugum, enda eru til skyldur, sem náttúran hefir sett fyrstar, og landstjórnin síðan ekki breytir. — Þetta efni er annars ógeðfeldt um að tala — jeg ætla því að þegja um það, og við skulum, einsog þú segir, leitast við að gleyma því öllu svo vel sem við getum. Jeg sendi þèr nú son þinn yfirum til að færa þèr sonarlega lotníngu; þú munt sjá að honum er töluverðt farið fram; hann er virðtur og elskaður af öllum hèr, og honum er óhætt hèðanaf hvar sem hann verður" o. s. frv.

Áður enn Franklín hvarf heim aptur batt hann sáttmála við Prússa konúng, um stöðuga vináttu og verzlunarviðskipti milli Prússalands og Bandafylkjanna. Þar var fyrst kveðin upp regla sú sem áður er umgetið, að Franklín vildi hafa

lögleidda í þjóðarèttinum; ein grein sáttmálans var þannig: „Komi ófriður milli þjóðanna, skulu kaupmenn þeir úr öðru landinu sem eru í hinu fá níu mánaða frest til að verja fè sínu, svo þeir geti farið frjálsir burt með allt hvað þeir eiga. Konur og börn, vísindamenn allskonar, akurirkjumenn, dásmiðir (Kunstnere), handiðnamenn (Fabrikanter) og fiskimenn, sem eru varnarlausir, og byggja í varnarlausum stöðum og þorpum, í einu orði að segja, allir sem vinna mannkyninu framfærslu og velgengni, skulu mega halda áfram störfum, og vera óuáðalausir; má hvörki brenna hús þeirra nè eignir, nè skemma þær, og ekki eyða land þeirra; en þurfi nokkurra birgða frá þeim hernum til fæðslu, skal gjalda þeim verð fyrir sanngjarnlega. Kaupskip sem flytja landvörn frá einum stað til annars, og gjöra nauðsynjar manna eður hagsældir almennari og greiðari aðgaungu, skulu mega fara leiðar sinnar sem ætlað var, og skal hvörug þjóðin leyfa nokkrum víkíngi að hertaka eður eyðileggja þvílík kaupskip, nè að tálma þesskonar kaupferðum".

Franklín kvaddi konúng og stjórnarherrana brèflega, því hann þjáðist svo mjög af steinsóttarhviðum að hann mátti trauðt gánga. Þegar það frèttist til hirðarinnar, að hann gæti ekki ekið í vagni fyrir sjúkdómi, var honum boðinn kvikstóll (burðarstóll) drotníngar sjálfrar, sem borinn var á spánverskum múlum. Í þessum stóli fór hann frá Passaþorpi 12ta Júlí 1785, og síðan í stuttum áfaungum til Hafnar (Havre), því þar ætlaði hann að stíga á skip.

Með miklum söknuði kvaddi Franklín Passaþorp; hann hafði búið þar lengi, og verið mjög vel látinn af öllum. Maður nokkurr sem þá var þar segir svo frá, að bæarmenn hafi harmað burtferð hans einsog föðurmissir. Á leiðinni var allstaðar tekið við honum með mesta sóma, og í merkisborgum með stórveizlum, en fjöldi manna heimsókti hann að fyrra bragði til að sýna honum virðíngu. Eptir að hann hafði hvílt sig fáeina daga hjá einum vini sínum, hèldt hann áfram leiðar sinnar til Hafnar, og þaðan sjóleiðis til Englands. Skipið lagði að við Heimtún hið syðra (Southampton), og hitti þar marga vini sína og son sinn, komu þeir á móti honum frá Lundúnaborg. Í Heimtúni dvaldi hann skamma stund, og steig þar á annað skip, sem fara átti yfir í Vesturálfu. Vinir hans fylgdu honum á veg, og voru um nóttina á skipi; en þegar hann vaknaði um morguninn voru þeir komnir á land, og skipið á siglíngu.

Heimkomu sinni segir hann sjálfur frá: „Nálægt sólarlagi 13da dag Septembers sigldum vèr (uppeptir Delavari) framhjá Nýakastala, og vörpuðum atkeri vegna fjörunnar. Með aðfallinu rann á byrr; skilaði oss þá fljótt framhjá Glókastalanesi (Gloucester-Point), og borgin sem jeg elskaði mest allra borga (Bræðraborg) blasti við. Þar máttum vèr bíða þeirra sem settir voru til sóttnæmisvarna (Qvarantaine). Þeir fundu einkis vant á skipinu, og leyfðu oss því að fara í land. Teingdasonur minn kom á báti að sækja oss. Vèr stigum á land við Torgstrætishróf, var

þar mikill mannsafnaður, sem tók á móti oss með fagnaðarópi, og fylgdi oss heim að húsdyrum mínum. Öllum *mínum* leið vel — Guði sè lof og þakkargjörð fyrir alla náð hans og gæzku!"

Frá viðtökunum í Bræðraborg er þannig sagt eptir kunnugum mönnum: „gánga hans í borgina var rèttnefnd sigurför; meðan hann gekk um strætin hljómaði umkríng hann blessunaróp frjálsrar og þakklátrar þjóðar, sem hafði allar framferðir hans og atorku í fersku minni; en fallbyssu-dunur og klukknahljóð boðuðu gleðifregnina út um herað. Hermenn, sem höfðu lagt blóð sitt í sölurnar fyrir frelsið, sem vísdómur *hans* grundvallaði, þyrptust að til að sýna honum ör sára sinna. Öldúngar flokkuðust kríngum hann, og sögðu honum frá, hvörsu þeir hefðu beðið drottinn um að lengja líf sitt, þángaðtil þeim gæti auðnast að sjá hann aptur. Únglíngarnir ruddust fast um, til að fá að sjá andlit hins fræga manns, sem með gáfum sínum og manndómi hafði tendrað fjörloga andans í brjósti þeim. Á leiðinni heim gekk hann fram hjá stórskólanum og spítalanum, og var hvörttveggja í ágætasta standi. Úti um herað sá að sönnu vott hervirkis Breta á stöku stöðum, en því meiri var orsökin til fagnaðar yfir sigri og fengnum friði".

Síðan komu valdir sendimenn með fagnaðarávarp til Franklíns frá fulltrúum alþýðu, heimsspekisfèlaginu, skólanum, fólkstjórnarfèlaginu, dómsmönnum allskonar, og yfirmönnum hersins. Þá fèkk hann einnig brèflega kveðju frá þeim manni sem hann hafði mestar mætur á, Vashíng-

toni hershöfðíngja. Jafnframt þessu var Franklín kosinn í bæarráðið, og skömmu síðar nær í einu hljóði til fylkisforseta í Pennsmörk. „Satt var það", segir hann í brèfi til biskupsins í Assafi (Asaph) á Englandi, vinar síns, „mèr var tekið hèr með hinni mestu sæmd; en einmiðt það, og dálítill metorðagirndar neisti, sem jeg hugsaði væri slokknaður, ginnti mig að takast forsetadæmið á hendur, þó mèr hefði verið hagfeldara að vera hèðanaf laus við allt umstáng og embættisstörf. Jeg vona jeg þoli áreynslu *eitt úr enn**), og síðan ætla jeg að hætta. Yður fýsir að vita framfarir landstjórnar vorrar. Jeg held vèr sèum á rèttri leið, því vèr *reynum* fyrir oss. Jeg held einnig að oss fari fram dag frá degi, og efast ekki um, að vèr munum innan fárra ára ná svo mikilli alþjóðlegri velgengni sem góðri stjórn er auðið að veita. Frèttablöð yðar eru full af ósönnum sögnum um stjórnleysi vort, vesæld og volæði, og eigna það stjórnarbiltíngunni, en jeg segi yður það satt, að allur þorri þjóðar vorrar er ánægður með umskiptin, og girnist ekki hót að komast aptur undir ríki Breta. Hagur minn og minna, sem þèr góðgjarnlega spyrið um, stendur, sem nú er komið, svo sem jeg get bezt óskað. Elskuleg dóttir og 6 efnileg barnabörn eru hjá mèr, og stendur mèr mikil von af þeim. Hvörnig þau hegða sèr þegar þau þroskast, og koma í reynsluskóla lífsins, auðnast mèr ekki að sjá, og get jeg

*) þetta sýnir ágætlega fjör hins gamla manns, hann var þá áttræður.

þarum aungu spáð; jeg gleð mig þessvegna með þeim yfir því sem er, og fel guði hið ókomna. Heilsa mín og sálarfjör er fyrir guðs náð óskerðt síðan þèr sáuð mig seinast. Mèr er ávallt gleði að umgengni vina minna, og þareð jeg einnig hefi nóg fyrir hendi, ber margt til þess að jeg elska lífið. En — hin venjulega rás náttúrunnar hlýtur innanskamms að breyta þessari tilveru sem jeg nú hefi, og það þoli jeg fúslega. Jeg hefi um lánga æfi sèð býsna mikin kafla af *þessari* veröldu, nú vex mèr óðum forvitni að kynnast *hinni*, og mun jeg óhultur fela önd mína hinum voldugu og góða föður mínum og alls mannkyns, sem skapaði hana, og sem svo náðnglega hefir verndað og blessað mig frá því jeg fæddist og til þessarar stundar". Ári seinna skrifar hann: „Jeg má kalla að jeg hafi hálfvegis troðist inn í samkvæmi hinna seinni manna, en hefði að rèttu átt að liggja í þraungva rúminu og sofa. Fèlagar mínir í æskunni eru nú allflestir horfnir, en mèr líður dável í flokki barna þeirra og barnabarna. Jeg hefi nóg störf fyrir þjóð mína til að firra mig leiðindum, en auk þess skemti jeg mèr stundum við bækur, samræður, aldingarð minn, og stundum við spilaleik. Jeg er nú aptur valinn til fylkisforseta og það í einu hljóði; þar sagði einginn „nej" við mèr nema jeg sjálfur. Einnig á þessu ári líður tíminn farsællega fyrir mèr, og jeg sè, sem stendur, eingin líkindi til breytínga. En allt ókomið er óvíst, og alþýðuhyllin óstöðug; stundum getur maður mist hana einmiðt fyrir góðverk, eins hæglega og maður getur áunnið sèr

hana; jeg treysti því þessvegna auunganveginn, að mèr haldist á gæfu þeirri sem jeg fagna núna, og mig skyldi ekki kynja þó eitthvað skerði hana áðurenn vinnutíð mín er á enda".

1787 var stefnt saman nefnd manna til Bræðraborgar, til að rannsaka stjórnarlögun fylkjanna og bæta hvað ábótavant þókti. Franklín var einn í þessari nefnd, og stakk þar uppá mörgu merkilegu, sem hafði góðan framgáng; en einu af frumvörpum hans var neitað, og það var, að hefja skyldi hvörja samkomu með bæn til hins alvalda um aðstoð hans, einsog venja hafði verið framanaf, meðan stríðið stóð yfir. „Þá urðum vèr bænheyrðir", sagði Franklín, „en höfum vèr *nú* gleymt vini vorum hinum volduga? eða þykjumst vèr ekki þurfa lengur hjálpar hans við? jeg fyrir mitt leiti hefi lifað lengi, en því lengur sem jeg lifi því fleiri sannanir fæ jeg um það, að guð stjórnar mannanna högum". Ekki var það allfátt í nýu stjórnarskránni sem honum líkaði ekki, en af því flestir hèldu því fram, lèt hann fúslega meiníngu sína, og samþykti alltsaman. „Jeg játa það", segir hann, „að jeg er ekki að fullu ánægður með nýu stjórnarskrána, en jeg veit ekki með vissu nema mèr kunni að líka hún síðar, því opt á æfi minni hefi jeg orðið að breyta meiníngum mínum, vegna áreiðanlegri frásagnar eða nákvæmari umhugsunar, og það stundum í áríðandi málefnum. Því eldri sem jeg verð, þess minna treysti jeg mínum dómi um aðra. Það er þó trú flestra, bæði einstakra manna og heilla trúflokka, að þeir hvörr um sig hafi eignast allan sannleika, en allir aðrir fari

villir vega í öllum þeim efnum hvar þeir ekki eru samdóma. Þannig sagði Stáli (Steele) prótestantinn, sem helgaði páfanum bók sína, að sá einn væri munur á vissu katólskra og prótestanta í trúarmálefnum, að hinir fyrri *gætu ekki haft annað enn rètt að mæla*, en þeir seinni *hefðu aldrei órètt að mæla*. En þó margir sèu sama sinnis um þetta efni, þá hafa þó fáir sagt eins náttúrlega frá því einsog kona nokkur á Frakklandi; hún sagði einusinni við systur sína, þegar þeim bar á milli: „„aldrei hitti jeg þó neinn nema sjálfa mig, sem *í hvört skipti* hefir á rèttu að standa"". Í þessum hug skrifa jeg undir stjórnarskrána með öllu því sem að henni er — ef þá nokkuð er að henni".

Frá því um veturinn 1787 þángaðtil um haustið 1788 tók Franklín alltaf mikið út af flugkveisu, svo hann gat ekki stigið út fyrir dyr, en að síðustu hvarf steinsóttin honum um stund að öllu leiti, og mátti það heita merkilegt. Þá hafði hann tekið við forsetadæmi í þriðja sinni, sem hann var valinn til. Lengur enn þrjú ár mátti ekki velja hann að lögum, þessvegna var hann viss um að verða í náðum eptir að það ár var liðið. Um þetta leiti hafði hann nóg að starfa: hann samdi æfisögu sína, og skrifaðist á við vini sína í Norðurálfu. Auk þess var hann ötull forseti landstjórnar fèlagsins, og tveggja annarra fèlaga; hafði eitt þeirra tekið sig til um að mýkja nauð þeirra sem voru hafðir í varðhaldi, en annað gekst fyrir að afmá mansal, styrkja frjálsa Blökk-

umenn sem haldnir voru í fjötrum, og hæta ástand allrar Suðurálfu-kynslóðar; fèlag þetta hafði hann sjálfur stofnað, og var forseti þess; hann sendi í Febrúar 1789 skrá til fylkisfulltrúanna, skoraði hann þar á þá, að neyta allrar orku til þess að hætt yrði mansali að fullu og öllu.

Þetta var hið seinasta fyrirtæki hans í alþjóðlegum málefnum. Vanheilsa hans jókst nú aptur, svo hann gat varla stigið úr rúmi. Steinsóttin gekk þá mest að honum, og það svo mjög, að læknirinn varð stundum að gefa honum svefnmeðal (ópíum) til að deyfa kvölina. Þó var hann jafnast glaður, þókti vænt um þegar hann heyrði að hið keisaralega vísindafèlag í Pètursborg hefði kosið sig til fèlaga í Nóvembri 1789; hann las, talaði við ættmenn sína og vini, og hvönær sem færi gafst var hann búinn til með ráði og dáð að vinna gagn þar sem þurfti. Fáum vikum áður hann andaðist samdi hann ágæta eptirhermu (Paródíu) ræðu einnar, sem herra Jakkson hafði þulið á þjóðfundinum mansalinu til málsbóta.

Sextán dögum fyrir andlát sitt fèkk hann köldu, en fám dögum síðar kvartaði hann um tak fyrir brjóstinu, og fylgdi því hósti og mæði. Þegar kvölin einstakasinnum neyddi hann til að stynja, kvaðst hann óttast að hann bæri ekki kross þennan eins vel og hann ætti að gjöra; hann þakkaði guði alla þá blessun sem hann hefði hlotið, og kvaðst vera þess fullviss, að sótt þessi ætti að lètta sèr viðskilnaðinn við þennan heim, þareð hann ekki lengur gæti unnið ætlunarverk sitt. 13 Apríl

hvarf takið allt í einu, og fólk hans fór að vona hata, en þá sprakk sullur sem hafði verið að búa um sig í lúngunum. þremur dögum áðurenn hann andaðist, heiddi hann dóttur sína að búa rúm sitt, „svo jeg megi andast sómasamlega" sagði hann. Hún kvaðst vona honum mundi batna, og auðnast laung lífsdvöl þaðanaf, en hann svaraði skjótlega: „það vona jeg *ekki* verði". Úr því tók megin hans að þverra, andardrátturinn varð tregari, og síðan kom deyfð yfir hann; eptír það lág hann í móki þángaðtil stundu fyrir miðnætti 17da Apríl 1790, þá slokuaði hann sem ljós, 84 ára og 3 mánaða gamall.

---

Maður nokkurr sem þá var í Bræðraborg segir þannig frá jarðarför hans: „Líkami þessa merkismanns var jarðaður að Kristskirkju í Bræðraborg. Aldrei mun líkför hafa verið fjölmennari í Bandafylkjunum, nè meira mannval samankomið. Tilsókn alþýðu var fjarskaleg. Öllum klukkum í borginni var hríngt; dagblöðin voru öll prentuð með svörtum dálki. Fallbyssu skot dundu meðan líkið seig í jörðina, og aungu var slept, sem mátti verða minníngu þjóðmæríngsins til heiðurs og sóma. Á allsherjarþíngi var lögtekið, að hvört manns barn í landinu skyldi bera sorgarbúnað um heilan mánuð".

---

Franklín hafði á ýngri árum sínum sett sjálfum sèr grafskrift svo látandi:

The body
of
Benjamin Franklin, Printer,
(like the cover of an old book,
its content torn out
and stript of its lettering and golding)
lies food for worms:
Yet the work itself shall not be lost.
For it will (as he believed) appear once more
in a new
and more beautiful edition
corrected and amended
by
the author*).

Þegar lát Franklíns heyrðist til Frakklands, þókti öllum mikils um verðt. Þegar næsti þjóðfundur (National-Convent) var settur, að morgni hins 11ta Júní 1790, stóð hinn víðfrægi Mírabó (Mirabeau) upp, og talaði á þessa leið:

Franklín er audaðnr!!!

Andi sá sem gaf Vestnrálfunni frelsi, en hellti ljóssgeislum yfir alla Norðurálfu, hann er snúinn aptur í guðdómsins skaut!

Spekíngurinn, sem tveir heimar telja sèr, sá

*) Likhamur Benjamins Franklins, prentara, (likt og umgjörð gamallar bokar, sem rifin er upp ur bandi, en kjalletur hennar mað, og gylling) liggur til ormafæðu. En verkið sjalft mun ekki týnast; það mun (að tru hans) birtast einusinni enn í nýiri og fagrari útgáfu, leiðrettri og bættri af höfundinum.

maður, sem þjóðasagan og vísindasagan keppa um; sá var eflaust hátt settur meðal ættliða mannkynsins!

Það hefir gengið nógu lengi, að ráðaneyti konúnganna hefir æpt út um alla veröldu dauða fregn *þeirra*, sem aldrei voru ágætir nema í líkræðunni; það hefir gengið nógu lengi, að hirðsiðir hafa boðið mönnum hræsnissorg — þjóðum hæfir einúngis að harma velgjörðamenn sína. Þjóða fulltrúar mega einúngis mæla fram með að þær veiti lotníngu hetjunum meðal alls mannkyns.

Vestmenn hafa lögtekið á allsherjarþíngi, að allir menn skuli bera sorgarbúníng eptir Franklín heilan mánuð, í Bandafylkjunum fjórtán. Vesturheimur geldur lotníngarskuld einum af feðrum stjórnarlögunnar sinnar. Sómir þá ekki yður, löggjafar Frakklands! að taka þátt í guðræknis athöfn þessari? Sómir yður ekki að taka þátt í þessari minníngargjörð, sem borin er fram fyrir alheims augu til fórnar fyrir réttindi mannkynsins, og *þann* spekíng, sem svo volduglega lagði lönd undir þau.

Fornmenn mundu hafa reist hof og búið stalla þeim hinum dauðlega, er svo var háfleygur í huga, að hann gnæfði yfir himin og jörð, *kúgaði þórdunur, og skýfði þá hina grimmu stjórnendur úr hásætum**).
— Norðurálfan, sem er frjáls og fullvita, á að minnsta kosti að minnast þess manns og harma

*) Þetta miðar til vers hins latínska, sem Albjartur (d'Alembert) heilsaði Franklíni með, þegar hann kom fyrst á fund í vísindafélagi Frakka.

Eripuit cœlo fulmen, sceptrumqve tyrannis.

látinn, sem var einhvörr hinn ypparsti af þeim sem nokkrusinni hafa starfað vísindum og frelsi til aukníngar og frama.

Jeg skora á þíngmenn að bera sorgarbúnað þrjá daga í minníngu Benjamíns Franklíns".

La-Fætti (La Fayette) stóð fyrstur upp, og gaf jáyrði sitt, og síðan hvörr þíngmanna af öðrum, en alþýða æpti fagnaðar óp. Næsta mánudag, 14da sama mánaðar, komu allir á þíng í sorgarbúnaði, og báru hann 3 daga, en forsetinn ritaði þjóðarsamkomu Bandafylkjanna brèf, til að votta þeim söknuð Frakklands yfir láti hins fræga manns. Þarnæst var sívala húsið mikla á korntorginu í Parísarborg tjaldað svörtu, og uppljómað vaxljósum; þar hèldt Fúki (Fouchet) ábóti saknaðartölu eptir Franklín fyrir geysi miklum söfnuði.

---

Meðal skjala Franklíns fundu menn að honum látnum erfðarbrèf (Testament) hans, og er hèr getið þess úr því sem helzt þykir lýsa skaplyndi mannsins.

„Jeg er fæddur í Bostúni, og á að þakka frískólanum þar nám mitt framaneptir; jeg gef því 100 punda (hèrumbil 450 specíur) þángað, og eiga forstöðumenn skólans að setja fè það á leigustaði, en leigunni skal verja til að kaupa fyrir minnispenínga úr silfri, og skal á hvörju ári gefa þvílíka minnispenínga framfarabeztu piltum í skólanum. Af launum þeim sem jeg á inni fyrir forsetadæmið, gef jeg 2000 punda, og ætla jeg það (eptir því sem fulltrúarnir vilja ráðstafað hafa) til

að gjöra Seilukíl (Shuylkill*) skipgengan. Meðan jeg var prentari, seldi bækur, stýrði póstagaungum o. s. frv. söfnuðust mèr margar smáar fjárheimtur fyrir bækur, auglýsínga prentanir og brèfaburð, sem jeg ekki fèkk heimtar áður jeg ferðaðist til Englands 1757, en síðan ekki krafðar, þareð jeg fèkk þá meira að sýsla á alþíngi, og í Frakklandi. Fè þetta, sem stendur saman, og er merkt bókstafnum E í reikníngsbók minni, gef jeg spítalanum í Bræðraborg; því þó fjárheimtur þessar sèu fornar, á jeg þær þó með frjálsu, og jeg vona að skuldunautar mínir eða niðjar þeirra ekki munu tregðast að gjalda það, eða gefa í ölmusu handa spítalanum. Ósk mín er að dupt mitt verði jarðsett með svo litlum kostnaði og viðhöfn sem má.

Viðbætir (Codicil).

Jeg, Benjamín Franklín, sem hefi skrifað undir erfðarbrèf það sem hèr að framan er ritað, hefi síðan ítarlegar hugleidt efni þess, og þykist nú verða að bæta við því sem hèr skal telja:

Það hefir mèr lengi verið ríkt í huga, að í því landi hvar alþýðu stjórn (Demokratí) er, eigi ekki að vera embætti, sem græða megi á. Það var þá ásetníngur minn þegar jeg tók við forsetadæminu, að verja launum þeim sem mèr yrðu ánöfnuð til þjóðnota, jeg hefi einnig áður gefið eigi alllítið fè kirkjum, skólum og ymsum þarflegum fyrirtækjum til eflíngar og framfara, og í framanskrifuðu erfðarbrèfi ætlað 2000 punda til

*) Seilukíll er á ein lítil sem rennur í Delavar, (sbr. bls. 15).

að gjöra Seilukíl skipgengan; en nú hefi jeg sèð það síðan, að þetta muni hrökkva skammt til slíks fyrirtækis, hefir mèr því dottið önnur ráðstöfun í hug, sem jeg vona verða muni að almennari notum, og tek því aptur hina og að aungu gjöri, en ætla til að farið sè með þessi 2000 pund einsog jeg nú mun gjöra ráð fyrir.

Jeg er fæddur í Bostúni, og á fríakólunum þar að þakka hið fyrsta nám mitt, jeg hefi einnig minnst þeirra í erfðarbrèfi mínu. En Massakúsu fylki (þar sem Bostún er) á líka gott skilið af mèr, því það kaus mig að fyrra bragði til eyrindsreka síns á Englandi, og launaði mèr starf það örlátlega; og þó svo tækist til að jeg misti meira enn launnunum svaraði, fyrir það jeg sendi brèf Hútkinsonar (Huttchinson) höfuðsmanns, þá skerðir það aunganvegin þakklátsemi mína. Jeg hefi komist að raun um, að únglíngar þeir sem eru þægir og ötulir meðan þeir eru að læra verknað (handverk), verða optastnær efni í væna menn. Jeg lærði sjálfur prentaralistina heima í Bostúni, og fyrir peníuga sem tveir vinir mínir góðfúslega lánuðu mèr eignaðist jeg sjálfur prentsmiðju í Bræðraborg, en það varð mèr grundvöllur allrar gæfu, og síðan til þess, sem jeg kynni að hafa af stað komið til gagns þjóð minni. Jeg girnist því, ef mögulegt væri, jafnvel að mèr liðnum að verða úngum mönnum í borgum þessum tveimur að liði, þegar líkindi eru til að þeir megi verða fósturjörðinni að gagni, og skipti þessvegna nefndum tveim þúsundum punda jafnt milli beggja borganna; skal fara með það fè þannig, sem nú segi jeg

fyrir: þau 1000 pund sem jeg gef til Bostúns skulu vera undir tilsjón helztu búfastra manna og presta þar í borginni, og skulu þeir byggja af fè þessu, og taka 5 í leigu af hundraði hvörju; þeir skulu byggja fèð úngum, kvonguðum verknaðarmönnum (handverksmönnum), sem eru ýngri enn 25 ára, hafa numið verknað þar í bænum og trúlega gegnt skyldu sinni; skulu þeir sýna vitnisburð tveggja velmetinna borgara að minnsta kosti, sem fúslega vilja ábirgjast að fè verði goldið aptur með fullri leigu. — Styrkur þessi verður ekki mikill fyrst um sinn, en hann getur vaxið eptir því sem stofninn ávaxtast; og til þess að sem flestir geti notið styrks þessa smámsaman, og eigi hægra með að gjalda aptur, skal hvörr sá sem lán fær gjalda tíunda hlut þess á ári hvörju auk leigunnar, en það sem goldið verður skal jafnskjótt byggja öðrum. Jeg gjöri ráð fyrir að í Bostúni verði jafnan ráðvandir menn og góðgjarnir, sem vilji verja nokkru af tíð sinni til að stjórna þessu og hirða um það kauplaust, og í því transti vona jeg að ekkert af peníngum þessum muni liggja iðjulaust, nè verða haft til annars, heldur muni stofninn ávallt aukast með leigunni. Ef þannig fer, þá verður stofninn að 100 árum liðnum orðinn 131,000 punda (1,179,000 dala), mega þá umsjónarmennirnir taka 100,000 pund (900,000 dali) frá, og verja þeim til einhvörra þjóðnota, til að mynda: vígisgarða, brúa, vatnsveitínga, þjóðhúsa, lángahúsa, steinlagníngar stræta eða einhvörs þess sem er borginni til prýði, og þeim til gagns eða skemtunar sem ókunnugir koma

í borgina til að leita sèr læknínga, eða til annarra nauðsynlegra eyrindagjörða. 31,000 punda, sem afgángs verða, vil jeg að bygð sèu um önnur 100 ár, með sama hætti og áður er sagt, því jeg vona fastlega að ávextirnir hafi sýnst á framferði úngmenna, og orðið mörgum ágætum manni að gagni. Þegar þessi 100 ár eru á enda, hafi þá ekkert óhapp orðið, verður stofninn 4,061,000 punda; þaraf gef jeg Bostúnsmönnum 1,061,000 punda, og megu þeir hafa þau til hvörs þeir vilja, en fylkisstjórnin á að sjá fyrir 3 milliónum þeim sem afgángs verða.

Jeg voga ekki að rína lengra fram í aldirnar. (Síðan koma viðlíka reglur um hinn helfínginn sem Bræðraborg var ætlaður, nema því er hætt við, að Scilukill verði gjörður skipgengur að 100 árum liðnum.)

Þegar jeg renni huganum til alls þess sem raska má viðburðum manna og áformum um svo lángan tíma, sè jeg að jeg hefi að líkindum verið of hègómlega vonarsterkur, að hugsa að þetta mundi standa svo lengi, og bera tilætlaðan ávöxt þá það einusinni kæmist á. Jeg vona samt að bæarmenn á hvörntveggja stað, þó þeim lítist ekki á að framkvæma ráðstöfun mína, muni að minnsta kosti þiggja boð mitt, og taka það sem vott góðs vilja, þakklátsemi og alvarlegrar viðleitni að verða þeim þarfur jafnvel eptir viðskilnað minn. Ósk mín er samt, að þeir reyni hvörutveggi að framfylgja ráðstöfun minni, og munu þeir þá sannfærast um, að mögulegt sè að framkvæma hana. Vili bæarmenn á öðrum staðnum taka við fènu með þess-

um kostum, en á öðrum ekki, þá er vili minn að hinir fyrrnefndu taki við öllusaman, og fari með hvört um sig einsog jeg hefi ráð fyrir gjört. En vili hvörugir þiggja gjöfina, þá falli hún til arfs eptir mig, og skal þá fara með hana samkvæmt erfðarbrèfi mínu sem samið var 17 Julí 1788.

þess bið jeg, ef því verður viðkomið, að jeg sè grafinn hjá konu minni, og skal Kambres (Chambers) höggva slètta marmarahellu til að hylja með leiði okkar, 6 feta lánga og 4 feta breiða, skal hann gjöra mjóan dálk til prýði allt um kríng með röndinni að ofanverðu, en þar fyrir innan skal þetta grafletur höggva:

Benjamín
og } Franklín
Debóra

178—

Snotur gaungustafur úr apaldri, sem jeg á, og ágæt kona, hertogaekkja af Tvíbrúm (Zweibrücken) gaf mèr, með gullnum húna, mynduðum sem frelsishúfa, skal verða eign vinar míns, og vinar alls mannkyns, Vashíngtons hershöfðíngja. þá stafurinn hefði verið veldissproti þá hefði sá maður unnið til hans, og kunnað að fara með hann".

---

Samtíða menn, sem þektu Franklín, hafa lýst honum með þeim hætti sem nú skal segja:

þegar Franklín andaðist, slokknaði eitthvört hið skærasta ljós þessarar veraldar. — Megin anda hans var staklegt. Honum var lagið að ná hinu

djúpsetta í sèrhvörri tegund vísindanna, en iðni hans óþreytandi ransakaði hvörja þeirra af annarri. Vísindafýsn hans var óslökkvandi: hann kannaði ríki náttúrunnar á alla vegu, en einkum manninn og náttúru hans, og hafi hann fest hugsjónir sínar á nokkru einu framar öðru, þá var það á uppgötvan þeirra hluta sem auka og efla þekkíngu manna og hagsældir. Hann leitaði sannleikans eins umfram allt, þessvegna feldi hann sig ekki við sèrlegar trúflokka meiníngar; hann lèt skynsemina segja sèr leið, þessvegna feldi hann sig ekki við neina þá trú sem hún hneixlaðist á. Í fám orðum að segja: Hann hafði bók náttúrunnar opna fyrir sèr, og las í henni trúlega og iðnglega.

Stjórngáfa Franklíns var aungu minni enn lærdómsgáfa hans. Fornaldarmenn töldu gæfuna til hjá hvörjum þeim manni sem auðnaðist að verða þjóðmenni, en varla mun hafa borið minna á gæfunnar aðgjörðum hjá öðrum enn Franklíni, því hann reisti sèr aldrei hurðarás um megn.

Franklín leitaði sèr ekki fordildar í málsnildar list, því einfaldleiki orða hans þurfti ekki fordildar við; þó hann jafnan sneiddi sig hjá kapprædum um stjórnarmálefni, og væri einginn atkvæðamaður í slíkum ræðum, voru orð hans eigi að síður jafnan mikils metin á þíngum. Jafnan varaðist hann að leggja sig í bleyti við það sem aungum manni er unnt að vita með neinni vissu; hann lèt það sitja í fyrirrúmi sem mögulegt var að komast að á vísindanna vegi, og óvillt skynsemi mátti öðlast skilníng á. Orðfæri hans var óbrotið og ljóst einsog skiln-

íngurinn, og þegar hann talaði í líkíngum, var það sannleikanum til skíríngar, en ekki viðhafnar.

Hann kaus ávallt heldur að heyra aðra tala enn tala sjálfur; í samræðum var hann skynsamari enn hann var fjörugur, orðheppnari enn hann var orðsnjallur. Hann líktist í því flestum fyrirtaksmönnum, að kunna því illa ef tekið var frammí þegar hann talaði; lofaði hann mjög þann sið hinna villtu manna, að þeir hlýða með athygli hvörr annars eyrindi, og þegja síðan nokkra stund áður þeir svara. Franklín var kurteis maður; hann bar aldrei þvert á móti því sem aðrir sögðu, heldur vóg hvört orð sitt mjög stillilega, og sigraði þessvegna optar mótstöðumenn sína með afli skynsemdarinnar enn ákafa eða þrái.

Það er sýnt að Franklín var bæði lærður maður og stjórnvitur, en aldrei skína geislar mannkosta hans bjartar enn þegar litið er á hann meðal alþýðu, þegar hann er borinn saman við hvörn óbreyttan í fèlagi manna og þjóða; þá má heita hann hafi verið fráhær. Naumast mun nokkurr maður hafa verið *þarfari* enn hann um æfina. Eínginn sá hlutur gekk í gegnum hendur hans, að ekki batnaði við það; eínginn maður umgekst hann svá, að ekki lærði vísdóm að honum. Svo var hvast námsmegin hans, og fjölfræði svo mikil, að hann gat talað við hvörn sem vera skyldi um það sem sá maður hafði lagt fyrir sig, hvað sem það var. Hann gat lífgað hvörja samræðu með frásögum, og lokið hvörri frásögu með heimfærslu til þess sem um var talað. Til hègóma og óhófs eyddi hann ekki einu augnabliki af tíð sinni, ekki hálf-

skildíngs virði af eignm sínum; þó var hann jafnan fús á að greiða allan þann kostnað sem sýslu hans fylgdi, svo hann gæti haft hana á hendi með sóma. Gjafir hans til alþjóðlegra fyrirtækja sýndu að hann var einginn nirfill, og hugulsemi hans við marga aðra sýnir viðkvæmni og yl hjartans. Allt líferni hans má með sanni heita samfeld prèdikun móti iðjuleysi, óhófi og metnaði, og helzta viðleitni hans var, að vekja til iðni, ráðdeildar og hófsemi, og til að gegna öllum skyldum þeim sem mönnum ríður mest á að gegnt sè. Í vísindum hefði Franklín mátt verða maki Njútons, í lögviti Líkúrgar Spartverja konúngs, en hann var ágætari maður enn hvörr þeirra um sig, því hann sameinaði gáfur beggja í framkvæmd vísdóms-reglu þeirrar að gjöra hið góða, en allur lærdómur hugvitsins er lítils virði hjá því.

---

# Auðnuvegurinn*)

Góðfús lesari!

Það er mælt að ritsmiðum komi það hezt allra hluta ef aðrir menn hæla ritum þeirra; þú getur þá ímyndað þèr feginleik minn, þegar mèr bar að höndum það sem jeg nú mun segja þèr: Jeg reið um daginn hjá miklum manngrúa sem var kominn saman til að kaupa vöru á yfirboðsþíngi**). Jeg reið að hópnum og stöðvaði hest minn. Þíngið var ekki sett, og stóðu menn og töluðust við. Þar var rædt um aldarfar, og hvörsu illt það væri. „Abraham gamli!" sagði maður einn í flokkinum, og kallaði til öldúngs nokkurs; sá var fátæklega búinn, en þó hreinlega, og hvítur fyrir hærum: „segðu oss nú hvað þèr virðist um aldarfar þetta! helduröu ekki að álögur svo miklar muni eyða landið? hvönær ætli vèr fáum risið undir slíku? hvað er ráð þitt oss til handa? — Þá reis Abraham hinn gamli upp í sæti sínu, og svaraði: „Ef yður fýsir að heyra mitt ráð, þá skal það verða stutt og gott, því hygginn maður ræður hálfkveðna vísu, segir Snauði-Ríkarður". Nú beiddu allir hann í einu hljóði að segja til hvað honum litist; síðan slógu þeir hríng um hann, en hann tók til orða:

---

*) sbr. 43 bls.

**) Yfirboðsþing þykir mega nefna *Auction*, en undirboðsþing *Licitation*.

„Satt hafi þèr að mæla, kærir vinir! skattarnir eru býsna þúngir, og það væri þó sök sèr ef vèr ættum ekki að gjalda öðrum enn konúnginum; en aðrir skattar liggja á oss þaraðauki, sem miður fer, og verða mörgum af oss örðugri. Leti tekur af oss tvöfaldan skatt, hègómaskapur þrefaldan, og heimskan fjórfaldan; en eitt er verst að þessum sköttum, og það er að yfirvöldin geta ekki lækkað þá nè lètt þeim af. Nú nú samt! heyrum á góð ráð! gjöra mun mega eitthvað við þetta einsog annað. Guð bjargar þeim sèr sjálfur bjargar segir Ríkarður snauði.

Ætli yður þækti sá ekki grimmur konúngur, sem lèti þegna sína vinna sèr um tíunda part úr æfi þeirra? en letin leggur miklu meira undir sig af tíð vorri enn það; Leti styttir lífdagana, því hún leiðir með sèr sóttir. Leti er ryð það sem eyðir fljótar enn erviði slítur, en brúkaður lykill er bezt skýgður segir Ríkarður snauði. Elskir þú lífið þá eyð ekki tíð þinni, því það er spunnið úr henni. Hvörsu laungum tíma eyðum vèr ekki einúngis með ofsvefni um þörf vora fram? vèr hugsum ekki til orða Ríkarðar, þar hann segir: Sofandi refur fær sjaldan bráðar; og: nógur er svefutíminn í gröfinni.

Sè nú tíðin dýrmætust allra hluta, þá er það hið mesta óhóf að eyða henni, því: aldrei hittir þú horfna tíð; og: það sem oss þykir nógur tími er naumur tími, segir Snauði-Ríkarður. Á fætur! starfaðu eitthvað, og starfaðu eitthvað þarft! Vertu fljótur til vinnu

þinnar, þá afkastar þú miklu þó þú gángir ekki framaf þèr. Sigalegum manni verður allt þúngt, ötulum allt lètt. Farirðu seint á fætur, færðu stuttan dag; fyrr enn þú ert alvarlega seztur við er farið að rökkva. Letin er svo seinfær að örbyrgð nær henni fljótt. Hastaðu á verk þitt svo það hasti ekki á þig! Morgunstund hefir gull í mund. Snemma að hátta og snemma á fætur! það hressir sál og líkama, segir Snauði-Ríkarður.

Vèr óskum og vonum að aldarfar batni; en hvað dugir það? nei! vèr eigum að bæta það sjálfir! það hragð er ekki svo torveldt sem vèr hyggjum, ef vèr nennum að taka á aflinu. Atorkan þarf ekki óskastundar; Sá sem ætlar að lifa á voninni hann verður að deya fastandi. Ekkert fæst fyrir ekki neitt. Hendurnar eru jarðnæðið mitt, segir Snauði-Ríkarður, en jeg bæti við: að jarðnæðinu fylgja skattarnir. Sá sem kann verknað (handverk), hann á býsna fjárstofu, og sá sem hefir atvinnuveg hann hefir heiðarlegt embætti og arðsamt, segir Ríkarður snauði. En verknaðurinn þarf vinnusamar hendur, og atvinnuvegurinn gaumgæfni, því annars hrökkur hvörugt fyrir sköttunum. Sèrtu iðinn verður þèr ekki sultur að bana, því hjá iðnum manni kemur sultur á skjáinn en aldrei inn úr dyrum, segir Ríkarður. Ekki koma heldur rèttarþjónar inn úr dyrum hans (til að taka skatt af honum með ofríki), því iðni rýrir skuldir en hingsið eykur

þær. Þó þèr ekki hafi heppnast að finna dalakút, nè að fá arf eptir frændur þína, láttu það ekki á þèr festa! minnstu þess að iðnin er móðir gæfunnár. Ötull maður hefir mestan gróða. Allt gefur guð þeim iðjusuma: Plægðu lángt og djúpt meðan Lati-Simbi lúrir, þá færðu nóg handa þèr og aflögu handa öðrum, segir Ríkarður snauði. Vinndu í dag því þú veizt ekki hvað verða kann á morgun. Eitt í dag er betra enn tvennt á morgun, segir Snauði-Ríkarður, og fresta þú ekki til morguns því sem þú mátt gjört hafa í dag. Ef þú ættir góðan húsbónda, mundir þú þá ekki skammast þín að láta hann hitta þig með hendur í vösum? en nú ertu sjálfur herra þinn; þess heldur máttu þá skammast þín að hitta sjálfan þig latan og iðjulausan, þar sem þú hefir svo mikið að starfa fyrir sjálfan þig og þína, fyrir konúng þinn og föðurland! Vertu kvikur við vinnu þína, en klemmdu ekki fíngurnar! Ef kötturinn hefði vetlínga, veiddi hann ekki mýs, segir Snauði-Ríkarður. Satt er það! mikið er að vinna í veröldinni, og vera má þú hafir eitthvað handa á milli, vertu þá fastur við, og þá geugur fljótt á. Dropinn holar steininn. Smámsaman nartaði músin sundur reiptaglið. Smá högg fella stór trè segir Ríkarður snauði.

Mèr heyrist sem nokkrir yðar segi: Megum vèr þá aldrei fara í hægðum vorum? megum vèr aldrei taka á oss náðir? Jeg svara: jú; en heyrið vinir! hvað Snauði-Ríkarður segir: Ef þú vilt fá náðir þá notaðu daginn vel! ónýttu ekki

eyktina meðan þú ert óviss um stundina. Góður náðatími er sá tími sem gjöra má margt gott á. Iðinn maður hefir nóga náðatíma, en Lati-Simbi hefir þá aldrei, því Ríkarði þykir það tvennt ólíkt að hafa náðutíma, og að hafa náðir alla daga. Margur ætlaði ómakslaust að lifa af viti sínu, en eigurnar hrukku upp af og maðurinn hrökk niðraf.. Iðnin apturámóti veitir manni hagsældir, nægtir og virðíng. Forðastu skemtanina! þá muntu sjá hve ákaflega hún eltir þig; Iðin kóngurvofa vefur mestan vef, segir Ríkarður, og nú býður hvörr maður mèr góðan dag að fyrra bragði, síðan jeg eignaðist eina kú og einn á.

II. En, vinir góðir!, það er ekki einhlýtt að vèr sèum iðnir, vèr verðum þaraðauki að vera stöðugir, fastheldnir og aðgætnir, vèr verðum að líta sjálfir eptir því sem vort er, og ekki ætla ofmjög uppá aðra. Að flytja opt bú, og flytja opt trè, sá jeg sjaldan verða fyrir þrifum, segir Ríkarður snauði. Þrír flutníngar eru á við einn bruna. Vertu við vinnu þína, segir hann annarstaðar, þá verður einnig vinnan hjú þèr. Ef þú vilt að eyrindi þínn verði vel lokið þá farðu sjálfur, en ef þú hirðir ekki um það þá sendu annan! Ef þú vilt plægja þèr inn penínga þá plægðu sjálfur! Augu húsbóndans gjöra meiru enn hendur hans báðar. Ekki að hirða er verra enn ekki að kunna. Haf gát á hjúum þínum, annars færðu þeim lyklana að penínga-

hirzlu þinni. Margur maður hefir liðið tjón fyrir það hann treysti ofmjög trúmennsku annarra. Í kaupskap þessarar veraldar á vantrúin að bjarga þèr en ekki trúin. Hvörr hefir gott af að sjá um sitt. Viltu þú eignast trúan þjón, sem þèr sè geðfeldur, þá þjónaðu þèr sjálfur. Lítill brestur gjörir opt stóran skaða. Af naglaleysi týndist skeifan, af skeifuleysi týndist hesturinn, af hestleysi týndist riddarinn, fjandmaður hans náði honum og drap hann; það kom allt af því hann hirðti ekki hestskónaglann, segir Ríkarður snauði.

III. Þetta nægir nú, vinir góðir! um iðni þá og aðgætni sem vèr verðum að stunda í öllu; en vèr verðum einnig að stunda sparsemi, ef vèr viljum vera vissir um að hafa nokkurt gagn af iðninni. Sá sem ekki kann að fara vel með ávinníng sinn, hann má vinna einsog húðarjálkur alla sína lífdaga, því hann deyr samt öllum hvimleiður. Feitt borðhald gjörir magran arf. Margur gekk frá jörð sinni af því konan gleymdi að spinna og vefa vegna kaffesins, og maðurinn að slá og róa vegna flöskunnar, segir Ríkarður. Viltu þú eiga peninga, þá hugsaðu eins ríkt um að spara einsog um að safna. Sá sem ekki geymir einskildínginn eignast aldrei tvískildínginn. Aldrei græddi Spánn á Vesturheimi, því ávallt gekk meira út enn inn.

Þessvegna er bezt vinir mínir! að hætta öllum þessum hègóma kostnaði, þá munuð þèr ekki

þurfa að kvarta svo mjög yfir aldarfarinu, skött-unum og búskapnum. Lauslæti, drykkjusvall og prettir þýngja neyðina, en lètta pýngj-una. það sem ein heimska kostar er nóg handa tveimur börnum. þú heldur kannskè að dálítil hressíng, dálítill kaffesopi, dálítið betri föt, dálítið sælgæti einstakasinnum muni aungu, en gáðu að því að margt smátt gjörir eitt stórt. Varaðu þig á smákostnaði. Lítill leki sökkur stórn skipi, segir Snauði-Ríkarður, og matvendni leitar að vonarvöl. Hinn heimski heldur veizlu, en hinn vitri læt-ur bjóða sèr.

þèr erúð komnir híngað á yfirboðsþíngið, vinir mínir! og sjáið að hèr á að selja ýmislegt skran, skrautvöru og hègóma. þèr segið að þetta sèu góðir hlutir; en gáið þèr að yður að þeir verði yður ekki vondir hlutir. þèr hyggist að fá góð kaup, og vera má yður heppnist að ná kaupi á ymsu undir verði þess; en það er yður ofdýrt samt ef þèr þarfnist þess ekki. Ef þú kaupir það sem þú þarfnast ekki, þá neyð-istu til að selja það sem þú þarfnast: Hugsaðu þig ávallt um góðkaupin! segir Ríkarður snauði. Má vera sú sè meiníng hans, að verðið sè ekki eins gott og látið er í veðri vaka, eða þá hitt, að þú munir tefjast frá skyldu-verkum þínum, og þar muni þèr verða tjón að, því á öðrum stað segir hann: Góð kaup gjöra mörgum manni tjón, og enn: Heimska er að kaupa það sem gjalda má fyrir bæði gull og gremi. Heimska þessi verður þó al-

þýðu daglega á yfirboðsþíngum, af því hún gleymir því sem Ríkarður segir. Til þess að bera silkið útaná sèr gánga margir með soltinn maga, og kona og börn eiga ekki málúng matar. Silki og flaugel slökkva eld á arni, segir Ríkarður snauði. Hvörugt þessara hluta er mönnum nauðsyn nè hagsæld, og þó eru margir að kvelja sig til að afla þeirra, af því þeir eru fagrir álitum. Heimska þessi flær opt auðuga menn, svo þeir verða að síðustu að taka lán hjá þeim sem þeir fyrirlitu áður, en þeir hafa komið undir sig fótunum með iðni og sparsemi. Af þessu er auðsært að hærri er bóndi upprèttur enn höfðíngi á knjám, einsog Ríkarður segir. Vera má að sumir hafi átt góðan stofn í fyrstu; en þeim bættist hann sofandi, og þeir hugsuðu ekki um að hann var þannig undir kominn. Nú er dagur, segja þeir, nóttin kemur ekki bráðlega; þar sem mikið er fyrir til aftektar þar munar ekki um hvað eitt smáræði. En — taktu alltjafnt mjöl úr tunnunni og bættu aungu í aptur, þá sèrðu bráðum botninn, segir Ríkarður, og þegar tunnan er orðin tóm þá færðu að vita mjölkaupin. Þetta mættu menn allt vita fyrir ef þeir gæfu gaum að orðum Ríkarðar: Ef þú vilt vita hvað undir peníngum er komið þá farðu og taktu að láni, því lán er gleðirán. Um þetta mun einnig sá komast að raun sem lánar þesskonar mönnum, ef hann ætlar að fá penínga sína nokkurntíma aptur. — Ríkarður hefir sagt fleyri sannyrði enn þessi, til að mynda: Sá sem vill fljúga hátt fellur opt í

saur niður; spyrðu pýngju þína ráða fyrrenn þú spyr girnd þína. Hègómasemin biður opt eins hátt og ørbirgðin, en miklu ólmlegar. Hafir þú fengið þèr einn grip fallegan, þá verður þú að bæta tíu við, svo hvað verði öðru samboðið. Það er hægra að kefja fyrstu girndina, enn að fylla vilja þeirra sem á eptir koma. Þegar fátæki maðurinn fer að apa eptir hinum auðuga, er hann eins sjálfheimskur og vatnspaddan sem fór að þemba sig út til að verða eins stór og kýrin. Stórskipum er óhætt að leggja út á djúpleiðið, en smábátum er hollast að vera nálægt landi. — Heimska þessi fær þó bráðum laun sín. Sá sem hefir hègómadýrðina til middegisverðar, hann verður að láta sèr nægja fyrirlitníngu í kvöldmat, segir Ríkarður snauði. Hègómaskapurinn sat um morgnninn að með nægtinni, um míddegið með örbirgðinni, um kvöldið með forsmáninni. Þaraðauki, þegar öllu er á botninn hvolft, hvört gagn gjörir þá þessi hin hègómlega viðleitni, að vilja sýnast það sem maður ekki er, og leggja svo mikið í sölurnar til þess? hvörki styrkir það heilsu þína nè sviptir þig sóttum; það kallar á ógæfuna hún skuli flýta sèr.

En hvörsu heimskulegt er þá að safna skuldum fyrir slíkan óþarfa? hèrna á yfirboðsþínginu fær maður sex mánaða gjaldfrest; þessvegna er hèr svo fjölmennt. Vèr getum ekki sèð vel af peníngunum nú þegar, en vèr getum fengið skraut þetta allt að einu. Hugsaðu samt um hvað þú gjörir

þegar þú hleypir þèr í skuld! þú gefur öðrum vald yfir frelsi þínu. Getirðu ekki goldið þegar til á að taka, þá máttu fyrirverða þig frammi fyrir þeim sem hjá þèr á; þú talar við hann með ótta, þú færir þig undan með aumkunarlegum, vesældarlegum barlómi, venur þig smámsaman á að segja ósatt, þángaðtil þú fellur seinast í nót hinnar svívirðilegu lýgi, því annarr lösturinn er að ljúga, sá fyrsti er að safna skuldum. Væri ekki hræðilegt að hugsa til þessa fyrir frjálsborinn dánumann? að hann skyldi verða að skammast sín? hann skyldi verða að fyrirverða sig að líta uppá aðra menn? en örbirgð sviptir opt dug og einurð. Tómur poki á bágt með að standa upprèttur, segir Ríkarður snanði. Ef konúngur legði fjötur og þrældóm við að gánga í skrautklæðum, hvörju ætli þú svaraðir þá? Mundi þèr ekki verða að orði: Jeg er frjáls maður, og ætla að klæða mig einsog mèr sjálfum lízt; lögmál þetta er órèttvíst og konúngur grimmur. Samt liggur þèr við að leggja þig sjálfur undir samaháttar grimd, þegar þú safnar skuld vegna slíks fatnaðar. Skuldheimtumaður þinn hefir frelsi þitt í hendi sèr; hann getur látið kasta þèr í fjötur ef hann vill, þángaðtil þú geldur skuld þína. Vera má þú leggir skuldarkröfuna í handraðann og gleymir henni, en Ríkarður segir: skuldheimtumaður er minnugur mjög, hann man jafnan betur enn skuldaþrjótur. Skuldheimtumenn eru hjátrúarmenn mestu; þeir eru æfinlega svo fastir á tilteknum dögum og stundum. Fresturinn er á enda áður enn þú

gaumgæfir það, og krafan kemur fyrr enn þú ert viðbúinn að verða við henni. En þá nú svo væri að þú hugsaðir til skuldarinnar, þá verður ekki svo mikið úr frestinum þó þèr í fyrstu hafi kunnað að þykja hann lángur; þèr mun sýnast sem tíðin hafi fengið vængi, ekki einúngis á herðarblöðin heldur og einnig á hælana. Sá á stutta föstu sem á að gjalda skuld á páskum, segir Ríkarður snauði. Vera má þèr sýnist góður hagur þinn sem stendur, svo þú megir að skaðlausu sleppa taumhaldinu á sjálfum þèr, en mundu eptir hvað Snauði-Ríkarður segir: Sparaðu meðan þú mátt handa neyðurtíð og ellitíð; þú heiðbirta sè að morgni getur verið komin þoka að kvöldi. Ávinníngurinn verður optastnær stopull og skammvinnur, kostnaðurinn stöðugur og viss um alla æfi þína. Hægra er að hyggja tvenn hlóð enn halda eldi í einum, segir Ríkarður. Betra er að fara soltinn til svefns enn skuldugur á fætur. Hirðtu vel það sem þú átt og vinndu þèr inn, sú list gjörir gull úr blýi. Þegar þú hefir fundið þennan speki-stein*), þá muntu ekki kvarta lengur um bágt aldarfar og ofþúngar álögur.

IV. Þetta er nú, vinir góðir! það sem skynsemin og reynslan kennir. En þegar á allt er litið, þá treystið ekki ofmjög á iðni, sparsemi og framsýni. Það eru alltsaman góðir kostir, en þeir

*) Margir sèrvitríngar á miðöldunum þóktust hafa stein er þeir nefndu spekistein (lapis philosophorum), og kvaðust geta gjört með honum gull úr hvörjum málmi sem vera skyldi.

geta brugðist þegar guðs blessan fylgir þeim ekki. Biðið þessvegna guð auðmjúklega um þessa blessan, og verið ekki harðgeðja við þá sem yður þykir vanta hana um stundarsakir; huggið þá heldur og hjálpið þeim. Gáið þess að Job leið fyrst margt illt, en síðan gaf guð honum auðnu aptur.

Að endíngu verð jeg að segja yður þessi orð Ríkarðar: það er dýrkeypt að læra í skóla reynslunnar, en glópurinn getur hvörgi lært nema þar; Og þó er sá skóli ekki einhlýtur, því góð ráð má gefa en ekki er hægt að gefa verkin. Minnist þess að sá sem ekki tekur góðum ráðum honum verður öll hjálp að aungu. Viljirðu ekki læra þá verðurðu að þreifa á, segir Ríkarður snauði".

Þannig lauk öldúngurinn ræðu sinni. Alþýða hlýddi á með athygli, og gjörði góðan róm að því sem hann sagði, en síðan breytti hún þvert á móti, einsog eptir hvörja prèdikun. Yfirboðsþíngið var sett og allir tóku að bjóða í kappi.

Jeg sá að maðurinn hafði lesið með athygli almanökin mín, og nákvæmlega skipað í huga sínum því sem jeg hafði ritað í kverunum viðvíkjandi þessu efni, um 25 ár. Sumum hefir að líkindum þókt leiðinlegt að heyra hann alltaf skírskota til annars manns; en mèr þókti það hin mesta fremd, þó jeg vissi að jeg ætti ekki tíunda partinn af öllum þeim vísdómi sem hann eignaði mèr, því jeg hafði einúngis safnað því sem skynsamir menn ymsra þjóða höfðu á ymsum öldum áður sagt. Jeg einsetti mèr samt að færa mèr í nyt ítrekan heilræðanna. Jeg hafði ásett að kaupa mèr kjóls-

efni; en nú reið jeg á burt og einsetti mèr að gánga í forna kjólnum ennþá um hríð. Vilir þú, lesari góður! fylgja mínu dæmi, þá verður þinn ábati eins mikill og minn. Jeg er, einsog vant er, þèr innanhandar.

*Ríkarður snauði.*

## Ráð handa frumbýlíngum.

Eptir ósk þinni skrifa jeg nú upp handa þèr fáeinar bendíngar sem hafa orðið mèr að góðu gagni; þær verða þèr það eflaust líka ef þú fylgir þeim.

Gáðu þess að tíð er peníngar. Gjörum við að einhvörr geti unnið sèr inn 2 dali á dag en slóri iðjulans hálfan daginn; gjörum við hann eyði einúngis einu marki; þá hefir hann reyndar eydt eða kastað burtu einum dal auk marksins.

Gáðu þess að gjaldsfrestur (Credit) er peníngar. Þegar annarr maður leyfir mèr fè sitt framyfir tiltekin tíma, þá gefur hann mèr leiguna frá gjalddaga, eða hann gefur mèr það sem jeg get grædt á fènu. Þetta getur dregið sig saman þegar margir vilja lána manni, og maður vill nota sèr það ráðvandlega.

Gáðu þess að peníngar eru yfrið frjófsamir; peníngar geta af sèr peregnínga; þessir geta aptur aðra, og þannig fjölga þeir óðum. Víxlaðu 5 dölum, svo fær þú 6 aptur; víxlirðu þeim þá færðu 7, og þannig gengur koll af kolli þángaðtil þú fær þúsund. Því meiri sem stofninn er, því meiri ábati verður að hvörri víxlan, og ávinníngurinn margfaldast því meir. Sá sem drepur þúngaða

gyltu hann drepur með henni allt afkvæmi hennar í þúsundasta lið. Sá sem sóar einni spesíu hann sóar öllu því gagni sem hann gat haft af henni, kannske mörgum þúsundum.

Gáðu þess að sá sem eyðir 50 dölum um árið hann þarf einúngis að eyða 13 skildíngum á dag; fyrir þetta lítilræði, sem hæglega má eyða með tímaspilli og smákostnaði, getur sá sem gjaldfrest hefir alltaf haft 1000 dali millum handa; en slíkur stofn getur aflað mikils, þegar ötull maður beitir honum með fylgi.

Gáðu málsháttarins: Skuldviss maður á ráð á hvörs manns pýngju. Sá sem er kunnur að því að hann gjaldi ráðvandlega þegar hann lofar, hann á ráð á öllu því sem vinir hans mega án vera, hvönær sem vera skal. Þetta getur opt orðið að miklu gagni. Næst iðni og sparsemi er ekkert betra úngum manni til orðs enn orðheldni og ráðvendni í öllu. Varastu að halda lánsfè nokkru sinni framyfir tiltekinn tíma, svo vinir þínir neiti þèr ekki um hjálp þegar þèr liggur á. Það er margt, og sumt smámunir í fyrsta áliti, sem styrkja lánstraust manna: Komist skuldheimtumaður þinn að því, að þú sèrt snemma á ferli, og farir seint að hátta frá vinnu þinni, þá þykir honum ekki fyrir að líða þig misseristíma; en sjái hann þig á slóri eða slarki þegar þú ættir að vinna, þá sendir hann eptir peníngum sínum það fljótast sem hann má; hann vill heldur krefjast þeirra nógu snemma heldurenn verða seinna að sækja þá í þrotabú þitt. Gjaldir þú ráðvandlega, þá sýnir það einnig, að þú manst til skuldar

þinnar; það kemur því orði á þig að þú sért gaumgæfinn maður og æruríkur, og verða þá því fleiri til að lána þèr.

Varastu að hugsa að þú eigir sjálfur allt það sem þú hefir handa á milli, og megir fara með það einsog þú vilt. Það er yfirsjón margra þeirra sem taka að láni. Vilir þú forðast það þá skrifaðu nákvæmlega upp tekjur þínar og útgjöld. Það verður þèr að minnsta kosti að svo miklu gagni, að þú kemst að hvörsu undrunarlega fljótt smá-útgjöld draga sig saman; þaraðauki færðu að sjá hvað sparað hefði mátt vera, og hvað síðan megi spara án þess þú missir mikils í.

Í fám orðum að segja: gróða vegurinn er, ef þú gefur gaum að honum, rennslèttur einsog flötur. Það eru einkum tvö orð sem á ríður: Iðni og sparsemi; það er með öðrum orðum: eyddu hvörki tíð þinni nè fè, en hafðu hagnað á hvörutveggja sem þú mátt mestan. Án iðni og sparsemi stoðar ekkert: með þeim stoðar allt. Sá sem vinnur sèr inn allt hvað hann getur á ráðvandan hátt, og fer svo sparsamlega með ávinníng sinn, hann verður eflaust auðugur maður — nema stjórnari heimsins, sem hvörr maður á að biðja blessunar á vinnu sinni, hafi í vísdómi sínum ætlað annað.

*Gamall búmaður.*

## Um sanna farsæld.

(Brot.)

Farsældarlaungun er djúpsett í náttúru mannsins; veröldin öll er á ferð og flaug að leita henn-

ar; allir stefna eptir henni, hvörsu frábreyttar hugmyndir sem þeir smíða sèr um hana, hvörsu ólíkar brautir sem þeir velja sèr til að leita hennar á.

Einginn kýs sèr hið illa af því það sè illt, hvörr sá sem velur það, ímyndar sèr það sè gott.

Skynsemin sýnir oss náttúru hlutanna og tilgáng, girndin skoðar þá einsog þeir sýnast í snöggu áliti; þegar hún ræður oss lítum vèr ekki fram í veginn.

Aldrei getur maður verið að öllu ánægður með sjálfum sèr ef maður raskar mundángshófinu meðal gáfna sálarinnar, eða ef maður umturnar grundvelli geðslagsins og staðfesti þess. Sönn farsæld, einsog sönn fegurð, má einúngis spretta af rót reglunnar.

Meðan skynsemi og girnd stríða í hinum innra manni, finnst oss sem vèr alltjafnt sèum farsældarlausir, og því ákafari verður sú tilfinníng sem stríðið er meira. Þegar girndin hefir unnið sigur, og kúgað skynsemina svo, að hún sjaldan vekur neina þrætu við hina, þá má vera vèr sèum ánægðir með köflum, en sú ánægja kemur frá hinni óæðri náttúru í oss, frá holdlegu en ekki andlegu náttúrunni. — Þvílík farsæld hlýtur því að vera lítilfjörleg og ófullkomin í samjöfnuði við þá sem hin æðri náttúran má veita.

Tökum eptir einhvörri tilhneiging eða girnd sem ekki á skyldt við dygðina, og munum vèr bráðt sanna, að hún leiðir ekki sanna farsæld við hönd sèr. Öfundin, til að mynda: henni er svo varið að hún hefir aldrei frið nè ró; drambsemin

tekur allt upp fyrir ertni og hroka; ágirndinni fylgir áhyggjusemi og húksorg; metorðagirndin verður ósjaldan tæld, en aldrei leiðir hún til þeirrar farsældar sem hressir oss og gjörir oss ánægða; hún er því þorstlátari sem hún svolgrar meira, og hvað sem vèr leggjum í sölurnar til að metta hana um stundarsakir, er ekki nema til að æsa hana meir enn áður.

Girndin límir sig allt of fastlega við hina jarðnesku hlutina, þessvegna getur sálin aldrei haft frið til að jafna sig. Sönn og fullkomin ánægja fæst ekki nema maður láti sèr jafnkært um jarðneska muni, feli sig í öllu forsjón guðs á vald, og hafi óbrigðula von um farsæld í hinu komanda lífi. Dygðin er bezta vörn móti allri ástríðu sem hèr er að búast við; hún er bezta meðal til að lètta á oss þúnganum, til að vekja tilfinnínguna á allri þeirri farsæld sem dvölin hèr á jörðu má veita.

Sönn farsæld kemur einmiðt innanað. Hún er ekki hót bundin við hið ytra, nema að því leiti sem líf og heilsa er bundin við það.

Standi hugur vor til veraldlegra hluta, þá verða óskir vorar aldrei heyrðar, en standi hugur vor til hins komanda lífs, þá er vonin einsömul ósegjanlega miklu dýrmætari enn not allra jarðneskra gæða.

Sanna farsæld má einúngis ávinna með því að vera fastheldinn við dygðina, og eiga vitnisburð góðrar samvizku. Komi ekki aðgætni, forsjá og andleg víðskygni fram í athöfnum vorum þá eru þær ekki skynsömum verum samboðnar, og geta

þá heldur ekki leidt til farsældar sem er við þvílíkra hæfi.

## Elskaðu bræður þína.

(Dæmisaga.)

1. Á þeim dögum var einginn í landinu sem kunni að vinna járn; og kaupmenn úr Miðíanslandi fóru um með úlfaldalest, og fluttu á úlföldunum jurtir og myrru, smyrsl og járnvörn. 2. Þá keypti Rúben öxi af kaupmönnunum, og þókti stórum vænt um öxina, því eingin var önnur til í búi föður hans. 3. Eitthvört sinni talaði Símeon til Rúbens bróður síns: Bróðir minn góður! ljáðu mèr öxi þína! jeg bið þig nú vel! en Rúben sagði nei, og vildi ekki ljá. 4. Þá gekk Levi að honum og sagði: Bróðir minn góður! gjörðu það fyrir mig að ljá mèr öxi þína! jeg bið þig svo vel sem jeg get! en hann neitaði honum. 5. Þá gekk Júda að Rúbeni, og sagði við hann svofeldum orðum: Mundu eptir því bróðir minn! að við höfum jafnan verið elskir saman: neitaðu mèr ekki um öxina! 6. En Rúben sneri ser undan og neitaði honum einsog hinum. 7. Nokkru síðar bar svo við að Rúben var að höggva trè á árbakka, þá hrökk öxi hans út á ána svo hann náði henni ekki aptur. 8. En Símeon, Levi og Júda höfðu sendt mann eptir kaupmönnunum, og keypt sèr sína öxina hvörr. 9. Þá gekk Rúben að Símeoni og sagði við hann: Hana! nú hefi jeg mist öxina mína, og hefi ekki lokið verki mínu. Ljáðu mèr nú öxi! jeg bið þig! 10. En ímeon svaraði þessum orðum: Þú lèðir mèr ekki öxina þína, og því ætla jeg ekki að ljá þèr mína.

11. Þá gekk Rúben að Levi, og sagði við hann: Bróðir minn! nú sèrðu hvað jeg hefi mist, og hvað mèr liggur á; gjörðu fyrir bón mína að ljá mèr öxi! 12. En Levi setti ofaní við hann, og sagði: Þó þú ekki vildir ljá mèr öxi þína þegar jeg bað um hana, þá ætla jeg nú að vera betri enn þú og ljá þèr mína. 13. Rúben hrygðist við þessi orð og fyrirvarð sig, af því að Levi setti ofaní við hann, og hann sneri sèr frá honum og tók ekki við öxinni, heldur fór að leita Júda bróður síns. 14. En þegar hann kom svo nærri að Júda sá í andlit honum, og sá hvörsu hryggur hann var og feilinn, þa sagði hann við hann að fyrra bragði: Bróðir minn! jeg sè hvað þú hefir mist; en hvað þarf það að ángra þig? Sjáðu! á jeg ekki öxi þarna, sem er nóg hánda okkur báðum? Taktu við henni! gjörðu það fyrir mig! og farðu með einsog þú eigir sjálfur! 15. Þá fèll Rúben um háls honum og kysti hann grátandi og sagði: Mikil er ástúð þín, en meiri er þó gæzka þín að fyrirgefa mèr. Þú ert sannur bróðir minn, og þig skal jeg elska meðan jeg lifi. 16. Júda svaraði: Við skulum líka elska hina bræður okkar; erum vèr ekki allir af einu sama blóði? 17. Þennan atburð sá Jósep, og leiddi þá fram fyrir Jakob, föður þeirra. 18. Þá sagði Jakob: Rúben gjörði rángt, en hann iðraðist eptir; Símeon gjörði einnig rángt, og Levi er ekki sýkn. 19. En Júda hefir konúnglegt hjartalag! Júda hefir konúngs sálu! Börn föður hans skulu beygja sig fyrir honum og hann skal drottna yfir bræðrum sínum.

## Vertu aldrej grimmur við þá sem eru annars hugarfars enn þú!

(Dæmisaga.)

1. það bar við eitt sinni, að Abraham sat í tjaldsdyrum sínum um sólsetur. 2. þá kom maður bjúgur af elli um götu þá sem lág af eyðimörku, og studdist við staf. 3. þá stóð Abraham upp, gekk á móti honum og sagði: Gjörðu svo vel að koma inn! taktu fótlaugar og vertu hjá mèr í nótt! þú getur farið snemma á fætur á morgun, og haldið svo áfram leiðar þinnar. 4. En maðurinn svaraði: nei! jeg ætla að verða hèr undir trènu. 5. þá laðaði Abraham hann, svo hann snerist við og gekk inn í tjaldið; síðan sókti Abraham ósýrð brauð og snæddu þeir. 6. En þegar Abraham sá að hinn ókunni maður þakkaði ekki guði, sagði hann við hann: Hvað kemur til þú ákallar ekki hinn æzta guð skapara himins og jarðar? 7. Maðurinn svaraði honum: Ekki tilbið jeg þann guð sem þú talar um, nè ákálla nafn hans, því jeg hefi sjálfur gjört mèr guð, hann býr í húsi mínu alla daga, og veitir mèr alla hluti sem jeg þarfnast. 8. þá reiddist Abraham hinum ókunna manni, og stóð upp og laust hann, og rak hann á burt útá eyðimörku. 9. En þegar miðnætti var komið þá kom raust drottins að eyrum Abrahami og sagði: Abraham! hvar er hinn ókunni maður? 10. En Abraham svaraði þessum orðum: Drottinn! hann vildi hvörki tilbiðja þig nè ákalla nafn þitt, og þessvegna rak jeg hann úr augsýn mèr útá eyðimörku. 11. þá svaraði drottinn: Hundrað níutýgi og átta

ár hefi jeg sýnt honum miskun og klædt hann, þó hann hafi verið mèr þverbrotinn, en þú máttir ekki þola hann nætur-sakir, og ert þó sjálfur syndugur. 12. Þá sagði Abraham: Láttu ekki reiði þína, drottinn minn! æsast gegn þjóni þínum! já! jeg hefi syndgað! en jeg grátbæni þig um fyrirgefníngu. 13. Og Abraham fór á fætur og útá eyðimörku, og leitaði vandlega að hinum ókunna manni, fann hann og færði hann heim í tjald sitt, hann var þá vingjarnlegur og leysti gest sinn út með gjöfum morguninn eptir. 14. Í öðru sinni talaði drottinn til Abrahams, og sagði við hann: Vegna þessarar syndar þinnar skal afkvæmi þitt vera 400 ár í ánauð í ókunnu landi. 15. En vegna iðrunar þinnar vil jeg leysa það úr ánauð, og það skal fara þaðan úr landi með miklu veldi, með glöðu hjarta og med stór-auðæfum.

## Um vinamissir.

Bræðraborg þann 23ja Febr. 1756.

Við höfum mist hjartkjæran, dýrmætan náfrænda og vin — en guð og náttúran hafa einusinni lagt svo fyrir, að menn verða að leggja niður þessa hina dauðlegu líkami, þegar sálin á að gánga inn í hið sanna líf. Vèr lifum hèr einsog fóstrið, ástand vort hèr er einúngis undirbúníngur lífsins. Óðar enn skepnan er fullfædd er hún önduð. Hvörsvegna eigum vèr þá að syrgja, þegar vèr vitum að barn fæðist hinum ódauðlegu, þegar vèr vitum að fjölgað hefir um einn meðlim í þeirra fèlagi? — Vèr erum andar — en það var vísdómsfull og góð ráðstöfun guðs að vèr fengum

líkamina að láni á meðan vèr megum hafa gleði af þeim og gagn, til að útvega oss þekkíngu eða verða náúnga vorum að liði. En þegar þeir eru ekki orðnir til þess, þegar þeir eru oss til trafala í stað þess að vera til nota, til harmkvæla í stað gleði, og geta ekki unnið lengur ætlunarverk sitt, þá er það eins gott og heilladrjúgt fyrir oss að vegurinn liggur greiður fyrir sem frelsar oss úr fjötrum þeirra. Sá vegur er dauðinn — Stundum flýtum vèr sjálfir dauða ymsra parta líkams vors, og gjörum það með ásettu ráði. þegar einhvörr limur hefir skaddast og er oss til þjáníngar, en verður ekki læknaður, þá látum vèr fúslega nema hann af líkaminum. Sá sem lætur draga úr sèr tönn er viljugur að missa hana, því þá mínkar verkurinn um leið, eins verður sá sem leggur af sèr allan líkaminn laus við alla sótt, og allt sóttarefni sem hann átti í vændum. — Vinur okkar og vèr allir erum, að heita má, boðnir á ókunnan stað til veizlu, sem standa mun til eylífðar. Hann varð fyrstur ferðbúinn, og er því kominn úndan oss hinum. það var heldur ekki rètt hagkvæmt að vèr færum allir í einn. Hvörsvegna skyldum vèr þá syrgja burtferð hans, þar vèr munum að líkindum sjálfir fara sömu leið áðurenn lángt um líður, og vitum glöggt hvar hann er að hitta.

## Aðferðin að gjöra mikið gott með litlu.

Parísarborg 22 April 1784.

það gengur mèr til hjarta að vita yður svo bágstaddan. Brèfi þessu fylgir ávísunarseðill (An-

vísning) til 100 dala. það er ekki ætlan mín að gefa yður þetta; jeg ætla að lána yður það. þegar þèr eruð kominn heim í átthaga yðar aptur þá bregzt það varla að þèr komið ár yðar svo fyrir borð, að þèr getið goldið skuldir yðar allarsaman. þegar það er frá hendi, og ef þèr vitið þá mann sem eins er ástadt fyrir og yður nú, þá eigið þèr að gjalda mèr með því að lána honum þetta. En þèr eigið að setja uppá við hann undireins að gjalda skuld þá með sama hætti þegar hann má, og kemst í viðlíkt færi. þannig vona jeg að peníngum þessum auðnist að gánga margra handa á milli, áðurenn þeir hitti á óþokka, sem ekki vill leyfa þeim að fara lengra. þetta er bragð nokkurt sem mèr hefir hugsast, til að geta gjört mikið með litlu. Jeg er ekki svo auðugur að jeg geti eydt miklu til góðgjörða; maður verður því að vera brögðóttur, og bera sig að gjöra mikið úr litlu.

*B. F.*

Á landamærum Frakklands og þýðskalands, rúmar tvær þíngmannaleiðir frá Strasborg, þar sem fjallásnum Hochfeld hallar niður að Breuschfljótinu, liggur dalverpi nokkurt, er Steindalur heitir. Í dalnum eru fimm smáþorp og sækja þau öll kirkju að Waldbach. Sveit þessi er af náttúrunni mjög ófrjófsöm, því landið er ekki annað enn stórgrýtt fjall-lendi; enda var þar á miðri átjándu öld örbyrgð mikil manna á milli. Vatnið streymdi niður af ásunum, rótaði upp öllum sverði úr fjallshlíðunum, og safnaðist opt og tíðum í forarpolla niðri í dalnum; á ímsum stöðum voru fen harla breið og skriður allmiklar upp eptir fjallinu. Kornafli var mjög lítill í sveitinni, og jarðeplarækt, er dalbúar þó höfðu numið árið 1709, þreifst ekki heldur, þar hún var ílla stunduð og vanrækt. Dalbúar bjuggu í litlum og óþriflegum kofum, gengu ílla til fara og töluðu nokkurskonar málleysu, blendíng af máli Frakka og þjóðverja; þeir voru aungvu betur staddir í enum andlegu efnum enn hvað líkamans aðbúð snerti. þannig var nú ástatt árið 1767, þegar *Jóhann Fridrik Oberlin* varð prestur í Waldbach. þessum afbragðsmanni tókst með

starfsemi sinni að umbreyta gjörsamlega ástandi sveitarinnar og innbúanna.

Oberlín var fæddur í Strasborg. Faðir hans var þar kennari við skóla nokkurn allmikin; þar nam Oberlín fyrst mentir. Hann var af náttúrufari mjög gefinn fyrir framkvæmdir, og ætlaði í fyrstunni að verða hermaður; en þar hann hafði vanist á trúrækni í uppeldinu, þá gjörði hann það að orðum föður síns að stunda guðfræði. Þetta var einnig eptir skapi hans, þótt lítið bæri á; og hafði laungunin til þess einkum vakist við kenníngar guðfræðíngs nokkurs í Strasborg. Þegar hann hafði lokið lærdómsiðkunum sínum við háskólann og hafði verið barnakennari í nokkur ár, bauðst honum haganlegt og ábatasamt embætti. En um þessar mundir losnaði prestsembættið í Waldbach og kaus Oberlín það fremur enn allt annað, því honum fanst að hann gæti verið þeim auminigja einstæðíngum, er bjuggu í sveitinni, til gagns, og honum virtist að þeir gætu heimtað af sèr kristilegan kærleika. Næstum því 60 ár sat hann á þessu fátæka brauði og hafði þar tekjur mjög litlar. Meðan stóð á stjórnarbiltíngu Frakka var þar messufall mjög lengi. Var þá einnig lokið öllum skyldum safnaðarins við hann og varð Oberlín þá, eins og hann líka eptirleiðis meðfram gjörði, að hafa ofan af fyrir sèr með því að taka börn til fósturs fyrir meðgjöf. Hann yfirgaf samt ekki sóknarbörn sín, heldur var þeim jafnan þarfur með ráði og framkvæmdum, og þótt honum byðust allskonar fagrir kostir, vildi hann fyrir aungvan mun burtu fara. Af þessu er það þegar

auðráðið, að hjá Oberlín var prestsandinn eins og hann á að vera. Fáir munu þeir vera, er hafi eins sannkristið hugarfar og hann; enda mátti sjá það á yfirbragði hans, öllum viðvikum, orðum og verkum, svo það er ekki rángmæli, að einhverr nafnfrægur rithöfundur, er nýlega reit kirkjusögu, hefur kallað hann „helgan mann meðal prótestanta". Hann kappkostaði með sífeldri iðjusemi að innræta sóknarmönnum sínum það hugarfar, sem hann hafði sjálfur; varði hann til þessa öllum kröptum og stuðlaði til þess, ekki einúngis í ræðum sínum, við barnaspurníngar og með biblínlestri, heldur einnig með því að kenna í heimahúsum, þar sem margir voru komnir saman, heimsækja sóknarfólk sitt og tala við einstaka menn. Oberlín var einnig meðal hinna fyrstu á meginlandinu, er gengu í lið með fèlagi því, er Enskir höfðu stofnað til að breiða út helga ritníngu, og laungu áður enn biblíufèlagið var stofnað í Parísarborg, hafði hann, ásamt litlu fèlagi, er hann stofnaði í Steindal, útbýtt þar umhverfis 10,000 exemplörum af ritníngunni og nýa testamentinu; hann hafði ekki einúngis gjört prótestöntum, heldur einnig katólskum það geðfelt að lesa ritnínguna, og tíðkaðist lestur hennar eptir þetta. Hann varð aldrei þreyttur á að hjálpa bágstöddum og veikum; það var opt og tíðum þegar bændur gengu útá akur sinn í birtíngu um morgna, að þeir sáu prestinn gánga upp eptir klettunum, til þess að hugga einhvern veikan og færa honum meðöl, sem hann sjálfur hafði sótt til Strasborgar um nóttina. Þegar menn heyra því lýst, hvernig

Oberlín gegndi prestsembætti sínu, þá hvarflar hugurinn til þeirra tímanna er postularnir lifðu, og er það næsta háleitt að hugsa til þess, undir eins og það vottar hversu mikið vald sannur kærleikur hefur yfir hjörtum manna. Þessi kærleikur kom Oberlín einnig til að skipta sèr af öllu því, er hann sá að efla mátti heill bræðra sinna. Hann var af aungvum smámunum afskiptalaus, og hann áleit það ómissandi til þess að efla guðs ríki, að endurhæta fyrst líf mannanna hið ytra.

Oberlín bar einnig umhyggju fyrir skólakennslunni; og þótt sú iðja egi náskylt við prestsverkin, þá er það samt aðgætsluvert að hverr og einn í söfnuðinum, sem lætur sèr ant um að börn sèu vel frædd, getur í þessu efni orkað miklu, og má það læra af Oberlíns aðferð, hvernig því á að haga. Þegar presturinn, sem var næst á undan Oberlín*), tók við brauðinu, höfðu börnin næstum því aungva kennslu. Þegar hann kom inn í kofa-

*) Þessi prestur hèt Jóhann Stüber, og geta hans aðrir, er ritað hafa æfisögu Oberlíns. Hann var maður guðhræddur og árvakur í embætti sínu og í mörgu áþekkur Oberlín. Hann kippti mörgu í liðinn í Steindal, og þegar hann flutti þaðan var hann frumkvöðull þess að Oberlín tók við brauðinu. Allflestir af prestum þeim, er áður voru í dalnum, voru hirðulausir, og kendu sóknarmönnum ekki annað enn dýraveiðar og brennivínsdrykkju. Þess er getið um einhvern þeirra, að hans var vitjað fyrir veikan mann, en á leiðinni sá hann hèra nálægt veginum; snèri hann þá heim aptur að sækja byssu sína og sagði um leið, „að hèrinn gæti hlaupið burtu frá sèr, en veiki maðurinn gæti það ekki".

Útl.

hreisi það, er menn kölluðu skóla*), hitti hann þar inni nokkur börn, er ekkert höfðu fyrir stafni, og í einu skotinu gamalmenni nokkurt, sem lá í rúminu. Þetta var nú kennarinn barnanna, hann kunni hverki að lesa nè skrifa, og hafði áður verið svínasmali, en þegar hann var orðinn of gamall og hrumur til að gegna því starfi, hafði mönnum þótt það kostnaðarminst að fá hann til að gæta barnanna. Það var með naumindum, að presturinn gat fengið úngan mann, er gott orð fór af, til að takast á hendur að halda skólann, og varla gat hann komið því til leiðar, að bygt væri skólakorn, svo nokkur af börnunum gætu notið þar hinnar nauðsynlegustu fræðslu. Þegar Oberlín kom, leiddi hann sóknarfólki sínu fyrir sjónir að þessi skóli væri of lítill, og lèt á sèr heyra að sig lángaði til að annað eins stórt hús væri bygt að auki. En Steindælir þökkuðu honum þetta aungvu, kváðust ílla ánægðir með þessa uppástúngu, og reyndu með öllu móti að aptra honum að fá þessu áformi fram komið. En Oberlín lèt þetta ekki fæla sig; hann treysti Guði og sínum góða málstað eins og hann var vanur, og þegar hann þóttist vera orðinn sannfærður um að þetta væri gagnlegt, fór hann að safna gjöfum, og af egin sjóði, ásamt með styrk nokkurra vina sinna í Strasborg, tókst honum að fá nóg til að byggja fyrir húsið.

*) Víðasthvar í útlöndum eru skólar handa börnum, og læra þau í skólunum bóklestur, skrift og kristileg fræði, ásamt öðru fleiru.

Útl.

Samt þorði hann ekki að byrja á byggíngunni fyr enn hann hafði skriflega heitið hreppstjórum því, að viðurhald hússins skyldi aldrei verða sóknarmönnum til þýngsla. Nú varð skólinn loks bygður, og sáu Steindælir fljótt hversu þarflegur hann var. Innan fárra ára var búið að byggja skóla í hverju þorpi, og dalbúar hjálpuðu nú Oberlín af öllu megni. Fyrir þessum skólum bar Oberlín sífelda umhyggju. Ávextinum af höfuðstól nokkrum, sem einhverr hafði gefið, skipti hann til verðlauna á milli kennaranna; einkum gaf hann verðlaunin þeim, er tekist hafði að koma tornæmum börnum í stöfunina. Í hverri viku lèt hann börnin einu sinni koma saman í Waldbach, og hlýddi þeim sjálfur yfir. Eldri dreingjunum var einnig kendur búskapur, og áður enn þeir fóru úr skólanum urðu þeir að sýna að þeir kynnu að gróðursetja trè og setja á þau limar af öðrum trjám*). Hjá hverjum skóla stofnaði hann lítilfjörlegt bókasafn. Bækurnar voru lèðar út um þorpin; hann gaf líka sjálfur út nokkrar bækur handa almúga og þar á meðal nokkurskonar almanak, er átti að breiða út skynsamlegri og rèttari hugmyndir meðal almúgans. Einnig útvegaði hann verkfæri það er menn brúka til að sýna með rafurmagnið**) og fleiri þesshattar verk-

*) það gjöra garðyrkjumenn opt við ávaxtartrè, að þeir setja á þau nýsprottnar limar af öðrum trjám er vel þroskast, og bætir það ekki lítið trjáræktina.

Útl.

**) þannig kalla menn eðli það, er sumir hlutir hafa, að ef menn nudda þá fast og bera síðan nærri þeim eitthvað

færi, ásamt með safni af grösum þeim er spretta í sveitinni, og sá hann til að nokkuð væri kent um eðli þeirra. Oberlín hugsaði *líka fyrir* úngbörnunum. Af því foreldrar þeirra höfðu optastnær nóg að starfa á ökrunum eður heima, og gátu ekki haft gát á börnunum eins og þurfti, voru þau sífelt á hlaupum um strætin, og var þá hætt við að þau vendust á margskonar ósiði. Oberlín fèkk því herbergi nokkur og borgaði sjálfur leigu eptir. Þar var tekið á móti börnunum og greindar og hirðusamar konur voru fengnar til að gæta þeirra, var og prestskonan sjálf þeim til aðstoðar. Yngstu börnin voru að leika sèr, en þau sem fær voru til, *lærðu* að prjóna, spinna og sauma. Stundum voru þeim sýnd landkort, einkum yfir Steindalinn; gátu börnin á þeim fundið hús og bæi feðra sinna; eður þeim voru sýnd og útlistuð fyrir þeim málverk yfir ímislegt úr ritníngunni eða náttúrusögunni. Í þessum húsum, er menn

---

sem lètt er, þá draga þeir það fyrst að sèr og hrynda því síðan burtu, og sèu þeir snertir, tindra úr þeim neistar. Nuddi maður á handlegg sèr raf, lakk eður þunna glerpípu, svo draga þau að sèr pappírsblað eður annað sem lètt er, og hrynda því síðan frá sèr. Sè nú rafstykkið, lakkið eða glerpípan stór, og menn nudda þau fast og bera síðan að andliti sèr, finst manni aungvu líkara enn komið sè við skinnið með smágjörðu hári; hárið á mönnum rís upp í loptið og menn finna maurildislykt. Rafurmagn (Electricitet) heitir það af því menn tóku fyrst eptir því á rafsteini. Menn hafa seinna fundið upp verkfæri, er menn sýna það með og auka það. Útl.

ætla að hafi verið hin fyrstu hæli*) handa börnum, var það einnig ákvarðað, að börnin skyldu tala hreint mál, svo mállefsunni írði smám saman útrýmt.

Meðan Oberlín með þessum ráðstöfnnum leitaðist við að ala upp nýa kynslóð, er betri væri, sá hann að litlu mundi verða til leiðar komið í því að menta hina eldri, ef ekki væri bætt úr ásigkomulagi þeirra hið ytra. Hann kappkostaði því einkum að efla iðni og atorku, og að hvetja þá til alls þess, er þarflegt var til að bæta atvinnuvegi þeirra. Áður höfðu Steindælir lifað afskektir mjög frá öðrum sveitum, og hafði það ekki all-lítið spilt mentum þeirra og velmegun. Honum virtist því einkum þarflegt að byggja brú yfir um Breuschfljótið, og ryðja veg, er næði á almannaveginn, svo menn gætu því betur haft samgaungu við aðrar sveitir, er í grend voru, og selt þar vörur sínar. Hann talaði opt um þetta, og þegar honum þótti alt vera sæmilega undirbúið, stefndi hann bændum á fund, sagði þeim frá áformi sínu og hvatti þá til að byrja verk þetta. Þegar á fundinn var komið, tók hann reku í hönd sèr og hèt á alla, sem ant væri um velferð sína og barna sinna, til fylgis við sig. Sumir fóru þegar með honum, en aðrir hlupu heim eptir verkfærum, og komu allir á þann stað, sem tiltekinn var. Af því áforminu var viturlega hagað og efni var nóg

*) Hæli (Asyler) eru bygð víða í útlöndum, og er í þeim veitt uppeldi munaðarlausum börnum og hjúkrað fátækum gamalmennum.

við höndina, gekk fljótt á verk þetta, enda fór kapp manna í vöxt jafnóðum og á leið. Eptir nokkra mánuði var búið að ryðja veginn og brúa fljótið, og menn treystu hyggindum og góðvild Oberlíns betur eptir enn áður. Til minnis um samheldni þá, er menn höfðu unnið þetta með, kallaði hann brúna „kærleiksbrú". En eins og Steindælir höfðu verið afskektir frá öðrum sveitum, svo höfðu þeir einnig haft lítil mök hverr við annan innsveitis. Á milli þorpanna voru fen og forræði mikil og sumstaðar þverhnýptir klettastallar; voru því vegirnir opt illa færir. Af því fyrri vegabótin hafði tekist svo vel, og bætt var úr þeirri þörfinni, sem meira var í varið, voru menn fúsari á að hlýða ráðum Oberlíns í því að bæta úr hinni minni, og honum var ekki lítil gleði í því, að sjá hversu samgángan varð líflegri á milli þorpanna, þegar búið var að leggja þar staðgóða og greiðfæra vegi, þó þeir væru viðhafnarlausir.

Nú fór Oberlín líka að hugsa um að bæta akuryrkjuna. En hann sá að orðin tóm mundu orka mjög litlu í því efni, ef hann reyndi ekki til að gánga sjálfur á undan með góðu eptirdæmi. Hann byrjaði því á að rækta lendur nokkrar, er lán undir prestssetrið, og tókst honum það vonum fremur. Lendur þessar voru mjög í leið manna, og þegar bændur gengu til kirkju, stóðu þeir við og dáðust að því hversu vel kornið spratt á ökrum prestsins. Loksins komu þeir til hans og báðu hann segja sèr með hverjum hætti þeir gætu náð annarri eins auðlegð af ökrunum sínum. Jarðeplin

höfðu verið höfuðafli sveitarinnar, en þau voru farin að þroskast svo ílla, að af mörgum ökrum, sem áður höfðu fengist af 18 eða 19 tunnur, fengust nú naumast 4 eða 5. Bændurnir hèldu að jörðin væri orðin ófrjófsöm, lètu svo búið vera, og hugsuðu ekki um hvernig þeir ættu að bæta úr því. Oberlín sá af hverju þetta kom, og lèt sækja jarðepli til Þýðskalands, Sveitsar og Lótríngar, og nú spruttu jarðeplin svo vel og urðu svo góð, að Steindælir græddu óðum á verðslun sinni í Strasborg. Hann reyndi líka að rækta í dalnum nýar korntegundir, er sveitarmenn þektu ekki áður, sömuleiðis margskonar matjurtir og ávaxtartrè. Þetta tókst honum á stundum ílla; en hann gjörði þá nýar tilraunir er betur tókust. Þannig var því háttað með hörræktina, og lèt hann sækja til hennar útsæði frá Rígu.*) Víða tókst honum vel að rækta smárann.**) Oberlín kendi Steindælum einnig að auka áburð sinn og bæta hann; hann kom þeim til að græða út engjar sínar, kom þeim í stöfunina með að plægja landið þegar það var sprottið, til þess að bæta jarðveginn; sagði þeim frá ímsum kostum villigrasa, sem eru gagnleg til læknínga og matar, sýndi þeim fram á það, hversu gott er að ala fènað í húsum, setti sjálfur gróðrarstíur af trjám, og kendi þeim að setja á

*) Ríga heitir borg nokkur í Rússaveldi, og vottar það framkvæmd Oberlíns að hann sótti útsæðið svo lángt að.
Útl.

**) Einhverja tegund af smáranum rækta menn í suðurlöndum og ala á pening sínn.
Útl.

trèn limar af öðrum trjám, og að veita burtu vatninu, sem kom ofan úr brekkunum og skemdi opt engjarnar. Til þess að efla betur framfarir þesskonar endurbóta, stofnaði Oberlín dálítið búsljórnarfèlag, er sameinaðist stærra fèlaginu í Strasborg. Frá þessu fèlagi fèkk hann árið 1805 rúma 60 ríkisdali, er heitið var til verðlauna bændum þeim, er tækju öðrum fram í því að gróðursetja trè og setja limar á ávaxtartrè; til þess að efla peningsræktina, hèt hann þeim verðlaunum af egin sjóði, er sýnt gæti fallegasta bolann. Þesskonar endurbætur voru ekki einúngis byrjaðar, heldur hvatti Oberlín jafnan til að þeim væri haldið áfram, bæði með því að tala við bændurna og með ímsu öðru móti. Af því að Oberlín var eins og faðir og vinur sóknarfólks síns, hafði hann tekið sèr þá reglu, að spyrja bændur við íms tækifæri um þesskonar hluti, er hann hèlt í það skiptið þyrfti að minna þá á. En hann spurði þá ekki einúngis að því, er viðvèk þeirra andlegu þörfum, heldur einnig atvinnu þeirra og búskaparháttum. Sumar spurníngarnar voru þannig: „hafið þið látið nokk„urn sunnudag hjá líða, án þess að gjöra eitthvert „kærleiksverk? elskið þið Frelsara ykkar svo, að „ykkur finnist ykkur lánga til að stofna og viðhalda „sífeldu samlyndi við nágrannana?" En hann hafði líka til að spyrja á þessa leið: „hafið þið reynt „til eins og dugandi menn, að halda vegunum í „góðu standi? hafið þið kappkostað í tómstundum „ykkar að brúka tímann, sem annars hefði orðið „ónýtur? sækja börnin ykkar skólann eins og „þau ega að gjöra? hafið þið látið ykkur ant um að

„spara eldsneytið og ekki látið eldinn brenna að „óþörfu? halið þið gróðursett eins mörg trè og „þið egið að gjöra, að minsta kosti helmíngi fleiri „enn mennirnir eru á bænum? hafið þið sett þau „niður eptir reglunum, en ekki eins og fáfróðir „klaufar?" o. s. frv.

Meðan akuryrkjunni þannig fór fram, tók bændur þegar að skorta fleiri og betri verkfæri. Oberlín lèt þá sækja töluvert af verkfærum til Strasborgar og seldi þau fyrir minna andvirði, enn hann hafði sjálfur keypt þau fyrir. Líka gjörði hann það sumum í hag, að hann leið þá um borgunina þángað til þeir voru búnir að selja jarðeplin, sem þeir öfluðu um sumarið. En það voru ekki einúngis verkfærin, sem Steindælir urðu að sækja til annarra sveita, heldur urðu þeir líka að sækja þángað ímsar nauðsynjar, er þeir gátu ekki án verið, því þá skorti öldúngis duglega smiði. Til þess að ráða úr þessu, valdi Oberlín nokkra röska únglínga og sendi þá til Strasborgar; lærðu þeir þar ímsar smíðar á hans kostnað. Af þessu flaut nú, að miklir peníngar, er áður höfðu verið goldnir til annarra sveita, lentu hjá dalbúum sjálfum, og iðni og starfsemi fór óðum í vöxt. Steindælir voru þá ekki hèðan af komnir uppá kaupstaðarmenn og voru nú færir um, eptir ráðum Oberlíns, að byggja sèr betri húsakynni og útvega sèr snotrara búsgagn og ímsa hagsmuni, sem gjöra lífið betra og skemtilegra. Til þess að útvega þeim peníuga til þessarra endurbóta, hafði Oberlín stofnað almennan sjóð er peníngar voru lèðir úr; en öllum skuldum til þessa sjóðs urðu menn að lúka einsog

heilagt fè væri, með ítrustu reglusemi; ef nokkurr var sá, sem ekki borgaði eptir ákveðin frest, fèkk hann í lángan tíma ekkert til láns. Oberlín kom bændum líka til að stofna með litlum tillögum, er reglulega voru borguð, skuldaborgunarsjóð, svo þeir gætu smám saman grynt á skuldum sínum við aðrar sveitir.

þess verður einnig að geta, að Oberlín kom mörgum í Steindal til gagns með lækníngum sínum. þegar hann var úngur, hafði hann verið barnakennari hjá merkis lækni nokkrum í Strasborg, og þar hann var í vináttu við lækninn, fór honum að þikja mikið í lækníngar varið, enda aflaði hann sèr tölnverðrar kunnáttu og æfíngar í þeim. Síðarmeir, þegar þörf gjörðist, fræddist hann betur í þeim, og varði nú þekkíngu sinni til aðstoðar sóknarfólkinn fyrir alls ekkert; mörgum hjálpaði hann, sem án læknis aðstoðar eflaust hefðu dáið. En undir eins og löglegum lækni varð náð, vildi hann ekki takast á hendur þá ábyrgð, sem hann var hræddur um að væri sèr ofvaxin. Hann kom því þessvegna til leiðar að únglíngur nokkurr var, gjörður út til að nema læknisfræði í Strasborg, með því skilyrði, að hann settist að í Steindal. Með líkum hætti útvegaði hann einnig yfirsetukonu.

Af öllum þessum endurbótum flaut nú, eins og von var, að fólkið fjölgaði. En þótt þeir fjölguðu, sem unnið gátu, þá þreyttist Oberlín ekki á að útvega þeim nokkuð að vinna. Stríðsmaður nokkurr, sem ferðaðist um sveitina, kunni þá íþrótt að bregða úr hálmi ímsa snotra og þarf-

lega hluti. Oberlín fèkk hann til að kenna þetta nokkrum sveitarmönnum. þessi iðja varð nú almenn í sveitinni, og gengu smíðisgripirnir vel út í kaupstöðunum. Meira var samt í það varið er Oberlín kom því á gáng að spinna viðarulln. Hann lèt sèr mjög ant um þenna atvinnuveg, og gjörði það til að efla hann, að hann hèt verðlaunum duglegustu spunakonunum. Fór það einnig að ætlun hans, að þeim fór mjög fram að spinna. Á spuna þessum græddu Steindælir á einu ári 11,000 ríkisdali, og er það allmikið í svo lítilli sveit. En af þessu flaut annað, sem sveitinni kom enn þá betur. það hafði borist um allar áttir, hversu iðjusamir og ráðvandir Steindælir voru, og hverr merkis maður Oberlín var, svo verkstjóri nokkurr allmikill fèkk augastað á sveit þessarri. Árið 1814 bygði Legrand frá Basel bandavefstaði í þorpinu Fonday; gjörðist hann vinur mikill og aðstoðarmaður Oberlíns, og gjörði sveitarmönnum margt gott. Með þessu móti fengu ekki einúngis fullorðnir, heldur einnig börnin nokkuð að starfa. Gjörði Legrand það einnig sveitarmönnum í hag, að hann skipti vefstöðunum niður á þorpin. þannig varð mönnum hægra að stunda jarðarrækt og innivinnu undir eins, foreldrarnir gátu líka haft börnin hjá sèr og gætt þeirra fyrir margskonar slisum, sem börnum annars eru búin í þesskáttar stórsmiðjum. Skömmu áður enn Oberlín dó voru 3000 manns í sókninni, er þó ekki höfðu verið fleiri enn 600 þegar hann kom þángað.

Oberlín hafði nú þannig starfað rúm 50 ár

sóknarbörnum sínum til heilla, svo það lèt að líkindum að elli hans irði næsta fögur. Í kríngum hann voru ástúðleg börn og dygg hjú, hann hafði jafnan eitthvert góðverk fyrir stafni, gladdist af þeirri blessun, er hann sá hvervetna breiðast út, og átti þannig blíða og rósama elli. Hið æðsta bústjórnarfèlag í Parísarborg sendi honum heiðurspeníng, og Frakkakonúngur kross heiðursfylkíngarinnar. Um þetta mátti honum þikja vænt, þar hann var sèr þess meðvitandi að hann hafði unnið til þess. En þau voru launin best, næst þeim er hans egið hjarta veitti honum, að alt sóknarfólkið elskaði hann; það elskaði hann og virti eins og föður og kallaði hann líka „föður sinn". Á hverjum bæ þótti mönnum það nokkurskonar blessun, ef hann kom inn fyrir dyrnar, þegar hann var á ferð um sóknina.

Oberlín dó 1ta dag Júnímánaðar 1826 og hafði hann þá 6 vetur yfir áttrætt. Alt sóknarfólkið fylgdi honum grátandi til grafarinnar, og eitt af hjúum hans, er hjá honum hafði verið í 50 ár, fèkk þann heiður að setja krossmark á leiði hans. En sveitin sjálf er sá minnisvarði, er jafnan mun best lýsa því hvernig Oberlín var, og bera ljóslega vottinn um hugarfar hans. Sá sem ritað hefur æfisögu Oberlíns, fer um þetta svofeldum orðum: „þegar menn koma yfir um Breusch-„fljótið og inn í Steindal, sjá menn þegar þokka-„leg hús, hygð af steinum, viðhafnarlausa og góða „vegi, brúaðar götur bæa á milli, veggi, sem hlaðnir „eru til að verja landbrotum, læki með tæru vatni, er menn hafa hlaðið að á báða vegu, svo

„þeir skemmi ekki hlíðarnar, sem þeir renna um
„niður í fljótið, heldur verði notaðir mönnum til
„þarfa. Trjárunnar og frjósamir akrar innanum
„kostulegar engjar gjöra sveitina að nokkurskonar
„aldíngarði, þótt hún liggi í stórgrýttu fjall-lendi.
„Allsháttaðar verksmiðjur, túna- og garðaræki auka
„fjör manna á bænum, og sækja Strasborgarmenn
„mjög smíðisgripi þeirra og ávexti. Þegar ferðamað-
„urinn í fyrsta sinni kemur í Steindal og kynnist
„við sveitarmenn, bregður honum við hversu þeir
„eru alúðlegir, hispurslausir, glaðlyndir, reglu-
„samir, greiðvíknir og mannblenduir, og er það
„fljótt auðsèð, að þeir hverki gjöra sèr það upp,
„nè stæla það eptir öðrum, heldur kemur það frá
„hjartanu. Þegar menn tala við fólkið verða menn
„hissa á hversu mál þeirra er fegra enn í ná-
„grannasveitunum, því þar er talaður blendíngur af
„illri Frakknesku og Þjóðverja máli, en Steindælir
„tala annaðhvert hreina Frakknesku eða snjalla
„Þjóðversku. Orðalag þeirra vottar einníg að þeir
„eru mentaðir og þá skortir aungvan þarflegan
„fróðleik, og þessa kosti eru menn þó ekki vanir
„að finna hjá öðrum enn siðuðum staðarbúum.
„Við alt þetta verða menn varir þótt menn ein-
„úngis ferðist um dalinn og gái lauslega að öllu.
„En ef menn staðnæmast þar til lángframa og
„lángar til að gæta nákvæmlega að öllu, þá munu
„menn fljótt verða þess varir, að þótt sveitarmenn
„hafi með iðju sinni og atorku gjört fjallóbygð
„þessa að nokkurskonar paradís, þá er samt önnur
„fegri paradís í hjörtum þeirra, sem einúngis
„Guðs hönd getur yrkt og helgað, en mennirnir

„ekki. Hvervetna vottar fyrir bróðurástinni á „meðal þeirra, og er henni svo háttað, að enginn „annarr enn Guð getur vakið hana í hjörtum mann- „anna. þeir elska hverr annan eins og börn af „sama foreldri. Ef eitthvað bjátar á fyrir einum „þeirra, þá liggur ílla á öllum hinum; ef hann er „glaður, þá eru þeir það líka. Hinir úngu hjálpa „þeim sem eru gamlir eða veikir, við útivinnuna. „þegar þeir hafa lokið verki sínu á kvöldin, taka „þeir sig saman og skemta sèr á því að gjöra eitt- „hvert góðverkið. þegar einhverr þarf að byggja „nýan kofa, hjálpa þeir honum til þess og flytja „til viðu og hleðslu ef þörf gjörist. Ef einhverr „fátæklíngurinn missir kúna sína, skjóta allir „sóknarmenn saman til að bæta honum missirinn. „Kríngum húsbændurna og konur þeirra eru fátæk „tökubörn, sem þau gánga í foreldra stað. Margar „vinnukonur, sem aumkvast yfir munaðarleysíngj- „ana, útvega sèr fyrir nokkuð af kaupi sínu hús- „næði handa þeim, og ala þá þannig upp við þarf- „lega vinnu og allskonar góða siðu. það er auð- „sèð á öllu að í þessarri sveit búa kristnir menn, „og að þeir eiga nafnu þetta skilið".

## Prentvillur.

Bls. 2 ath. gr: nefnist l. heitir.
— 27 l. 25, áru l. ár.
— 55 - 31, 1633 l. 1733.
— 65 ath. gr: Drottinsbuð l. Drottinsbúð.
— 99 l. 13, hitti þar l. hitti hann þar.
— 119 - 19, skýgður l. skygður.
— 135 - 2 að neðan: imeon l. Símeon.

